Danmǫrk skipaher miklum ok helt um sumarit til Vindlandz með allan herinn ok hafði allmikinn her; svá segir Arnórr jarlaskáld:

39. Heyra skalt, hvé herskjǫld bǫ́ruð, hilmis kundr, til Venða grundar (heppinn drótt af hlunni sléttum hélug bǫrð) í stefjaméli; aldri frák enn, vísi valdið Venða sorg, at dǫglingr spenði (flaustum varð þá flóð of ristit) fleiri skip til óðals þeira.

En er Magnus konungr kom til Vindlandz, þá lagði hann til Jómsborgar ok vann þegar borgina, drap þar mikit fólk ok brendi borgina ok landit víða út í frá ok gerði þar it mesta hervirki; svá segir Arnórr jarlaskáld:

40. Skjǫldungr, fórt of óþjóð eldi, auðit vas þá flotnum dauða; hæstan kynduð, hlenna þrýstir, hyrjar ljóma suðr at Jómi; hvergi þorði hallir varða heiðit folk í virki breiðu; buðlungr, unnuð borgar mǫnnum bjǫrtum eldi stalldræp hjǫrtu.

Mikit fólk á Vindlandi gekk til handa Magnúsi konungi, en miklu var hitt fleira, er undan flýði. Fór þá Magnús konungr til Danmerkr aptr, bjó sér þar til vetrsetu, en sendi frá sér herinn bæði inn danska ok svá mart lið, þat er honum hafði fylgt af Nóregi.

K. 25. Gefit Sveini konungsnafn.

Inn sama vetr, er Sveinn Úlfsson hafði fengit yfirsókn um Dana-veldi ok hann hafði vingazk við allmikit stórmenni ok fengit alþýðu lof, þá lét hann gefa sér konungs nafn, ok hurfu at því ráði margir hǫfðingjar. En um várit, er hann spurði, at Magnús konungr fór norðan ór Nóregi ok hafði her mikinn þá fór Sveinn til Skáneyjar ok þaðan upp á Gautland, ok svá til Sviþjóðar á fund Emundar konungs, frænda síns, ok dvalðisk þar um sumarit, en hafði njósnir í Danmǫrk um ferð Magnús konungs eða um fjǫlmenni hans. En er Sveinn spurði, at Magnús konungr hafði látit frá sér fara mikinn hluta liðs síns, ok svá þat, at hann var suðr á Jótlandi, þá reið Sveinn ofan af Svíþjóð ok hafði þá lið mikit, er Svíakonungr fekk honum. En er Sveinn kom út á Skáney, þá tóku Skánungar vel við honum ok heldu hann þar fyrir konung, dreif þá lið mikit til hans. Síðan fór hann út til Sjálandz, ok var þar vel við honum tekit, lagði hann þar alt undir sik. Þa fór hann í Fjón ok lagði undir sik allar eyjar, ok gekk fólkit undir hann; hafði Sveinn her mikinn ok mart skipa.

K. 26. Frá her Magnús konungs.

Magnús konungr spurði þessi tíðendi ok þat með, at Vinðr hǫfðu her úti. Síðan stefndi Magnús konungr liði til sín, ok drósk honum brátt herr um alt Jótland. Þá kom til hans Óttahertogi af Saxlandi ór Brúnsvík; hann átti þá Ulfhildi, dóttur Óláfs konungs ins helga, systur Magnús konungs; hertoginn hafði mikla sveit manna. Dana-hǫfðingjar eggjuðu Magnús konung at fara í móti Vinða-herinum ok láta eigi heiðit fólk ganga þar yfir land ok eyða; ok var þat ráð tekit, at konungr snýr her sínum suðr á leið til Heiðabýjar. En er Magnús konungr lá við Skotborgará á Hlýrskógsheiði, þá kom honum njósn af her Vinda ok þat með, at þeir hǫfðu svá mikinn her, at engi fekk talt, ok Magnús konungr hafði engan hlut við fjǫlmennis ok honum væri sá einn til at flýja undan. Magnús konungr vildi þó berjask, ef mǫnnum þœtti nǫkkur fǫng á, at hann mætti sigrask; en flestir lǫttu ok sǫgðu allir eitt til, at Vinðr hǫfðu óflýjanda her, en Ótta hertogi fýsti heldr at berjask. Lét konungr þá blása saman ǫllum herinum ok lét alla menn herklæðask, ok lágu þeir úti um nóttina undir skjǫldum sínum, þvíat þeim var sagt, at herr Vinða var kominn nærr þeim, ok var konungr mjǫk hugsjúkr; þótti honum ilt, ef hann skyldi flýja verða, þvíat hann hafði þat aldri reynt, svaf hann lítit um nóttina ok sǫng bœnir sínar.

K. 27. Jartegn Óláfs konungs.

Eptir um daginn var Mikjálsmessu-aptann. En er komit var at degi, þá sofnaði konungr ok dreymði, at hann sá inn helga Óláf konung, fǫður sinn, ok mælti við hann: »ertu nú mjǫk hugsjúkr ok óttafullr, er Vinðr fara móti þér með her mikinn; ekki skaltu hræðask heiðinn her, þótt þeir sé margir saman; ek mun fylgja þér í orrostu þessi; ráðið þér þá til bardaga við Vinðr, er þér heyrið lúðr minn«. En er konungr vaknaði, þá segir hann draum sinn. Tók þá at lýsa af degi; þá heyrði alt fólk í lopt upp klukkuhljóð, ok kendu Magnús konungs menn, þeir er verit hǫfðu í Niðarósi, at svá þótti, sem Glǫð væri hringt; þá klukku hafði Óláfr konungr gefit til Klemenskirkju í kaupangi.

K. 28. Orrosta á Hlýrskógsheiði.

Þá stóð upp Magnús konungr ok kallaði, at blása skyldi herblástr. Fór þá Vinða-herrinn sunnan yfir ána at þeim; hljóp þá upp allr konungsherrinn ok stefndi í móti heiðingjum. Magnús konungr steypði af sér hringabrynju ok hafði ýzta rauða silkiskyrtu ok tók í hǫnd sér øxina Hel, er átt hafði Óláfr konungr.. Magnús konungr rann fyrir ǫllum mǫnnum ǫðrum í móti herinumok hjó þegar tveim hǫndum hvern mann at ǫðrum; svá segir Arnórr jarlaskáld: 41. Óð með øxi breiða ódæsinn framm ræsir, (varð of hilmi Hǫrða hjǫrdynr) en varp brynju, þás of skapt, en skipti skapvǫrðr himins jǫrðu, (Hel klauf hausa fǫlva) hendr tvær jǫfurs spendu. Orrosta þessi var ekki lǫng; váru konungs menn inir ákǫfustu; en hvar sem þeir kómu saman, fellu Vinðr svá þykt sem unnvǫrp lægi; en þeir, er síðarr stóðu, snøru á flótta, ok váru þeir þá hǫggnir niðr sem búfé. Rak konungr sjálfr flóttann austr yfir heiðina, ok fell flokkum um alla heiðina; svá segir Þjóðólfr: 42. Hykk í hundraðs flokki Haralds bróðurson stóðu (hrafn vissi sér hvassast hungrbann) framast manna; vítt lá Venða flótti; varð, þars Magnús barðisk, hǫggvinn valr at hylja heiði rastar breiða. Þat er alþýðu mál, at ekki mannfall hafi orðit jafnmikit á Norðrlǫndum í kristnum sið sem þat, er varð á Hlýrskógsheiði af Vinðum. En af liði Magnús konungs fell ekki mart, en fjǫlði varð sårt. Eptir orrostu lét Magnús konungr binda sår sinna manna, en læknar váru ekki svá margir í herinum, sem þá þurfti; þá gekk konungr til þeira manna, er honum sýndisk, ok þreifaði um hendr þeim, en er hann tók í lófana ok strauk um, þá nefndi hann til xii. menn, þá er honum sýndisk sem mjúkhenztir mundu vera, ok segir, at þeir skyldu binda sár manna, en engi þeira hafði fyrr sár bundit; en allir þessir urðu inir mestu læknar. Þar váru ii. íslenzkir menn, var annarr Þorkell Geirason af Lyngum, annarr Atli, faðir Bárðar svarta í Selárdal, ok kómu frá þeim margir læknar síðan. Eptir þessa orrostu varð frægt mjǫk víða um lǫnd jartegn sú, er gǫrt hafði inn helgi Óláfr konungr; ok var þat alþýðu mál, at engi maðr myndi þurfa at berjask við Magnús konung Óláfsson, ok Óláfr konungr, faðir hans, væri honum svá nákvæmr, at óvinir hans mætti enga mótstǫðu veita honum fyrir þá sǫk.

K. 29. Orrosta á Ré.

Magnús konungr snøri þegar herinum móti Sveini, er hann kallaði jarl sinn, þótt Danir kallaði hann konung. Réð Magnús konungr sér til skipa ok bjó herinn, fjǫlmentu þá hvárirtveggju mjǫk. Váru þá margir hǫfðingjar í liði Sveins, Skánungar, Hallandzfarar, Fjónbúar; en Magnus konungr hafði mestNorðmenn ok Jóta, helt hann þá liði sínu til móts við Svein. Varð fundr þeira fyrir Vestlandi á Ré, varð þar orrosta mikil, ok lauk svá, at Magnús konungr hafði sigr, en Sveinn kom á flótta ok lét lið mikit, flýði hann þá aptr á Skáney, þvíat hann átti hœli uppi á Gautlandi, ef hann þurfti til at taka. En Magnús konungr fór þá aptr til Jótlandz ok sat þar um vetrinn fjǫlmennr ok hafði gæzlu á skipum sínum; þessa getr Arnórr jarlaskáld:

43. Fúss lét á Ré ræsir rammþing háit Glamma; valska rauð fyr víðu Vestlandi gramr branda.

K. 30. Orrosta í Árósi.

Sveinn Úlfsson fór þegar á skip sin, er hann spurði, at Magnús konungr var genginn af skipum. Dró Sveinn lið at sér, alt þat er hann fekk, ok fór þá um vetrinn um Sjáland ok um Fjón ok um eyjar; ok er dró at jólum, helt hann suðr til Jótlandz, lagði fyrst til Limafjarðar, ok gekk þar mart fólk undir hann, en hann tók gjǫld af sumum; sumir fóru á fund Magnús konungs. En er þetta spurði Magnús konungr, hvat Sveinn hafðisk at, þá fór hann til skipa sinna ok hafði með sér Norðmanna lið þat, er þá var i Danmǫrk, en sumt Dana lið; helt þá sunnan fyrir land. Sveinn var þá í Árósi ok hafði mikit lið; en er hann spurði til hers Magnús konungs, þá lagði hann sínu liði ór bœnum ok bjósk til orrostu. En er Magnús konungr hafði spurt, hvar Sveinn var, ok hann vissi, at þá myndi vera skamt millim þeira, þá átti hann húsþing ok talaði við lið sitt, segir svá: »nú hǫfum vér spurt, at jarl með lið sitt mun hér nú liggja fyrir oss; er mér svá sagt, at þeir hafi lið mikit; ok vil ek gera yðr kunnigt um ætlan mína; vil ek leggja til fundar við jarl ok berjask við hann, þótt vér hafim lið nǫkkuru færa; munu vér traust várt eiga enn sem fyrr, þar er guð sjálfr er ok inn helgi Óláfr konungr, faðir minn, hefir hann oss nǫkkurum sinnum fyrr sigr gefit, þá er vér hǫfum barzk, ok hǫfum vér opt haft lið minna en óvinir várir. Nú vil ek, at menn búisk svá við, at vér skulum leita þeira, ok þegar er fund várn berr saman, þá skulum vér at róa ok taka þegar til bardaga; veri þá allir búnir mínir menn at berjask«. Síðan herklæddusk þeir, ok bjó hverr sik ok sitt rúm; røru þeir Magnús

konungr fram, þar til er þeir sá lið jarls; greiddu þegar atróðrinn. En Sveins menn vápnuðusk ok tengðu saman skip sín; tóksk þá þegar hǫrð orrosta; svá segir Þjóðólfr:44. Lǫgðu (grœðis glóða) gramr ok jarl fyr skǫmmu (þar kom bitr á bǫrva brandleikr) saman randir, svát manþinga munðut merkjendr Heðins serkjar (herr náði gný gerva geirs) orrostu meiri. Þeir bǫrðusk um stafna, ok máttu þeir einir hǫggum við koma, er í stafni váru, en þeir lǫgðu kesjum, er í fyrirrúmi váru, en allir þeir, er aptarr váru, skutu snœrispjótum eða gaflǫkum eða vígǫrum, en sumir bǫrðu grjóti eða skeptiflettum, en þeir, er fyrir aptan siglu váru, skutu bogaskotum; þess getr Þjóðólfr: 45. Skotit frák skeptiflettum (skjótt) ok mǫrgu spjóti, (brǿð fekk hrafn) þars hǿðum hjaldr, á breiða skjǫldu; neyttu, mest sem mǿttu, menn at vápna sennu, baugs en barðir lǿgu bǫrvar, grjóts ok ǫrva.

46. Bǿruð bǫslar fleiri bogmenn at hǫr tognum; mundit þann dag Þrœndi þreyta fyrr at skeytum; svá þykt flugu síðan snœridǫrr of skœru, ótt vas ǫrdrif látit, illa sátt í milli. Hér segir þat, hvernig var ákǫf skothríðin. Magnús konungr var fyrst ǫndverða orrostu í skjaldborg, en er honum þótti seint á orkask, þá hljóp hann fram ór skjaldborginni ok svá eptir skipinu ok kallaði hátt ok eggjaði sína menn ok gekk alt fram í stafninn í hǫggorrostu. En er þat sá hans menn, þá eggjaði hverr annan; var þá kall mikit um allan herinn; svá segir Þjóðólfr: 47. Mjǫk bað (Magnús rekka) mannr rǫskliga annan (hǫrð þrifusk boð), þars bǫrðusk, bǫðský framar knýja, Gerðisk þá in ákafasta orrosta. Í þeiri hríð hrauzk skip Sveins framan um stafninn ok sǫxin; þá gekk sjálfr Magnús konungr með sína sveit upp á skipit Sveins, ok síðan hans maðr hverr at ǫðrum; gerði þá svá harða atgǫngu, at Sveins menn hrukku fyrir, ok hrauð Magnús konungr þat skip ok síðan hvert at ǫðru. Flýði þá Sveinn ok mikill hluti liðs hans, en fjǫlði fell hans manna, ok mart fekk grið; svá segir Þjóðólfr: 48. Vǫrðr, gekk meirr at morði Magnús, kjalar vagna, (þat vas frægt) í fagran framstafn varar hrafni; gerði þar svát þverði þengill, en óx fengi, (skeiðr nam herr at hrjóða) húskarla lið jarli. 49. Áðr svanfoldar seldi sólrýrandi enn dýri jarls lá ferð á ferli, fjǫrgrið stǫfum hjǫrva.MAGN. GOD.

441

Pessi orrosta var dróttinsdag inn næsta fyrir jól; sva segir Pjóöóölfr:

50. Rçmm vas hildr, sús hramma flaut, þás feigir létu harðelds viðir bçröusk, fjçr gnýstafir hjçrva

(herr gekk snart at snerru) (þjóð sçkk niör) at nauöum, sunnudags of unnin; nár á hverri bçru.

Magnús konungr tók þar vii. skip af Sveins mçnnum; sva segir Pjóðólfr:

51. Hrauð Áleifs mçgr áðan (jçfurr vá sigr) ens digra

Ok enn kvaö hann:

52. Mist hafa Sveins at sýnu, sverögautr, fçrunautar (hçrö es heldr of oröin) heimkvçmu (fçr beima) ;

(fregnat slikt ór Sogni) sjau skip (konur hnipnar).

hrærir hausa þeira, hreggi æst, ok leggi (sjár þýtr auös of órum) unnr á sanda grunni.

53. Gær sák, grjóti stóru gein hauss fyrir, steini, (fóra fylking þeira fast) harðliga kastat;

ofan keyrðum vér (orðum jçrö muna Sveinn of varða), staðar hefr stafn i miðju, strandhçgg, numit landi.

15

Sveinn flýði þegar um nóttina til Sjálandz með því liði, sem undan hafði komizk ok honum vildi fylgja, en Magnus konungr lagði at landi skip sin ok lét þegar um nóttina lið sitt fara á land; en snimma um morgininn kómu þeir ofan meö strandhçgg mikil; þess getr Pjóðólfr skåld:

K. 31. Flótti Sveins konungs. 25

Magnús konungr helt þegar sunnan sinu liði til Sjálandz eptir Sveini. En þegar er Magnús lið kom at, þá flýði Sveinn þegar á land upp ok alt liö hans; en Magnús konungr sótti eptir þeim ok rak flóttann, drap slikt, er þeir náðu; svá segir Pjóðólfr:

54. Spurði einu orði (çld blóöroðna skjpldu) satt 's at svá mçrg (åtti) Selunds mær, hverr vé bæri; auðtróðu varð

auðit yfir of skog at spróga; titt bar týmargr flótti til Hringstaða iljar.

55. Saurstokkinn bar svira snarr Skçnunga harri, undr 's nema allvaldr Lundar aldrprúðr fyrir haldi; gær flugu mold ok mýrar, merki jarls ens sterkja slóð drap framm at flóði, flaugar dçrr, of hauga.



Sveinn flýði þá yfir á Fjón; en Magnús konungr fór þá herskildi yfir Sjáland ok brendi viöa fyrir þeim mçnnum, er um haustit hçföu slegizk i flokk meö Sveini; svá segir PjóÖólfr: 56. Náði jarl at evÖa 57. Rçnd (lézt) ræsir Prænda

jçfra setr á vetri; (reiör) þorðir (bú) meiða,

lézt eigi þú litla hús namt hvert ok eisu

landvçrn af þér standa; (hyrfeld) gefa eldi;

máttir, Magnús, hætta, §'r9u vildir þú gjalda,

mildr, i fólk und skildi; gæöinga vinr, skæöar

nefa Knúts vas þá nýtum (çrt rendu þeir undan)

nær, sem ráðinn væri. jarls fylgjorum dylgjur.

K. 32. Brent Fjón.

Pegar er Magnús konungr spuröi til Sveins, þá helt hann sinu liöi yfir til Fjóns. En þegar er Sveinn spuröi þat, þá gekk hann á skip ok siglöi ok kom fram á Skáni, fór þaöan i Gautland ok siöan á fund Svía-konungs. En Magnus konungr gekk upp á Fjóni, lét þar ræna ok brenna fyrir mçrgum. Allir Sveins menn, þeir sem þar váru, flýöu brot víðz vegar; sva segir Pjóöölfr:

58. Hrindr af hróka landi 59. Menn eigu þess minnask, hregg af eikiveggjum manna Sveins, at kanna,

sunnr (leikr eldr of unninn viga Freys, sizt vóru, óör) i lopt upp glóðum; vefgefn, þríar stefnur;

bær logar hçlfu hæra vçn es fagrs á Fjóni

(hjónum nær) á Fjóni, fljóðs (dugir vçpn at rjóöa),

(ræfr þola nauö ok næfrar) verum meö fylköu folki Norömenn sali brenna. framm i vápna glammi.

Eptir þetta gekk alt fólk undir Magnús konung i Danmçrk. Pá var þar friðr góðr inn øfra hlut vetrar; setti þá Magnús konungr sina menn til landstjórnar um alt land þar i Danmçrk. En er á leiö várit, þá fór hann herliöi sinu norör i Nóreg ok dvalöisk þar mjçk lengi um sumarit.

K. 33. Orrosta viö Helganes.

En er Sveinn spuröi þat, þá reiö hann þegar út á Skáni ok haföi lið mikit ór Svia-veldi. Tóku Skánungar vel viö honum; eflðisk hann þá at liði; fór siöan ut i Sjáland ok lagöi þar undir sik, sva Fjón ok allar eyjar. En er þat spuröi Magnus konungr, þá eflöisk hann at liöi ok at skipum ok helt siöan suör til Dan-MAGN. GÖÐ.



markar. Hann spuröi, hvar Sveinn lá meö her sinn; helt Magnús konungr þá til móts viö hann; varör fundr þeira þar sem Helganes heitir, ok var þat at kveldi dags. En er orrosta tóksk, haföi Magnus konungr liÖ minna ok skip stærri ok skipuö betr; svá segir Arnórr jarlaskáld:

60. Vitt hefk heyrt at heiti røkr çndurt baö randir Helganes, þars eigi reggbúss saman leggja, vágs enn viöa frægi rógskýja helt, Rygja, vargteitir hrauö marga; regni haustnatt gegnum.

Orrosta var in snarpasta, en er á leiö nóttina, geröisk mikit mannfall. Magnus konungr skaut alla nóttina

handskoti; þess getr Pjóöólfr:

61. Hizig laut, es heitir mætr helt mçrgu spjóti Helganes, fyr kesjum Mœra gramr i snæri; (sukku sárir rekkar) odd rauö aski studdan Sveins ferö (bana veröir) ; ç>rr landreki dçrrum.

Pat er skjótast at segja af orrostu þessi, at Magnús konungr hafÖi sigr, en Sveinn flýði; var skip hans hroöit meö stçfnum, ok çll skip Sveins çnnur váru hroöin. Svá segir Pjóöólfr:

62. Flýði jarl af auöu, réö herkonungr hrjóöa ótvinn, skipi sinu hneitis egg i sveita; morð, þars Magnus gerði sprændi blóö á brýndan meinfœrt, þaðan, Sveini; brand; vá gramr til landa.

Ok enn segir Arnórr:

63. Skeiðr tók Bjarnar bróöur (þjóð røri þeirar tiöar

ballr Skçnunga allar þingat) gramr með hringum.

Par feil mikit liö af Sveins mçnnum; fekk Magnus konungr ok hans menn mikit hlutskipti; svá segir PjóÖólfr:

64. Skjçld bark heim frá hjaldri vçpn gatk friö, en fljóöi (hlauzk mér til þess) gauzkan, fyrr sagöak þat kyrru, ramr vas suör á sumri þar fekk ek hjalm, es hilmir sverödynr, ok þó brynju; harÖfengr Dani baröi.

Sveinn flýði þá upp á Skáni ok alt liö hans, þat er undan komsk, en Magnús konungr ok hans liö ráku flóttann langt á land upp, ok varö þá litil viörtaka af Sveins mçnnum eöa bóndum; sva segir PjóÖólfr:

65. Bauö Áleifs sonr áÖan snarr baö hilmir herja, upp á land at standa, (hér 's skark i Danmçrku) gekk meö manndýrð mikla fleygir hvast of hauga Magnús reiör af skeiöum; hestr, of Skáney vestan.4 22



Siöan lét Magnus konungr fara herskildi alt um byggÖina; svá segir Pjóöólfr:

66. Nú taka Norðmenn knýja, nær gçngum vér stçngum, (berkak) Magnus merki (minn skjçld á hliö) sjaldan; Siðan tóku þeir at brenna byggÖina; flýði þá fólk alt viz vegar undan; svá segir Pjóðólfr:

skýtra skeifum fœti Skáney yfir sláni (fár vegr es mér fegri fundinn) suÖr til Lundar.

67. Bçrum járn at œrnu iskçld á liö visa, skjótt riða nú skreyttar Skónunga lokvánir; rauör leikr of bœ breiðan bráör at óru ráöi

eldr, en œrnir valda atblásendr þvi vási.

68. Svíðr of seggja búöir (siklingr) i (her miklum) (eyðir bvggö) sem bráöast bjartr eldr Danaveldi;

móör berr hair of heiði hjaldrs Danmarkar skjçtldu, vér hlutum sigr en sárir Sveins menn fyrir renna.

69. FjçrÖ lét fylkir verða forntraddan mó spornat (leynumk litt) á Fjóni (liös skjçldunga á miðli) ; muna fvr Magnús syn ja menn Sveins, þeirs nú renna, (upp fara mçrg i morgin merki) stórra verka.

Sveinn flýöi þá austr á Skáni. Magnús konungr fór þá til skipa sinna ok helt siöan austr fyrir Skáneyrarsiðu ok varö mjçk búizk af skyndingu. Pá kvaö Pjóðólfr þetta: 70. Ek hef ekki at drekka hggr fyr oss, en ugga

annars, nema sæ þenna, alllitt Svia kgllumk,

(sýgk ór sçltum ægi (drýgt hçtfum vås fyr visa)

sylg) es jçfri fylgik; viö Skáneyrar siöa.

Sveinn flýöi upp á Gautland ok sótti siöan á fund Svia-konungs ok dvalöisk þar um vetrinn i góöu yfirlæti.

K. 34. Hernaör Magnus konungs.

Magnús konungr snør i aptr ferö sinni, þá er hann hafði undir sik lagt Skáni; helt þá fyrst i Falstr, veitti þar upgçngu ok herjaöi þar, drap hann mikit liö, þat er áör var gengit undir Svein; þess getr Arnórr: 71. Svik réö eigi eklu hlóö, en hála téöu

allvaldr Dçnum gjalda; hirömenn ara grenni,

lét fullhugaör falla auöar þorn fyr çrnu

Falstrbvggva liö tyggi; ungr valkgstu þunga.

Síðan helt Magnus konungr liöi sínu til Fjóns ok herjaöi ok vann þar þá mikit hervirki; svá segir Arnórr jarlaskáld:

72. Enn rauð fron á Fjóni, minnisk çld, hverr annan fold sótti gramr dróttar, jafnþarfr blçum hrafni

(ráns galt herr frá hçnum) (çrt gat hilmir hjarta)

hringserks lituör merki; herskyldir tøg fyldi.

K. 35. Frá orrostum Magnús konungs. Magnús konungr sat þann vetr i Danmçrk, ok var þá góðr friðr. Hann hafði átt i Danmçrk orrostur margar ok haft i çllum sigr. Oddr kikinaskáld segir svi: 1

73. Vas fyr Mikjálsmessu en fyr jól vas çnnur malmgrimm háið rimma; óhlitulig litlu

fellu Vinör, en vçnöusk (UPP hófsk grimm meö gumnum

vápnhljóöi mjók þjóöir; gunnr) fyr Árós sunnan. Enn segir Arnórr: i

74. Hefnir, fenguö yrkis efni, fjórar hefr þú, randa rýrir Áleifs, gervik slikt at mólum; reyrar setrs, á einum vetri hlakkar lætr þú hrælçg drekka allvaldr, est þú ofvægr kallaðr) hauka; nú mun kvæöi aukask; çrva hriðir frœkn of gçrvar.

Þrjár orrostur átti Magnús konungr viö Svein ülfsson; svá segir 2 Þjóðólfr:

75. Háðisk heilli góðu brand rauö buölungr Þrænda, hildr, sem Magnus vildi; berr, iöula, siöan

seir of sigr at þvlja hann ept hervig þrennin

sóknstœrir mér færi; hæra skjçld at gjçldum. 2

K. 36. Frá bréfum Magnus konungs.

Magnus konungr réð þá bæöi fyrir Danmçrk ok Noregi. En eptir þat er hann hafði eignazk Danaveldi, þá geröi hann sendimenn vestr til Englandz; fóru þeir á fund Játvarðar konungs ok fluttu honum bréf ok innsigli Magnús konungs. En þat stóö 3 á bréfum meö kveöjusending Magnús konungs: »þér munuö spurt hafa einkamál þau, er vér Hçröaknütr geröum meö oss, at hvárr okkar, sem lifði eptir annan sonlauss, þá skyldi så taka lçnd ok þegna, þau er hinn hafði átt. Nú er þat svá oröit, sem ek veit, at þér hafiÖ spurt, at ek hefi tekit alt Dana-veldi i arf eptir 3 Hçröaknut; hann átti, þá er hann andaðisk, engum mun síðr England en Danmçrk ; kçllumk ek nú eiga England eptir réttum måldçgum. Vil ek, at þú gefir upp riki fyrir mér, en at çörum4 

kosti mun ek sækja til með styrk hers bæöi af Dana-veldi ok Nóregi; mun þá sá ráða lçndurn, er sigrs verðr auðit«.

K. 37. Svçr Játvarðar konungs.

En er Játvarðr konungr hafði lesit bréf þessi, þá svarar hann svá: »þat er çllum mçnnum kunnigt hér i landi, at Aðalráðr konungr, faöir minn, var óðalborinn til rikis þessa bæði at fornu ok nýju. Váru vér iiii. synir hans; en er hann var fallinn fra lçndum, þá tók riki ok konungdóm Eatmundr bróðir minn, þviat hann var elztr vár brœðra; unða ek þá vel við, meðan hann lifði. En eptir hann tók rikit Knútr konungr, stjúpfaðir minn; var þá eigi dælt til at kalla, meðan hann lifði. En eptir hann var konungr Haraldr bróöir minn, meðan honum varö lifs auðit. En er hann andaðisk, þá réð Hçröaknütr, bróðir minn, fyrir Dana-veldi, ok þótti þat þá einu rétt brœðraskipti með okkr, at hann vær i konungr bæöi yfir Englandi ok Danmçrk; en ek hafða ekki riki til forráða. Nú andaðisk hann;

var þat þá ráð hér allra landzmanna at taka mik til konungs hér i Englandi. En meðan ek bar ekki tignarnafn, þjónaða ek minum hçföingjum eigi stórligarr en þeir menn, er enga ætt áttu hér til rikis. Nú hefi ek tekit hér konungs vigslu ok svá fulliga konungdóm, sem faðir minn hafði fyrir mér; nú mun ek þetta nafn eigi upp gefa at mér lifanda. En ef Magnús konungr kømr higat til landz með her sinn, þá mun ek eigi liöi samna i mot honum, mun hann kost eiga at eignask England ok taka mik áðr af lifdçgum. Segið honum svá min orð«. Fóru þá sendimenn aptr ok kómu á fund Magnús konungs ok segja honum alt sitt ørendi. Konungr svarar tómliga ok mælti þó svá: »ek ætla hitt munu vera sannast ok bezt fallit, at låta Eatvarð konung hafa riki sitt i ró fyrir mér, en halda þessu riki, er guð hefir mik eignask látit«.Uphaf Haraldz konungs harðráða.

K. i.

Haraldr, sonr Sigurðar syr, bróðir Óláfs konungs ins helga sammœðri, hann var á Stiklarstçöum i orrostu, þá er inn helgi Óláfr konungr feil; varö Haraldr þá sárr ok komsk i brot með çörum flottamçnnum; svá segir Pjóöólfr:

76. Hvast frák Haugi et næsta skildisk hann, ok hulöi hlifél á gram drifa, hjalmsetr gamall vetra en Bolgara brennir tyggi tolf ok þriggja, brœðr sinum vel tœði; trauðr við Áleif dauÖan.

Rçgnvaldr Brúsason flutti Harald ór orrostu ok kom honum til bónda nçkkurs, er bjó i skógi langt f rå çörum mçnnum; var Haraldr þar læknaör, til þess er hann var heill. Siöan fylgöi sonr bónda honum austr um Kjçl, ok fóru þeir alt markleiöi, þat er svá mátti, en ekki alþýöuveg. Vissi bóndason ekki til, hverjum hann fylgöi; ok er þeir riöu milli eyöiskóga nçkkurra, þá kvað Haraldr þetta:

77. Nú lætk skog af skógi hverr veit nema ek verÖa skreiöask litils heiöar; viöa frægr of siöir.

Hann fór austr um Jamtaland ok Helsingjaland ok svá til Sviþjóðar; fann hann þar Rçgnvald Brúsason ok mjçk marga aðra þá menn, er komizk hçföu ór orrostu menn Óláfs konungs.

K. 2. Ferð Haraldz til Miklagarðz.

Eptir um várit fengu þeir sér skipan ok fóru um sumarit austr i Garöaríki á fund Jarizleifs konungs, váru þar um vetrinn; svá segir Bçlverkr:

78. Mildingr straukt of mækis en gramr (né frák fremra munn, es lézt af gunni; friðskeröi þér veröa) holds vant hrafn of fyldan austr vast år et næsta hrás; þaut vargr i ási; çröiglyndr i Gçröum.



Jarizleifr konungr tók vel viö þeim Haraldi; gerðisk Haraldr þá hçföingi yfir landvarnarmçnnum konungs ok annarr Eilifr, sonr Rçgnvaldz jarls; svá segir Pjóöólfr:

79. Eitt hçföusk at Austrvinöum ók Eilifr þars sat, i çngvan krók;

hçföingjar tveir; vasa Læsum léttr

hamalt fylkÖu þeir; liðsmanna réttr.

Haraldr dvalðisk i Garðariki nçkkura vetr ok fór víða um Austrveg. Siðan byrjaöi hann ferö sina út i Grikland ok hafði mikla sveit manna; þá helt hann til Miklagarðz; svá segir Bçlverkr:

80. Hart kníði svçl svartan mætr hilmir så malma snekkju brand, fyr landi, Miklagarðs fyr barði; skúr, en skrautla bçru m<?rg skriöu beit at borgar skeiðr brynjaöar reiöi; barmfçgr hóum armi.

K. 3. Frá Haraldi Sigurðarsyni. Pá réð fyrir Griklandi Zóe drótning in rika, ok með henni Michael Kátalaktús. En er Haraldr kom til Miklagaröz á fund drótningarinnar, þá gekk hann þar á mála ok fór þegar um haustit á galeiör meö hermçnnum þeim, er fóru út i Griklandzhaf. Helt Haraldr sveit af sínum mçnnum. Pá var hçföingi yfir herinum så maör, er nefndr er Gyrgir; hann var frændi drótningar. En er Haraldr hafði verit litla hriö i herinum, áör en Væringjar þýddusk mjçk til hans, ok fóru þeir allir saman, þegar er bardagar váru; kom þá svá, at Haraldr geröisk hçföingi yfir çllum Væringjum. Fóru þeir Gyrgir viöa um Griklandzeyjar, unnu þar herskap mikinn á kussorum.

K. 4. Hlutan Haraldz ok Gyrgis. Pat var eitt hvert sinn, er þeir hçföu farit um land ok skyldu taka sér náttból

viö skóga nçkkura, ok kómu Væringjar fyrstir til náttstaöar ok vçlöu þeir sér tjaldstaöi þá, er þeir sá bazta ok hæst lágu, þviat þar er svá håttat, at land er blautt, ok þegar er regn koma þar, þá er ilt at búa þar, er lágt liggr. Pá kom Gyrgir, hçföingi hersins, ok er hann sá, hvar Væringjar hçföu tjaldat, baö hann þá i brot fara ok tjalda i çörum staö, segir, at hann vill þar tjalda. Haraldr segir svá: »ef þér komiö fyrri til náttbóls, þá takiö þér yðr náttstaö, þá munu vér þar tjalda i çörum staö, sem oss líkar; gerið þér nú ok svá, tjaldið þar, sem



þér viliö, i çörum staö; hugöa ek, at þat væri réttr Væringja hér i veldi Grikkja-konungs, at þeir skulu vera sjálfráða ok frjálsir um alla hluti fyrir çllum mçnnum, en vera konungi einum ok drótningu þjónostu skyldir«. Preyttu þetta með kappmæli, þar til er hvárirtveggju vápnuðusk; var þá við sjálft, at þeir mundu berjask. Kómu þá til inir vitrustu menn ok skildu þá; sçgöu þeir sva, at betr var fallit, at þeir sættisk um þetta mál ok gerði skipan á með sér gløggliga, svá at eigi þyrfti optarr slika deilu lim. Var þá stefnulagi á komit meö þeim, ok skipuðu inir beztu menn ok inir vitrustu. En á þeiri stefnu réðu þeir þat svá, at samt kom meö çllum, at hluti skyldi i skaut bera ok hluta meö Grikkjum ok Væringjum, hvárir fyrri skyldi riöa eöa róa eöa til hafnar leggja ok kjósa um tjaldstaÖi; skyldi því hvárrtveggi una þá, sem hlutr segÖi. Siöan váru hlutir gçrvir ok markaÖir. På mælti Haraldr viö Gyrgi: »ek vil sjá, hversu þú markar þinn hlut, at eigi markim vit á eina lund báöir«. Hann geröi svá. Siöan markaöi Haraldr sinn hlut ok kastaöi i skautit, ok svá báðir þeir. En sá maör, er hlutinn skyldi upp taka, þá tók hann upp annan ok helt milli fingra sér ok brå upp hendinni ok mælti: »þessir skulu fyrri riöa ok róa ok til hafnar leggja ok kjósa sér um tjaldstaÖi«. Haraldr greip til handarinnar ok tók hlutinn ok kastaöi út á sjá; siöan mælti hann: »þessi var várr hlutr«. Gyrgir segir: »hvi léztu eigi sjå fleiri menn«?. »Sé nú, segir Haraldr, þann er eptir er; muntu þar kenna þitt mark«. Siöan var athugat um þann hlutinn, ok kendu allir þar mark Gyrgis. Var þat dæmt, at Væringjar skyldi kørna kosti hafa um alt þat, er þeir þreyttu um. Fleiri hlutir uröu til þess, er þeir uröu eigi ásáttir, ok hlauzk jafnan svá, at Haraldr hafói sitt mål.

K. 5. Frá Haraldi Siguröarsyni.

Peir fóru allir samt um sumarit ok herjuöu. På er allr var herrinn saman, lét Haraldr sina menn vera fyrir útan bardaga, eöa ella þar, er minst var mannhætta, ok lézk varask vil ja, at hann týndi herliöi sinu. En er hann var einn saman meÖ sinu liði, þá lagÖisk hann svá fast til at berjask, at annat tveggja skyldi hann fá sigr eöa bana. Sva bar optliga til, þá er Haraldr var hçföingi yfir liÖinu, at hann vann sigr, þá er Gyrgir vann ekki. Petta funnu hermenn ok kçlluöu betr fara mundu sitt mål, ef Haraldr væri einn hçföingi yfir çllum herinum, ok ámæltu hertoganum, at ekki yröi af honum eöa hans liöi. Gyrgir segir,





at Væringjar vildu ekki liö veita honum, bað þá fara i annan stað, en hann foeri með çörum herinum, ok vinna þvílikt sem þeir mætti. Fór þá Haraldr frá herinum ok Væringjar með honum ok Látínumenn. Gyrgir fór meö Grikkja her. Sýndisk þá, hvat hvárr mátti; fekk Haraldr jafnan sigr ok fé, en Grikir fóru heim til Miklagaröz, nema ungir drengir, þeir er få vildu sér fjár, sçmnuöusk til Haraldz ok hçföu hann þá fyrir hertoga. Lagöisk hann þá meö her sinn vestr i Affriká, er Væringjar kalla Serkland; eflöisk hann þá mjçk at liöi. í Serklandi eignaðisk hann io lxxx. borga, váru sumar gefnar upp, en sumar tók hann meö valdi. Síöan fór hann til Sikileyjar; sva segir Pjóðólfr:

81. Tøgu må tekna segja áör herskçröuör harðan (tandrauös) á Serklandi hildar leik und skildi, (ungr hætti sér) átta Serkjum hættr, i sléttri
(ormtorgs hotuör) borga, Sikileyju gekk hevja.

Svá segir Illugi Bryndœlaskáld:

82. Brauzt und Mikjál mæztan sonr Buöla bauð sinum) (mógum heim, sem frógum, Sunnlçmd, Haraldr, rçndu.

Hér segir þat, at þá var Mikjáll Grikkja-konungr i þenna tima. Haraldr dvalöisk marga vetr i Affriká, fekk óf lausafjár, gull ok allz konar dýrgripi. En alt þat fé, er hann fekk ok eigi þurpti hann at hafa til kostnaöar sér, sendi hann meö trünaöarmçnnum sinum norðr i Hólmgarð i vald ok gæzlu Jarisleifs konungs, ok drósk þar saman

ógrynni fjár, sem likligt er at vera myndi, er hann herjaöi þann hluta heimsins, er auögastr var at gulli ok dýrgripum, ok svá mikit sem hann geröi at, er meö sçnnu var áör sagt, at hann mundi eignazk hafa lxxx. borga.

K. 6. Orrosta i Sikiley.

En er Haraldr kom til Sikileyjar, þá herjaöi hann þar ok lagði þar meö liöi sinu til einnar borgar mikillar ok fjçlmennrar. Settisk hann um borgina, þviat þar váru sterkir veggir, svá at honum þótti ósýnt, at brjóta myndi mega. Borgarmenn hçföu vist gnóga ok çnnur fçng, þau er þeir þurftu til varnar. Pá leitaöi hann þess ráös, at fuglarar hans tóku smáfugla, er hreiöruöusk i borginni ok flugu á skog um daga at taka sér mat. Haraldr lét binda á bak fuglunum lokarspánu af tyrvitré ok steypöi vaxi ok brennusteini ok lét slå eldi i; flugu fuglarnir, þegar er lausir urðu, allir senn i borgina at vitja unga sinna ok híbýla, er þeir áttu i húsþekjum, þar er þakt var reyr eöa hálmi;



þá laust eldinum af fuglunum i húsþekjurnar. En þótt einn hverr bæri lítla byrði eldz, þá varö þat skjótt mikill eldr, er margir fuglar báru til víða um borgina i þekjur, ok því næst brann hvert hus at çöru, þar til er borgin logaði. På gekk fólkit alt ór borginni ok bað sér miskunnar, þeir inir sçmu, er áðr hçföu margan dag drembiliga mælt ok háðuliga til Grikkja-hers ok hçföingja þeira; gaf Haraldr çllum mçnnum grið, þeim er þess beiddu; fekk síðan vald yfir þeiri borg.

K. 7. Orrosta um aðra borg.

Qnnur borg var su, er Haraldr lagöi til liöi sinu; sú var bæði fjçlmenn ok sterk, svá at engi var ván, at þeir fengi brotit, vellir harðir ok sléttir umhverfis borgina. På lét Haraldr taka til at grafa grçft, frá þar sem feil bekkr einn, ok var þar djúpt gil, svá at ekki mátti þannig sjá ór borginni. Peir fluttu moldina út á vatnit ok létu straum i brot bera. Váru þeir at þessu verki bæði dag ok nótt, var skipt til sveitum; en herrinn gekk alla daga útan at borginni, en borgarmenn gengu i vigskçrö, ok skutu hvárir á aðra, en um nætr sváfu þeir hvárirtveggju. En er Haraldr skilöi þat, at jarðhús þat var svá langt, at þá mvndi vera komit inn um borgarvegginn, þá lét hann vápnask liö sitt. Pat var móti degi, er þeir gengu inn i jarðhúsit; en er þeir kómu til enda, grófu þeir upp yfir hpfuð sér, þar til er Steinar urðu fyrir iími settir, þat var gólf i steinhçllinni. Siðan brutu þeir upp gólfit ok gengu upp i hçllina. Par sátu fyrir menn margir af borgarmçnnum, snæddu þar ok drukku, ok var þeim þat inn mesti óvísavargr, þvíat Væringjar gengu þar við brugðnum sverðum ok drápu þar þegar suma, en sumir flýðu, þeir er þvi kómu við. Væringjar sóttu eptir þeim, en sumir tóku borgarhliðin ok luku upp, gekk þar inn allr fjçlöi hersins. En er þeir kómu i borgina, þá flýði borgarlýðrinn, en margir báðu griða, ok fengu þat allir, er upp gáfusk. Eignaðisk Haraldr borgina með þessum hætti ok þar með ógrynni fjár.

K. 8. Orrosta við ina þriöju borg.

Ina þriðju borg hittu þeir, þá er mest var af þessum çllum ok sterkust ok rikust at fé ok fjçlmenni. Váru um þá borg diki stór, svá at þeir sá, at ekki mátti þar vinna með þvílíkum brçgöum sem inar fyrri borgir; lágu þeir þar mjçk lengi, svá at þeir fengu ekki at gçrt. En er borgarmenn sá þat, þá dirfðusk





þeir við. Peir settu fylkingar sínar uppi á borgarveggjum, síðan luku þeir upp borgarhliðum ok œpöu á Væringja, eggjuöu þá ok báðu þá ganga i borgina ok frýðu þeim hugar, sçgöu, at þeir væri ekki betri til orrostu en hœsn. Haraldr baö sina menn låta, sem eigi vissi, hvat þeir sçgÖu — »vér gerum ekki at, segir hann, þótt vér rennim til borgarinnar; þeir bera vápn sin á oss undir foetr sér niðr; en þótt vér komim i borgina meö nçkkura sveit, þá hafa þeir vald at byrgja inni þá er þeir vil ja, en suma úti, þvíat þeir hafa yfir çll borgarhliÖ gæzlu sett; vér skulum gera þeim eigi minna skaup ok skulum låta þá sjå, at vér óttumk þá ekki; skulu várir menn ganga fram á vçlluna sem næst borginni ok gæta þó þess, at ganga eigi i skotmál þeira; skulu várir menn allir fara vápnlausir ok gera sér leik ok låta þat sjá borgarmenn, at vér hirðum ekki um fylkingar þeira«. Siöan var svá nçkkura

daga.

K. 9. Frá Úlfi ok Haldóri.

Menn islenzkir eru nefndir, þeir er fóru þar meö Haraldi konungi, Haldórr, sonr Snorra goöa — hann hafõi þessa fråsçgn hingat til landz — annarr var ülfr Úspaksson, Ósvífrssonar ins spaka; þeir váru báðir inir sterkustu menn ok allvápndjarfir ok váru inir kærstu Haraldi; þeir váru báðir i leikinum. En er þessa leið hafði farit nçkkura daga, þá vildu borgarmenn sýna enn meira kapp; gengu þeir þá ekki meö vápnum upp á borgar-veggina, en létu þó opin standa borgarhliöin. En er þat sá Væringjar, þá gengu þeir einn dag svá til leiksins, at þeir hçfõu sverö undir mçtlum ok hjálma undir hçttum. En er þeir hçfõu leikit um hriö, þá sá þeir, at borgarmenn undruöusk ekki; þá tóku þeir skjótt vápnin, runnu siöan at borgarhliöinu. En er borgarmenn sá þat, gengu þeir i móti vel ok hçfõu sin alvæpni, tóksk þar bardagi i borgarhliöinu. Væringjar hçfõu engar hlifar, nema þat er þeir sveipuöu mçtlum um vinstri hçnd sér, uröu þeir sárir, en sumir fellu, en allir váru nauöuliga staddir; Haraldr, ok þat liö meö honum, er var i herbúðum, sótti til at veita mçnnum sinum. En borgarmenn váru þá komnir upp á borgarveggi, skutu ok grýttu á þá; varö þá hçrö orrosta; þótti þeim, er i borgarhliöinu váru, vera seinna gengit at hjálpa sér en þeir vildu. En er Haraldr kom at borgarhliöinu, þá feil merkismaör hans; þá mælti hann: »Haldórr, tak upp merkit«. Haldórr svaraöi ok tók upp stçngina ok mælti óvitrliga: »hverr

mun merki bera fyrir þér, ef þú fylgir svá blauÖliga, sem nú er um hriö?«. Var þat meir reiöimál en sannyröi, þvíat Haraldr var inn vápndjarfasti maðr. Sóttu þeir þá i borgina, var þá bardagi harör ok lauk svá, at Haraldr hafõi sigr ok vann borgina. Haldórr varö sárr mjçk, hafõi sår mikit i andliti, ok var þat lýti alla æfi, meöan er hann lifõi.

K. 10. Orrosta viö iiii. borg.

SÚ var in iiii. borg, er Haraldr kom til meÖ her sinn, er mest var af çllum þeim, er áör var frå sagt, ok svá var hon styrk, at þeir sá enga ván vera, at þeir fengi hana brotit. Siöan sátu þeir um borgina ok gerðu umsátir, sva at engi fçng mátti til flyt ja borgarinnar. En er þeir hçfõu litla hriö dvalzk, þá fekk Haraldr sjúkleik, svá at hann lagðisk i rekkju; lét hann setja sitt landtjald brot frå çörum landtjçldum, þviat honum þótti sér þat ró, at heyra eigi gný ok glaum herliðsins. Menn hans kómu tíöum meö flokka til hans ok frå ok spyrja hann råöagøröar; þat sá borgar-menn, at nçkkurar nýlundur váru meö Væringjum; gerðu þeir til njósnarmenn at forvitnask, hverju slikt myndi gegna. En er njósnarmenn kómu aptr til borgarinnar, þá kunnu þeir segja þau tiöendi, at hçfõingi Væringja væri sjúkr, ok fyrir þá sçk var engi atsókn til borgar. En er svá hafõi liöit fram um hriö, þá minkaöi mátt Haraldz; gerÖusk þá hans menn mjçk hugsjúkir ok daprir; slikt alt spurÖu borgarmenn. Par kom, at sva þrongði sótt Haraldi, at andlát hans var sagt um allan herinn. Siöan fóru Væringjar til tals viö borgarmenn ok segja þeim li flåt hçfõingja sins, báöu kennimenn veita honum grçpt i borginni. En er borgarmenn spuröu þessi tiöendi, þá váru þeir margir, er þar réöu fyrir klaustrum eöa çÖrum storstçÖum i borginni, þá vildi hverr gjarna þat lik hafa til sinnar kirkju, þvíat þeir vissu, at þar myndi fylgja ofr mikit. Skrýddisk þá allr fjçlöi kennimanna ok gekk út ór borginni meö skrin ok helga dóma ok gerõu fagra prócessiónem. En Væringjar gerÖu ok mikla likferö; var þá líkkistan borin hått ok tjaldat yfir pellum, borin þar yfir merki mçrg. En er slikt var borit inn um borgarhliöit, þá skutu þeir niÖr kistunni um þvert hliöit borgarinnar, fyrir huröirnar; blésu þá Væringjar i alla lúðra sina herblástr ok brugöu sveröunum; þusti þá allr Væringja herr ór herbúöunum meö alvæpni ok hljópu þá til borgarinnar meö ópi ok kalli. En munkar ok aörir kennimenn, þeir er ut hçfõu gengit i likferö þessa, kepöusk hvárir

viö aöra, at fyrstir ok fremstir vildi út ganga at taka við ofrinu, þá var þeim nú hálfu meira kapp á þvi at vera sem first Væringjum, þviat þeir drápu hvern þann, er þeim var næst, hvárt er hann var klerkr eða óvigðr. Væringjar gengu svá um alla borgina þessa, at þeir drápu mannfólkit, en ræntu alla staði i borginni ok tóku þar ógrynni fjár.

K. il. Frá Haraldi konungi.

Haraldr var marga vetr i hernaði þessum, er nú var frå sagt, bæði i Serklandi ok Sikileyju. Siðan fór hann aptr til Mikla-garðz með her þenna ok dvalðisk þar litla hriö, áðr hann byrjaði ferð sina út i Jórsalaheim. Pá lét hann eptir málagull Grikkjakonungs ok allir Væringjar, þeir er til ferðar réðusk meö honum. Svá er sagt, at i çllum ferðum þessum hafði Haraldr áttar xviii. fólkorrostur; sva segir Pjóðólfr: 83. Pjóð veit, at hefr háðar hçss arnar rautt hvassar, hvargrimmligar rimmur hróðigr konungr, blóði

(rofizk hafa opt fyr jçfri) (imr gåt krós hvars kómuð)

átján Haraldr (sáttir) ; klœr, áðr hingat fcerir.

K. 12. Jórsala-ferð Haraldz konungs. Haraldr fór liði sinu út til Jórsalalandz, fór þá siðan yfir til Jórsalaborgar, en hvar sem hann fór um Jórsalaland, váru allar borgir ok kastalar gefnir i vald hans; svá segir Stúfr skåld, er heyrt hafði konunginn sjálfan frá þessum tiðendum segja:

84. Fór ofrhugi enn øfri ok með œrnu riki

eggdjarfr und sik leggja óbrunnin kom gunnar

(fold vas viga valdi heimil jçrö und herði.

virk) Jórsali (ok Girkjum) ; Hafi riks þars vel likar. Hér segir frá því, at þetta land kom óbrunnit ok óherjat i vald Haraldz. Fór hann þá ut til Jórdánar ok laugaði sik þar, sem háttr er til annarra pálmara. Haraldr varði stórfé til grafar dróttins ok kross ins helga ok til annarra heilagra dóma á Jórsala-landi. Pá friðaði hann veginn alt út til Jórdánar ok drap raufara ok annat hernaðarfólk; sva segir Stúfr:

85. Stóðusk rçb ok reiði- enn fyr afgørÖ sanna (rann þat svikum manna) (illa gat frå stilli)

Egöa grams á ýmsum þjóö fekk visan váða.

-orð Jórdánar borðum; Vist of aldr með Kristi.

Pá fór hann aptr til Miklagarðz.

K. 13. Haraldr konungr settr i dýflizu.

Pá er Haraldr var kominn til Miklagaröz af Jórsalalandi, fýsti hann at fara i Norörlçnd til óöala sinna; hafõi hann þá spurt, at Magnús Óláfsson, bróðurson hans, var oröinn konungr i Nóregi ok svá i Danmçrk, segir hann þá upp þjónostu við -Grikjakonung. En er Zóe drótning varð þessa vçr, varð hon reiö mjçk ok hóf upp sakagiptir viö Harald, talði þat, at hann myndi hafa misfarit meö Grikjakonungs fé, því er fengizk heföi i hernaöi, þá er Haraldr hafõi verit hçföingi yfir herinum. Máríá hét ein mær ung ok friö, hon var bróöurdóttir Zóe drótningar; þeirar meyjar hafõi Haraldr beöit, en drótning synjaöi. Svá hafa sagt Væringjar norör hingat, þeir er verit hafa i Miklagaröi á måla, at sú sçgn væri þar hçfö af fróöum mçnnum, at Zóe drótning vildi sjálf hafa Harald sér til mannz, ok sú sçk væri revndar mest viö Harald, er hann vildi brot fara ór Miklagaröi, þó at annat væri upp borit fyrir alþýöu. Pá var sá Grikja-konungr er hét Konstantínús Mónomákús; hann réö ríkinu meö Zóe drótningu. Af þessum sçkum lét Grikja-konungr taka hçndum Harald ok færa hann til dýflizu..

K. 14. Jartegnir Óláfs konungs. Blindaör Grikkja-konungr.

En er Haraldr kom mjçk svá til dýflizunnar, þá sýndisk honum inn helgi Öláfr konungr ok segir, at hann myndi hjálpa honum. Par á strætinu var siöan kápella ok helguö Óláfi konungi, ok hefir sú kápella þar staöit siöan. Dýfliza sú var þannig gçr, at þar er turn hår ok opinn ofan, en dyrr af strætinu i at ganga; var Haraldr þar inn látinn ok meö honum Haldórr ok ülfr. Næstu nótt eptir kom ein rik kona ofan á dýflizuna ok hafõi gengit upp meö stigum nçkkurum, ok þjónostumenn hennar ii; þau létu siga ofan streng nçkkurn i dýflizuna ok drógu þá upp. Pessarri konu hafõi inn helgi Öláfr konungr unnit bót fyrr ok hafõi þá vitrazk henni, at hon skyldi leysa bróður hans ór prisund Pá fór Haraldr þegar til Væringja, ok stóðu þeir upp allir i mot honum ok fçgnuöu honum vel. Siöan vápnaöisk allr herrinn, ok gengu þar til, er konungrinn svaf; þeir taka konunginn hçndum ok stinga ór

bæöi augun; svá segir Pórarinn Skeggjason i sinni 35 drápu:

86. Náöi gçrr en glóðum, stólþengill gekk strçngu
Griklands, jçfurr handa, steinblindr aöalmeini.4



Sva segir ok Pjóöólfr skåld:

87. Stólþengils lét stinga lagði allvaldr Egöa
(styrjçld vas þá byrjuð) austr á bragning hraustan
evöir augu bæöi gråligt mark, en Girkja
út. heiöingja sútar; gptu fór stillir.

I þessum tveim drápum Haraldz ok mçrgum çörum kvæðum hans er getit þess, at Haraldr blindaöi sjálfan Grikkja-konung; nefna mætti til þess hertoga eÖa greifa eöa annars konar tignarmenn, ef þeir vissi, at þat væri sannara, þviat sjálfr Haraldr flutti þessa sçgn ok þeir menn aörir, er þar váru meö honum.

K. 15. Ferö Haraldz konungs ór Miklagaröi.

Um þá sçmu nótt gengu þeir Haraldr at þeim herbergjum, er Máriá svaf i, ok taka hana i brot meö valdi. Siöan gengu þeir til galeiöa Væringja ok tóku tvær galeiðrnar, røru siöan inn i Sjáviðarsund. En er þeir kómu þar, er járnrekendr lágu um þvert sundit, þá mælti Haraldr, at menn skyldi skipask til ára á hvárritveggju galeiöinni, en þeir menn, er eigi røru, skyldu allir hlaupa aptr i galeiðina ok hafa hverr húðfat sitt i faðmi sér; rendu svá galeiðrnar upp á járnrekendr; þegar er festi ok skriðinn tók af, þá bað hann alla menn hlaupa fram i. På steypði galeið þeiri, er Haraldr var å, ok stçkk sú af járnum viö riÖinn, en onnur sprakk, er reið á járnum, ok týndisk þar mart, en sumt var tekit af sundi; meö þessu komsk Haraldr ut af Miklagaröi, fór svá inn i Svartahaf. En áðr en hann sigldi frá landi, setti hann upp á land jungfrúna ok fekk henni gott fçrunevti aptr til Miklagarðz, bað hana þá segja Zóe, frændkonu sinni, hversu mikit hon haföi vald á Haraldi, eöa hvárt nçkkut haföi drótningar riki fyrir staöit, at hann mætti fá jungfrúna. Pá siglöi Haraldr norör i Ellipalta, fór þaöan alt um Austrriki. I þessum feröum orti Haraldr gamanvisur, ok eru saman xvi., ok er eitt niörlag at çllum; þessi er ein:

88. Sneiö fyr Sikiley viöa vættik minnr, at motti
súö; vórum þá prúÖir, myni enn þinig nenna;
brýnt skreiö, vel til vánar, þó lætr Gerðr i Gçröum vengis hjçrtr und drengjum; gollhrings viö mér skolla.

Pvi veik hann til Ellisifjar dóttur Jarizleifs konungs i Hólmgarði.



K. 16. Frá Haraldi konungi.

En er Haraldr kom til Hólmgaröz, fagnaöi Jarizleifr konungr honum forkunnar vel, dvalÖisk hann þar um vetrinn; tók þá i sina varöveizlu gull þat alt, er hann haföi þannug áðr sent útan af Miklagaröi, ok margs konar dýrgripi; var þat sva mikit fé, at engi maör norör i lçnd haföi sét slikt i eins rnannz eigu. Haraldr haföi þrisvar komit i pólútasvarf, meöan hann var i Miklagaröi. Pat eru þar Içg, at hvert sinn er Grikkja-konungr deyr, þá skulu Væringjar hafa pólútasvarf; þeir skulu þá ganga um allar pólútir konungs, þar sem féhirzlur hans eru, ok skal hverr þá eignask at frjálsu, er hçndum kømr á.

K. 17. Kvánfang Haraldz konungs.

Pann vetr gipti Jarizleifr konungr dóttur sina Haraldi, sú hét Elisabeth, þá kalla Norömenn Ellisif; þetta tjár Stúfr blindi:

89. Mægð gat allvaldr Egöa golls tók gumna spjalli ógnar mildr þás vildi; gnótt ok bragnings dóttur.

En at vår i byrjaÖi hann ferö sina ór Hólmgaröi ok fór um várit til Aldeigjuborgar, fekk sér þar skip ok siglöi

austan um sumarit; snøri fyrst til Svíþjóðar ok lagöi til Sigtúna; sva segir Valgarör af Vell i: '

90. Skauzt und farm enn frizta stýröir hvatt i hçröu (frami veitisk þér) beiti, hvardyggr jçfurr glyggvi, faröir goll ór Gçröum sátt þás sædrif létti (grunlaust) Haraldr austan; Sigtún, en skip hnigöu.

K. 18. Félag Haraldz konungs ok Sveins ülfssonar.

Haraldr fann þar Svein ülfsson; þat haust hafði hann flýit fyrir Magnúsi konungi viö Helganes. En er þeir funnusk, fagnaði hvárr çörum vel. Óláfr sœnski Svia-konungr var móöurfaöir Ellisif jar, konu Haraldz, en Ástríðr, móöir Sveins, var systir Óláfs konungs. Gerðu þeir Haraldr ok Sveinn félagskap sinn ok bundu einkamálum. Allir Sviar váru vinir Sveins, þvíat hann åtti þar ina stærstu ætt i landi. Geröusk þá ok allir Sviar vinir Haraldz ok liösinnismenn; var þar mart stórmenni bundit í mægöum við hann; sva segir Pjóðólfr:4 22



91. Reist eikikjçlr austan gekk með golli miklu çröigt vatn ór GçrÖum; (glygg feil ótt of tyggja) Svíar tœðu þér síðan, hçll á hléborð (sollit) snjallr landreki, allir; Haralds skeið und vef breiðum.

K. 19. Hernaðr Haraldz konungs.

Siðan réðu þeir sér til skipa Haraldr ok Sveinn, ok drósk þeim brått herr mikill; ok er liö þat var búit, þá sigla þeir austan til Danmerkr; svá segir Valgarðr:

92. Eik slçng und þér, yngvi hýnd bar rif, þars renduð »o ógnbliðr, i haf siðan rétt á stag fyr slétta,

(rétt vas yðr of ætlat skeið, en skelkðuð brúðir,

óöal) frá Sviþjóðu; Skáney, Dçnum nánar.

Peir lçgöu fyrst til Sjálandz ok herjuðu þar ok brendu viða þar. Siðan heldu þeir til Fjóns, gengu þar upp ok herjuðu; svá segir Valgarðr:

93. Haraldr gçrva lézt herjat, lçgu lands-menn gnógir; (hnyggr andskotum tyggi) ló hel sumum frelsi; hvatt rann vargr at vitja drósk harmvesalt hýski valfalls, Selund alla; hljótt i skog á flótta.

gekk á Fjón, en fekkat, 95. Dvalði daprt of skilða,

fjçlmennr konungr, hjçlmum drifu þeirs eptir lifðu, (brast) rikula (ristin ferð, en fengin urðu

rit) erfiði litit. fçgr sprund, Danir undan;

94. Brann i bý fyr sunnan láss helt liki drósar, bjartr eldr Hróiskeldu; leið fyr yðr til skeiða

rçnn lét ræsir nenninn (bitu fíkula fjçtrar)

reykvell ofan fella; fljóð mart (hçrundbjarta).

K. 20. Leiöangr Magnús konungs. Magnús konungr Óláfsson helt um haustit norðr i Nóreg eptir Helganess bardaga. Pá spurði hann þau tiðendi, at Haraldr Sigurðarson, frændi hans, var kominn til Sviþjóðar ok þat með, at þeir Sveinn Ulfsson hçföu gçrt félag sitt ok hçföu her úti mikinn ok ætluöu enn at leggja undir sik Dana-veldi, en síðan Nóreg. Magnus konungr býðr leiðangri út ór Nóregi ok dregsk honum brått herr mikill. Hann spuröi þá, at þeir Haraldr ok Sveinn váru komnir til Danmerkr, brendu þar alt ok bældu, en landzmenn gengu viöa undir þá. Pat var ok sagt með, at Haraldr væri meiri en aörir menn ok sterkari ok svá vitr, at honum var

ekki ófœrt ok hann hafði ávalt sigr, er hann barðisk; hann var ok svá auðigr at gulli, at engi vissi dæmi til; svá segir Pjóðólfr: 96. Nú 's valmeiðum viðis, mildr vill Magnús halda veit drótt mikinn ótta, morðs hlunngotum norðan,

(skeiðr hefr herr fyr hauðri) itr en çnnur skreytir

hætt góðs friðar vætta; unnvigg Haraldr sunnan.

K. 21. Sættaleitan Magnús konungs við Harald.

Menn Magnús konungs, þeir er váru i ráöagorð með honum, tala þat, at þeim þykkir i vant efni komit, ef þeir Haraldr frændr skulu berask banaspjót eptir; bjóðask margir menn til þess, at ro fara ok leita um sættir með þeim, ok af þeim fyrirtçlum samþykkisk konungr þvi. Váru þá menn gçrvir á hleypiskútu, ok fóru þeir sem skyndiligast suðr til Danmerkr; fengu þar til danska menn þá er fullkomnir váru vinir Magnús konungs, at bera þetta ørendi Haraldi. Petta mál fór mjçk af hljóði. En er Haraldr heyrði þetta sagt, at Magnus konungr, frændi hans, myndi bjóða honum sætt ok félagskap ok Haraldr myndi hafa skulu hálfan Nóreg við Magnus, en hvárr þeira við annan hálft lausafé beggja þeira, þá játtaði Haraldr þeiri sætt af sinni hendi. Fóru þessi einkamál þá aptr til Magnús konungs.

K. 22. Brugðit sætt Haraldz ok Sveins.

Litlu síðarr var þat, at Haraldr ok Sveinn tçluöu kveld eitt við drykkju; spurði Sveinn, hverja gripi Haraldr hefði, þá er honum væri virkð mest å. Hann svarar svá, at þat var merki hans Landeyðan. Pá spurði Sveinn, hvat merkinu fylgði þess, er þat var sva mikil gørsimi. Haraldr segir, at þat var mælt, at så myndi hafa sigr, er merkit er fyrir borit, segir, at svá hafði orðit, síðan er hann fekk þat. Sveinn svarar: »þá mun ek trúa, at sú náttúra fylgi merkinu, ef þú átt iii. orrostur við Magnus konung, frænda þinn, ok hefir þú sigr i çllum«. Pá segir Haraldr styggliga: »veit ek frændsemi okkra Magnús, þótt þú minnir mik ekki á þat, ok er eigi fyrir því svá, at vit farimk i mot með herskildi, at eigi myndi okrir fundir aðrir vera skapligri«. Sveinn brá þá lit viö ok mælti: »geta þessa sumir, Haraldr, at þú hafir gç>rt svá fyrr, at halda þat einu af einkamálum, er þér þykkir sem þitt mål dragi helzt fram«. Haraldr svarar: »minni staði muntu á vita, at ek hafa eigi haldit einkamálin, en ek veit, at Magnus konungr myni kalla, at þú hafir haldit við hann«. Gekk

þá sína leiÖ hvárr þeira. Um kveldit, er Haraldr gekk til svefns i lypting á skipi sinu, þá mælti hann við skósvein sinn: »nú mun ek eigi liggja i hvilunni i nótt, þviat mér er grunr å, at eigi myni alt vera svikalaust; ek fann i kveld, at Sveinn, mágr minn, varö reiör mjçk viö bermæli mina; skaltu halda vçrö á ef hér verör npkkut i nótt til tiöenda« Gekk þá Haraldr i annan staö at sofa, en lagöi þar i rum sitt tréstobba einn. En um nóttina var róit á báti at lyptingunni, ok gekk þar maör upp ok spretti lyptingartjaldinu, gekk siöan upp hjå ok hjó i rum Haraldz meÖ mikilli øxi, sva at fçst stöö i trénu; hljóp maör sjá þegar út i bátinn, en niöamyrkr var å, røri hann þegar i brot, en øxin var eptir til jartegna, stóð hon fçst i trénu. Siöan vaköi Haraldr upp menn sina ok lét þá vita, viÖ hver svik þeirváru komnir — »megum vér þat sjá, segir hann, at vér hçfum hér ekki liös viö Svein, þegar er hann slæsk á svikræöi viö oss; mun så vera inn bezti kostr, at leita á brot heöan, meöan kostr er; leysu vér nú skip vår ok róum leyniliga i brot«. Peir gera svá, róa um nóttina norÖr meö landi, fara dag ok nótt, þar til er þeir finna Magnús konung, þar er hann lá meö her sinum. Gekk þá Haraldr á fund Magnus konungs, frænda sins, ok varö þar fagnafundr, sva sem Pjóööólfr segir:

97. Vatn lézt, visi, slitna, bauö hçlf viö sik siöan

viökunnr, und skçr þunnri sonr Áleifs þér (hála (dýr klufu flöö), þars fóruö frændr hykk at þar fyndisk (flaust) i Danmçrk austan; fegnir) lçnd ok þegna. Siöan tçluöu þeir frændr milli sin, fór þat alt sáttgjarnliga.

K. 23. Magnús konungr gaf Haraldi hálfan Nóreg.

Magnús konungr lá viö land ok haföi landtjald á landi uppi; hann bauö þá Haraldi frænda sinum til borÖz sins, ok gekk Haraldr til veizlunnar meö lx. manna; var þar allfçgr veizla. En er á leiö daginn, gekk Magnus konungr inn i tjaldit, þar sem Haraldr sat; menn gengu meö honum ok báru byröar, þat váru vápn ok klæöi. Pá gekk konungr at inum ýzta manni ok gaf þeim sverö gott, çÖrum skjçld, þá klæöi eöa vápn eöa gull, þeim stœrra er tígnari váru. Siöarst kom hann fyrir Harald, frænda sinn, ok haföi i hendi sér reyrteina ii. ok mælti svá: »hvárn viltu hér þiggja teininn?«. Pá svarar Haraldr: »þann, er nærri er mér«. På mælti Magnus konungr: »meö þessum reyrsprota gef ek yör hálft Nóregs-veldi meö çllum skyldum ok skçttum ok allri eign,

er þar liggr til, meö þeim formåla, at þú skalt jafnréttr konungr i çllum stçöum i Noregi sem ek; en þá er vér erum

allir saman, skal ek vera fyrirmaör i heilsan ok þjónan ok at sæti; ef iii. eru tignir menn, skal ek milli sitja; ek skal hafa konungslægi ok kon-ungsbryggju; þér skuluö ok styöja ok styrkja vårt riki i þann staö, at vér geröum yÖr at þeim manni i Nóregi, er vér hugöum, at engi skyldi verða, meöan várr hauss væri uppi fyrir ofan mold«. Pá stóö upp Haraldr ok þakkaöi honum vel tign ok vegsemö. Set jask þá niör báöir ok váru allkátir þann dag; um kveldit gekk Haraldr ok hans menn til skips sins.

K. 24. Haraldr konungr veitti Magnúsi konungi.

Eptir um morgininn lét Magnús konungr blåsa til þings çllu liÖinu. En er þing var sett, þá lýsti Magnús konungr fyrir çllum mçnnum gjçf þeiri, er hann haföi gefit Haraldi, frænda sinum. Pórir af Steig gaf Haraldi konungsnafn þar á þinginu. Pann dag bauö Haraldr konungr Magnúsi konungi til boröz sins, ok gekk hann um daginn meö lx. manna til landtjalda Haraldz konungs, þar sem hann haföi veizlu búit. Váru þar þá báöir kon-ungarnir i samsæti, ok var þar veizla fçgr ok veitt kappsamliga, váru konungarnir kátir ok glaðir. En er á leiö daginn, þá íét Haraldr konungr bera i tjaldit tçskur mjçk margar; þar báru menn ok klæði ok vápn ok annars konar gripi; þat fé miölaöi hann, gaf hann ok skipti meÖ mçnnum Magnus konungs, þeim er váru i veizlunni. Siöan lét hann leysa tçskurnar, mælti þá til Magnús konungs: »þér veittuö oss fyrra dag riki mikit, er þér hçföuö unnit áör af óvinum yörum ok várum, en tókuð oss til samlags viö yör; var þat vel gçrt, þviat þér hafiö mikit til unnit. Nú er hér i annan staö, at vér hçfum verit útlendis ok hçfum ]x) verit i nçkkurum mannhættum, áÖr en ek hefi saman komit þessu gulli, er þér munuö nú sjå mega; vil ek þetta leggja til félags viö yÖr; skulum vit eiga lausafé alt jçfnum hçndum, svá sem vit eigum riki hálft hvárr okkarr '1 Nóregi. Ek veit, at skaplyndi okkat er ólikt; ertu maör miklu çrvari en ek, munu vit skipta fé þessu meö okkr at jafnaöi, ferr þá hvárr meö sinn hlut sem vill«. Siöan lét Haraldr breiöa niör nautshúö mikla ok steypa þar á gullinu ór tçskunum; siöan váru skálir teknar ok met, reitt i sundr féit, skipt çllu meö vágum, ok þótti çllum mçnnum, er så, mikil furöa, er i Norörlçndum skyldi vera svá mikit gull saman komit i einn staö. Petta var þó reyndar Grikkja-



konungs eiga ok auðr, sem allir menn segja, at þar sé rautt gull húsum fullum. Konungarnir váru þá allkátir. Pá kom upp staup eitt, þat var svá mikit sem mannzhçfuö; tók Haraldr konungr upp staupit ok mælti: »hvar er nú þat gull, Magnús frændi, er þú leiðir i móti þessum knapphçföa ?«. Pá svarar Magnús konungr: »svá hefir gefizk ófriör ok stórir leiöangrar, at náliga alt gull ok silfr er upp gengit, þat er i minni varöveizlu er. Nú er eigi meira gull en hringr þessi i minni eign« — tók hringinn ok seldi Haraldi. Hann leit á ok mælti: »þat er litit gull, frændi, þeim konungi, er ii. konunga riki á, en þó munu sumir ifa um, hvárt þú átt þenna hring«. Pá segir Magnús konungr áhyggju-samliga: »ef ek á eigi þenna hring at réttu, þá veit ek eigi, hvat ek hefi rétt fengit, þvíat óláfr konungr inn helgi, faöir minn, gaf mér þenna hring á inum øfsta skilnaöi«. Pá svarar Haraldr konungr hlæjandi: »satt segir þú, Magnús konungr, faöir þinn gaf þér hringinn ; þann hring tók hann af fçöur mínum fyrir ekki mikla sçk; er þat ok satt, at þá var ekki gott smákonungum Í Nóregi, er faðir þinn var sem ríkastr«. Haraldr konungr gaf Steigarþóri at veizlunni mçsurbolla; hann var girör meö silfri, ok silfrhadda yfir ok gylt hvártveggja ok fullr upp af skirum silfrpenningum; þar fylgðu ok ii. gullhringar ok stóðu mçrk báðir saman; hann gaf honum ok skikkju sina, þat var brúnn purpuri, hvit skinn meö, ok hét honum miklum metnaöi ok vináttu sinni. Porgils Snorrason sagði svá at hann sá altárisklæöit, þat er gç>rt var ór mçtlinum, en Guðríðr, dóttir Guthorms Steigarþórissonar, sagði, at hon kvaö Guthorm fçöur sinn eiga bollann, svá at hon sá. Sva segir Bçlverkr:

98. Heimil varö, es ek heyröa, endisk ykkar frænda hoddstriðir, þér siöan, allfriöliga á miöli

græn, en goll bautt hçnum, sætt, en siöan vætti

grund es Magnus funduö; Sveinn romçldu einnar.

K. 25. Frá Magnúsi konungi.

Magnus konungr ok Haraldr konungr réðu báðir Nóregi inn næsta vetr eptir sætt þeira, ok haföi sina hirö hvárr þeira. feir fóru um vetrinn um Uplçnd at veizlum, ok váru stundum báöir samt, en stundum sér hvárr þeira.

Peir fóru alt norör til Pránd-heims ok til Niðaróss. Magnús konungr hafői varðveitt helgan dóm Óláfs konungs, siöan er hann kom i land, klipöi hår hans ok negl á hverjum xii. mánuöum ok hafői sjálfr lykil þann, er



skrínit mátti upp lúka með. Uröu þá margs konar jartegnir at helgum dómi Öláfs konungs. Brátt gerðusk greinir í um sam-þykki konunganna, ok váru margir svá illgjarnir, at þeira gengu svá illa í milli.

K. 26. Frá Sveini ülfssyni.

Sveinn ülfsson lá eptir i svefni, þá er Haraldr hafői brot farit. Siöan leiddi Sveinn atspurningum um farar Haraldz. En er hann spurői, at Haraldr ok Magnús hçföu sæzk ok þeir hçföu þá einn her báöir, þá helt hann liöi sinu austr fyrir Skáneyrarsíöu ok dvalöisk þar til þess, er hann spurői um vetrinn, at Magnus ok Haraldr hçföu norör haldit liöi sinu til Nóregs. Siöan helt Sveinn sinu liöi suör til Danmerkr, ok tók hann þar allar kon-ungstekjur þann vetr.

K. 27. Um konungslægi.

En er vára tók, buðu þeir út leiðangri ór Nóregi, Magnús konungr ok Haraldr konungr. Pat bar at eitt sinn, at Magnus konungr ok Haraldr konungr lágu i einni hçfn, en um daginn -eptir var Haraldr fyrri búinn ok siglði hann þegar, en at kveldi lagöi hann til hafnar, þar sem þeir Magnus konungr hçföu ætlat at vera þá nótt. Haraldr lagöi sinu skipi i konungslægi ok tjaldaði þar. Magnús konungr siglði siöarr um daginn, ok kómu þeir svá til hafnar, at þeir Haraldr hçföu tjaldat áðr; sjá þeir, at Haraldr hafői lagit i konungslægi ok hann ætlaði þar at liggja. En er þeir Magnus konungr hçföu hlaöit seglum sinum, þá mælti Magnús konungr: »greiöi menn nú róörinn ok setisk meö endilçngum boröum, sumir brjóti upp vápn sin ok vápnisk; en meö þvi at þeir vil ja eigi brot leggja, þá skulu vér ber jask«. En er Haraldr konungr sér, at Magnús konungr ætlaöi at leggja til orrostu viö þá, þá mælti hann viö sina menn: »hçggviö þér festarnar ok látið slá skipunum ór lægi; reiör er Magnús frændi«. Svá gerðu þeir, þeir lçgöu skipum ór læginu; Magnús konungr leggr sinum skipum i lægit. Pá er hvárrtveggi hafői um búizk, gekk Haraldr konungr meö nçkkura menn á skip Magnús konungs ; konungr fagnaði honum vel, baö hann vel kominn. På svarar Haraldr konungr: »þat hugöa ek, at vér værim meö vinum komnir, en nçkkut grunaöi mik um hriö, hvárt þér munduö svá vilja vera låta: en þat er satt, er mælt er, at bráðgeð er bernska; vil ek viröa eigi á aöra lund, en þetta væri œskubragö«. På4 22



segir Magnús konungr: »þat var ættarbragð en eigi œsku, þótt ek mætta muna, hvat ek gaf eða hvat ek varnaða; ef þessi li ti i hlutr væri nú tekinn fyrir vårt ráð, þá myndi brátt vera annarr; en alla sætt viljum vér halda, þá er gçr er, en þat sama viljum vér af yör hafa, sem vér eigum skilt.« På segir Haraldr konungr: »þat er ok forn siðr, at inn vitrari vægi« — gekk þá aptr á skip sitt. 1 þvílikum viðskiptum konunganna fannzk þat, at vant var at gæta til; tçlbu menn Magnús konungs, at hann hefði rétt at mæla, en þeir, er óvitrir váru, tçlöu þat, at Haraldr væri nçkkut svivirðr. En Haraldz konungs menn sçgöu þat, at eigi væri á aðra lund skilt, en Magnus konungr skyldi lægi hafa, ef þeir kvæmi jamsnimma, en Haraldr væri eigi skyldr at leggja ór læginu, ef hann lægi fyrir, tçlöu hafa Harald vitrliga ok vel; en þeir er verr vildu um rœða, tçlöu, at Magnus konungr vildi rjúfa sætt, ok tçlöu, at hann hefði gçrt rangt ok óscemö Haraldi konungi. Viö slikar greinir geröisk brått umroeöa óvitra manna til þess, at konungum varð sundrþykki at; mart fanzk þá til þess, er konungunum þótti sinn veg hvárum, þótt hér sé fått ritat.

K. 28. Andlát Magnus konungs góöa.

Magnús konungr ok Haraldr konungr heldu her þeim suðr til Danmerkr. En er Sveinn spurði þat, þá flýði hann undan austr á Skáni. Peir Magnús konungr ok Haraldr konungr dvçlöusk lengi um sumarit i Danmçrk, lçgöu þá land alt undir sik. Peir váru á Jótlandi um haustit. Pat var eina nótt, þá er Magnús konungr lá i hvilu sinni, at hann dreymöi ok þóttisk staddr þar sem var faðir hans, inn helgi Óláfr konungr, ok þótti hann mæla við sik: »hvárn kost viltu sonr minn, at fara nú með mér eöa verða allra konunga rikastr ok lifa lengi ok gera þann

glœp, at þú fáir annat hvárt bætt trautt eða eigi?«. En hann þóttisk svara: »ek vil, at þú kjósir fyrir mina hçnd«. Pá þótti honum konungrinn svara: »þá skaltu meö mér fara«. Magnús konungr segir draum þenna mçnnum sinum. En litlu siðarr fekk hann sótt ok lá þar sem heitir Súðaþorp. En er hann var nær kominn bana, þá sendi hann Póri, bróður sinn, til Sveins ülfs-sonar, at hann skyldi veita hjálp Póri, þá sem hann þyrpti; þat fylgði orösendingunni, at Magnús konungr gaf Sveini Dana-veldi eptir sinn dag, segir, at þat var makligt, at Haraldr réöi fyrir Nóregi, en Sveinn fyrir Danmçrku. Siöan andaðisk Magnús kon-



ungr góÖi, ok var hann allmjçk harmdauði allri alþýÖu; svá segir Oddr Kíkinaskáld:

99. Feldu menn, þás mildan deildisk hugr, svát heldu rnçrg tçr, i grçf bçru, húskarlar grams varia,

þung byrðr vas sú, þengil, siklings þjóö en síðan

þeim es hann gaf seima; sat opt hnipin, vatni.

K. 29. Líkferð Magnús konungs.

Eptir þessi tíðendi haföi Haraldr konungr þing við liöit, segir mçnnum ætlan sina, at hann vill fara með herinum til Vébjarga-þings ok låta sik taka til konungs yfir Dana-veldi, vinna siðan landit; telr þat jamvel sina erfð sem Nóregs-veldi eptir Magnús frænda sinn; biðr þá liöit efla sik, lætr þá munu Norðmenn vera allan aldr yfirmenn Dana. På svarar Einarr þambarskelfir, lét sér vera skyldra, at flytja Magnús konung, fostra sinn, til graptar ok færa hann feðr sinum, Óláfi konungi, en berjask útlendis eða girnask annars konungs veldi ok eign; lýkr svá málinu, at betra þótti honum at fylgja Magnúsi konungi dauöum en hverjum annarra konunga lifanda; lét siðan taka likit ok búa um vegliga, svá at sjá mátti umbúnaðinn á konungs-skipit. Pá bjoggusk allir Prændir ok Norömenn til heimfarar með liki Magnus konungs ok raufsk leiðangrinn. Sér þá Haraldr konungr þann kost inn bezta, at fara aptr til Noregs ok eignask fyrst þat veldi ok eflask þaðan at liði. Fór nú Haraldr konungr aptr með çllu liðinu i Nóreg. En þegar er hann kom til Noregs, þá åtti hann þing við landzmenn ok lét taka sik til konungs um alt land; fór hann svá alt austan um Vikina, at hann var til konungs tekinn i hverju fylki i Nóregi.

K. 30. Frá Magnúsi konungi.

Einarr þambarskelfir fór með liki Magnús konungs ok meö honum allr Prænda-herr, ok fluttu til Niðaróss, ok var hann þar jaröaör at Klemenskirkju; þar var þá skrin ins helga Óláfs konungs. Magnús konungr hafði verit meðalmaðr á vçxt, réttleitr ok ljósleitr ok ljóss á hár, snjallmæltr ok skjótráðr, skçrunglyndr, inn mildasti af fé, hermaör mikill ok inn vápndjarfasti; allra konunga var hann vinsælstr, bæöi lofuöu hann vinir ok óvinir.





K. 31. Frå Sveini konungi Ulfssyni. Sveinn ülfsson var þat haust staddr á Skáni ok byrjaöi ferð sina austr i Svia-veldi ok ætlaði at gefa upp tignarnafn þat, er hann hafði tekit i Danmçrk. En er hann var kominn til hests sins, þá riöu þar til hans menn nçkkurir ok segja honum tiöendin, þau in fyrstu, at andaðr er Magnús konungr Óláfsson ok þat meö, at allr Norðmanna-herr var i brot farinn ór Danmçrk. Sveinn svarar þvi skjótt ok mælti: »þvi skýt ek til guös, at aldri siöan skal ek flýja Dana-veldi, meöan ek lifi« ; stigr hann þá á hest sinn ok riör þá suðr á Skáni; dreif þá þegar mikit liö til hans. Pann vetr lagöi hann undir sik alt Dana-veldi, tóku þá allir Danir hann til konungs. Pórir, bróðir Magnus konungs, kom til Sveins um haustit meö orðsendingum Magnús konungs, sva sem fyrr var ritat; tók Sveinn vel viÖ honum, ok var Pórir lengi meö honum síöan i góðu yfirlæti.

K. 32. Af Haraldi konungi Sigurðarsyni.

Haraldr konungr Sigurðarson tók konungdóm yfir çllum Nóregi eptir andlát Magnus konungs Óláfssonar. En er hann hafði ráðit Nóregi einn vetr ok er at vári kom, þá bauö hann leiðangri ut af çllu landi, hálfum almenningi at liöi ok skipum, ok helt suÖr til Jótlandz; hann herjaöi um sumarit viöa ok brendi ok lagði i Goönarfjçrö. På orti Haraldr konungr þetta:

100. Látum vér, meöan lirlar -gerÖr, i Goönarfiröi, lin-, eik, veri sinum galdr, akkeri halda.

På mælti hann til Pjóöólfs skáldz, baö hann þar viö yrkja; hann kvaö:

101. Sumar annat skal sunnar vér aukum kaf króki, (segek eina spó) fleini, kaldnefr furu halda.

Til þess visar Bçlverkr i sinni drápu, at Haraldr fór it næsta sumar eptir andlát Magnús konungs til Danmerkr:

102. Leiöangr bjótt af láöi skokkr lá dýrr á døkkri, (lçgr gekk of skip) fçgru, Danir vçru þá, bóru, gjalfrstóðum reist grœöi (skeiör sá herr fyr hauöri glæstum, år et næsta; hlaönar) illa staönir.

Pá brendu þeir bæ Porkels geysu; hann var hçföingi mikill; váru þá leiddar dætr hans bundnar til skipa. Pær hçföu gçrt spott mikit áðr um vetrinn um þat, at Haraldr konungr myndi fara til Danmerkr meö herskipum; þær skáru ór osti akkeri ok segja, at



slik myndi vel mega halda skipum Nóregs konungs; þá var þetta kveðit:

103. Skóru jast ór osti nú sér mçrg i morgin (eybaugs) Dana meyjar mær (hlær at því færi)

(þau of çngruöu þengil œrnan krók ór járni

þing) akkeris hringa; allvalds skipum halda.

Svá segja menn, at njósnarmaör mælti, sá er sét hafði flota Haraldz konungs, viö dœtr Porkels geysu: »þat sçgÖu þér, Geysu-dœtr, at Haraldr myndi eigi koma til Danmerkr«. Dótta segir: »svá var í gjárna«. Porkell leysti út dœtr sinar meö ógrynni f jár ; svá segir Grani:

104. Lét aldrigi úti Fila dóttinn råk flótta ósvífr Kraka drífu fjanda grams til strandar; Hlçkk í haröa þjokkum auö varð út at reiöa Hornskógi brç> þorna; allskjótt faðir Dóttu.

Haraldr konungr herjaöi alt þetta sumar Dana-veldi ok fekk ógrynni fjár, en ekki varö hann ílendr á því sumri í Danmçrk. Fór hann aptr um haustit til Noregs ok var þar um vetrinn.

K. 33. Kvánfang Haraldz konungs ins harðráða. Haraldr konungr fekk Póru Porbergsdóttur Árnasonar inn næsta vetr eptir en Magnus konungr inn góði andaðisk. Pau áttu ii. sonu, hét inn ellri Magnús en annarr Óláfr. Haraldr konungr ok Ellisif drótning áttu dætr ii., hét çnnur Mária, en çnnur Ingigerör. En it næsta vår eptir þessa herfçr, er nú var áðr frå sagt, bauð Haraldr konungr liði út ok fór um sumarit til Danmerkr ok herjaði, ok siöan hvert sumar eptir annat; sva segir Stúfr skåld:

105. Autt varö Falstr, at fréttum gæddr vas hrafn, en hræddir fekk drótt mikinn ótta, hvert ár Danir vçru.

K. 34. Frá'Sveini konungi.

Sveinn konungr réö fyrir ç>llu Dana-veldi, siöan er Magnús konungr andaöisk; hann sat um kyrt á vetrum, en lá úti meö almenning á sumrum ok heitaöisk at fara norÖr i Nóreg meö Dana-her ok gera þar eigi minna ilt, en Haraldr konungr geröi i Dana-veldi. Sveinn konungr bauö Haraldi konungi um vetrinn, at þeir skyldi finnask um sumarit eptir i Elfinni ok berjask þar til þrautar eöa sættask ella. Pá tóku hvárirtveggju allan vetrinn at búa skip sin, ok hafa úti hálfan almenning báöir eptir um



sumarit. — Pat sumar kom útan af Islandi Porleikr fagri ok tók at yrkja flokk um Svein konung Úlfsson; hann spurði, þá er hann kom norðr i Nóreg, at Haraldr konungr var farinn suðr til Elfar móti Sveini konungi; þá kvað Porleikr betta:

106. Von 's at visa kœnan þar má enn hvárr annan

vigs á Rakna stigum çndu nemr eða lçndum

çrt i odda snertu (litt hvggr Sveinn á sáttir

Innþrœnda liö f inni; sjaldfestar) goð valda.

Ok enn kvað hann þetta:

107. Fœrir reiðr, sás rauða en lauks of sæ sækja

rçnd hefr opt fyr landi, Sveins fagrdrifin steini

breið á Buðla slóðir glæsidýr, þess 's geira,

borðraukn Haraldr norðan, gollmunnuð, rýðr, sunnan. Haraldr konungr kom til ákveðinnar stefnu með her sinn; þá i- spurði hann, at Sveinn konungr lá suðr við Sjáland með flota sinum. Pá skipti Haraldr konungr liöi sinu, lét aptr fara fiestan bóndaherinn; hann fór með hirð sinni ok lendum mçnnum ok vildarliðinu, ok þat alt af bóndaliðinu, er næst var Dçnum. Peir fóru suðr til Jótlandz fyrir sunnan Vendilskaga, svá suðr um Pjóðu, fóru þar alt herskildi; svá segir Stúfr skald:

108. Flýðu þeir á Pjóðu stórt réð hugprútt hjarta.

þengils fund af stundu; Haralds çnd ofar lçndum.

Alt fóru þeir suðr til Heiðabýjar, tóku kaupstaðinn ok brendu; þá ortu menn Haraldz konungs þetta: 109. Brendr vas upp með endum vçn 's at vinnim Sveini, allr, en þat má kalla (vask i nótt fyr óttu)

hraustligt bragð es hugðak, gaus hår logi ór húsutn, Heiðabœr af reiði; harm (á borgar armi).

Pessa getr Porleikr ok i sinum flokki, þá er hann hafði spurt, at eigi hafði tekizk orrosta viö Elfi:

110. Hvé hefr til Heiðabcejar þás til þengils býjar heiptgjarn konungr arnat, þarflaust Haraldr austan folkrçgnir, getr fregna ár, þat 's án of væri,

fylkis sveit, hinn 's veitat, endr byrskiðum rendi.

K. 35. Undanferð Haraldz konungs á Jótlandzhafi.

Pá fór Haraldr norðr ok hafði lx. skipa, ok váru flest stór ok hlaöin mjçk af herfangi, er þeir hçföu tekit um sumarit. En er þeir kómu norðr fyrir Pjóðu, þá kom Sveinn konungr ofan af landi með her mikinn; hann bauð þá Haraldi konungi at ber jaskHAR. HARD.

469

ok ganga å land. Haraldr konungr haföi liö meirr en hálfu minna; hann bauö þó Sveini konungi at ber jask á skiputn viö sik; svá segir Porleikr fagri:

Eptir þetta siglöi Haraldr norör fyrir Vendilskaga; bægöi þeim þá veör, ok lçgÖu undir Hlésey ok lágu þar um nótt. På geröi mjçrkva sælægjan. En er mornaöi ok sól rann upp, þá sá þeir annan veg á hafit, sem eldar nçkkurir brynni. På var þat sagt Haraldi konungi; þá sá hann ok mælti þegar: »láti tjçld af skipunum, ok taki menn róör; Dana-herr mun kominn at oss; mun hroöit myrkvanum þar sem þeir eru, mun sól skina å dreka-hçfuö þeira, þau er gulllçgö eru«. Svá var sem Haraldr sagöi; var þar þá kominn Sveinn Dana-konungr meö óvigjan her. Røru þá hvárirtveggju sem mest máttu. Danir hçföu skip árfljótari, en Norömanna skip váru bæöi sollin ok sett mjçk; dró þá saman mjçk meö þeim. På så Haraldr, at eigi myndi hlýöa svá búit. Dreki Haraldz konungs fór siöarst allra skipa hans. På mælti Haraldr konungr, at kasta skyldi fyrir borö viöum ok låta å koma klæöi ok gripi góða. Logn var sva mikit, at þetta hóf fyrir straumi. En er Danir så fé sitt reka á hafinu, þá viku þeir þar til, er fyrstir fóru, þótti þetta dælla at taka, er laust flaut, en sæk ja inn um borö at Norömçnnum; dvalöisk þá eptirróörinn. En er Sveinn konungr kom eptir þeim meö sin skip, eggjaöi hann ok kvaö skçmm mikla vera, svá mikinn her sem þeir hçföu, ef þeir skyldu eigi få tekit þá, er þeir hçföu liö litit, ok eiga vald þeira. Pá tóku Danir ok herðu róörinn i annat sinn. En er Haraldr konungr så, at meira gengu skipin Dana, þá baö hann 3° sina menn létta skipin ok bera fyrir borö malt ok hveiti ok flesk ok hçggva niör drykk sinn; stóö þá viö um hríð. Pá lét Haraldr konungr taka viggyröla ok verpla ok tunnur, er tómar váru, ok kasta fyrir borö, ok þar meÖ herteknum mçnnum. En er þat rak alt saman á sjánum, þá baö Sveinn konungr hjálpa mçnnum, ok var svá gçrt. 1 þeiri dvçl dró sundr meö þeim; snøru þá Danir aptr, en Nóregs-menn fóru leiö sina; sva segir Porleikr fagri:

112. Alt of frák, hvé elti Sveinn, en siklingr annarr

austmenn á veg flausta snarlundaör helt undan;

in. Bauö, så 's beztrar tiöar borinn varö und Miögaröi, rikri þjóð at rjóða randir Sveinn á landi;

þó lézk heldr, ef heldi hvatráör konungr láöi, á by r jar val ber jask bilstyggr Haraldr vilja



fengr varö Prœnda þengils allr á éli sollnu (þeir létu skip fleiri) Jótlands hafi fljóta.

Sveinn konungr veik aptr flotanum undir Hlésey, hitti þar vii. skip af Norömçnnum, þat var leiðangrslið ok bœndr einir; en er Sveinn konungr kom at þeim, þá báðu þeir sér griöa ok buðu fé fyrir sik; svá segir Porleikr fagri: 113. Sætt buöu seggja drótni ok snarráðir siöan siklings vinir mikla, sókn es orðum tókusk

svçföu hjaldr þeirs hçföu (çnd vas ýta kindum

hugstinnir lið minna; 0fç>l) búendr dvçlöu.

K. 36. Frá Haraldi konungi.

Haraldr konungr var maör rikr ok stjórnsamr innanlandz, spekingr mikill at viti, svá at þat er alþýöu mål, at engi hçföingi hafi så verit á Norörlçndum, er jafndjúpvitr hafi verit sem Haraldr eöa ráösnjallr; hann var orrostumaör mikill ok inn vápndjarfasti; hann var sterkr ok vápnfœrr betr en hverr maör annarra, svá sem fyrr er ritat; en þó er mikla fieira óritat hans frægöarverka; kømr til þess ófrœði vår ok þat annat, at vér viljum eigi setja á bcekr vitnislausar sçgur; þótt vér hafim hevrt ræöur eöa getit fleiri hluta, þá þykkir oss heðan i frá betra, at viö sé aukit, en þetta sama þurfi ór at taka. Er saga mikil frá Haraldi konungi sett i kvæði, þau er islenzkir menn færöu honum sjálfum eöa sonum hans; var hann fyrir þá sçk vinr þeira mikill. Hann var ok inn mesti vinr hegat til allra landzmanna; ok þá er var mikit hallæri á íslandi, þá leyföi Haraldr konungr fjórum skipum mjçlleyfi til Islandz ok kvaö á, at ekki skippund skyldi vera dýrra en fyrir Cj vaðmála; hann leyföi útanferö çllum fátœkjum mçnnum þeim er sér fengi vistir um haf, ok þaöan af nærÖisk land þetta til árferðar ok batnaöar. Haraldr konungr sendi ut hingat klukku til kirkju þeirar, er inn helgi Óláfr konungr sendi viö til, er sett var á alþingi. Pvilik minni hafa menn hingat Haraldz konungs ok mçrg çnnur i storgjçfum, er hann veitti þeim mçnnum, er hann sóttu heim. Haldórr Snorra-son ok tllfr óspaksson, þeir er fyrr var getit, kómu i Nóreg meö Haraldi konungi. Peim var ólíkt farit at mçrgu; Haldórr var manna mestr ok sterkastr ok inn friöasti; þat vitni bar Haraldr konungr honum, at hann hafi verit þeira manna meÖ honum, er sizt brygöi viö váveifliga hluti, hvárt er þat var mannháski eöa fagnaöartiöendi eöa hvat sem at hendi kom i háska, þá var hann

eigi glaöari ok eigi óglaðari; eigi svaf hann meira né minna eða drakk eða neytti matar, en svá sem vanði hans var til. Haldórr maðr fámæltr ok stirðorðr, bermæltr ok striðlundaðr ok ómjúkr, en þat kom illa þá viö konung, er hann hafði gnóga aðra með sér gçfga menn ok þjónostufulla. Dvalðisk Haldórr litla hrið meÖ konungi, fór hann til Islandz, gerði þar bú i Hjarðarholti, bjó þar til elli ok varð gamall.

K 37. Frá Ulfi Óspakssyni. ülfr Öspaksson var meö Haraldi konungi i miklum kærleik-um; hann var inn vitrasti maör, snjallr i máli, skçrungr mikill, tryggr ok einfaldr. Haraldr konungr geröi ülf stallara sinn ok gipti honum Jórunni Porbergsdóttur, systur Póru, er Haraldr konungr åtti. Bçrn ülfs ok Jórunnar váru þau Joan sterki á Rásvelli ok Brigiða móöir Sauöa-ülfs, fçöur Pétrs byröarsveins, fçöur þeira ülfs flýs. Sonr Jóans sterka var Erlendr himaldi, faÖir Eysteins erkibyskups ok bræöra hans. Haraldr konungr gaf ülfi stallara lendz mannz rétt ok xii. marka veizlur ok umfram hálft fylki i Prándheimi; sva segir Steinn Herdisarson i ülfsflokki.

K. 38. Frá Haraldi konungi. Magnus konungr Öláfsson lét gera Óláfskirkju i kaupangi; i þeim staö haföi náttsætt verit lik konungs, þat var þá fyrir ofan bæinn. Hann lét þar ok reisa konungsgaröinn. Kirkjan varÖ eigi algçr, áör konungr andaöisk. Lét Haraldr konungr fylla þat er á skorti. Hann lét ok efna þar i garöinum at gera sér steinhçll, ok varö hon eigi algçr áör hann lézk. Haraldr konungr lét reisa af grundvelli Máriukirkju uppi á melinum, nær þvi er heilagr dómr konungsins lå i jçröu inn fyrsta vetr eptir fall hans; þat var mikit musteri ok gçrt sterkliga at

liminu, svá at varla fekk brotit, þá er Eysteinn erkibyskup lét ofan taka. Heilagr dómr Öláfs konungs var varöveittr i Öláfskirkju, meöan Máriukirkja var i gørö. Haraldr konungr lét húsa konungsgarö ofan frá Máriukirkju viÖ ána, þar sem nú er; en þar sem hann hafôi hçllina látit gera, lét hann vigja hús þat til Grégóriúskirkju.

K. 39. Uphaf Hákonar Ivarssonar.

Ivarr hviti er maör nefndr, er var lendr maör gçfugr; hann átti bú á Uplçndum, hann var dótturson Hákonar jarls ins rika;4 22



Ivarr var allra manna fríðastr sýnum. Sonr Ivars hét Håkon; frå honum er svá sagt, at hann var umfram alla menn, þá er i þann tima váru i Nóregi, at fræknleik ok at afli ok atgørvi; hann var þegar á ungaaldri i herfçrum ok aflaði sér þar mikillar fremöar, ok geröisk Håkon inn ágætasti maör.

K. 40. Frå Einari þambarskelfi.

Einarr þambarskelfir var rikastr lendra manna i Þrándheimi. Heldr var fått um meö þeim Haraldi konungi; hafôi Einarr þó veizlur sínar, þær sem hann hafôi haft, meöan Magnus konungr lifôi. Einarr var mjçk stórauöigr; hann átti Bergljótu, dóttur Hákonar jarls, sem fyrr var ritat. Eindriöi var þá alroskinn, sonr þeira; hann åtti þá Sigriöi, dóttur Ketils kálfs ok Gunnhildar, systurdóttur Haraldz konungs. Eindriöi hafôi fríðleik ok fegrð af móöurfrændum sinum, Hákoni jarli eöa sonum hans, en vçxt ok afl hafôi hann af fçöur sinum Einari ok alla þá atgørvi, er Einarr hafÖi umfram aöra menn ; hann var inn vinsælsti maör.

K. 41. Frá Ormi jarli.

Ormr hét þá jarl á Uplçndum ; móöir hans var Ragnhildr, dóttir Hákonar jarls ins rika; Ormr var inn mesti ágætismaör. Pá var á Jaöri austr á Sóla Áslákr Erlingsson ; hann átti Sigriöi, dóttur Sveins jarls Hákonarsonar. Gunnhildi, aöra dóttur Sveins jarls, åtti Sveinn ülfsson Danakonungr. Slikt var afkvæmi Hákonar jarls þá i Nóregi ok mart annat gçfugra manna, ok var ætt sú çll miklu fríðari en annat mannfolk, ok flest atgørvimenn miklir, en alt gçfugmenni.

K. 42. Frå Haraldi konungi. Haraldr konungr var riklundaör ok óx þat, sem hann festisk i landinu, ok kom sva, at fiestum mçnnum dugði illa at mæla i móti honum eöa draga fram annat mål, en hann vildi vera låta; svá segir Þjóöólfr skåld:

114. Gegn skylir herr, sem hugnar, hjaldrvitjaöar sit ja, dolgstœranda dýrum, dróttinvandr ok standa;

lýtr folkstara feiti, fått 's til nema játta þat sem þá vill gotnum, þjóð çll, konungr bjóöa.

K. 43. Frá Einari þambarskelfi.

Einarr þambarskelfir var mest forstjóri fyrir bóndum alt um Prándheim; helt hann upp svçrum fyrir þá á þingum, er konungs menn sóttu. Einarr kunni vel til laga; skorti hann eigi dirfð til at flytja þat fram á þingum, þó at sjálfr konungr væri viö; veittu honum liö allir bændr. Konungr reiddisk því mjçk, ok kom sva at lyköum, at þeir þreyttu kappmæli. Segir Einarr, at bændr vildu eigi þola honum olçg, ef hann bryti landzrétt á þeim; ok fór sva nçkkurum sinnum milli þeira. Pá tók Einarr at hafa fjçlmenni um sik heima, en þó miklu fleira, þá er hann fór til býjar, sva at konungr var þar fyrir. Pat var eitt sinn, at Einarr fór inn til býjar ok hafôi liö mikit, langskip viii. eöa ix., ok nær d. manna; en er hann kom til bæjar, gekk hann upp meö liö þat. Haraldr konungr var i garöi sinum ok stóö ut i loptsvçlum ok sá, er liö Einars gekk af skipum, ok segja menn, at Haraldr kvaö þá:

115. Hér sék upp enn çrva hilmis stóls, á hæla

Einar, þanns kann skeina húskarla liö jarli.

þjalfa, þambarskelfi, 116. Rjóðandi mun ráða

þangs, fjçlmennan ganga; randar bliks ór landi

fullafli bíðr fyllar, oss, nema Einarr kyssi

finnk opt at drifr minna, øxar munn enn þunna.

Einarr dvalðisk i býnum nçkkura daga.

K. 44. Fall Einars ok Eindriöa.

Einn dag var átt mot, ok var konungr sjálfr á mótinu. Haföi verit tekinn i býnum þjófr einn, ok var hafÖr á mótinu; maÖrinn haföi verit fyrr meö Einari, ok haföi honum vel getizk at manninum. Var Einari sagt; þá þóttisk hann vita, at konungr myndi eigi manninn láta undan ganga fyrir því at heldr, þótt Einari þœtti þat máli skipta. Lét þá Einarr vápnask liö sitt, ok ganga siöan á mótit; tekr Einarr manninn af mótinu meö valdi. Eptir þetta gengu at beggja vinir ok báru sáttmál milli þeira; kom þá svá, at stefnulagi var á komit, skyldu þeir hittask sjálfir. Målstofa var i konungsgaröi viö ána niöri; gekk konungr i stofuna viö få menn, en annat liö hans stóö úti i garöinum. Konungr lét snúa fjçl yfir ljórann, ok var litit opit á. Pá kom Einarr i garöinn meö sitt liö; hann mælti viö Eindriöa son sinn: »ver þú meö liöinu úti, viö engu mun mér þá hætt«. EindriÖi stóð úti viö



stofudyrrin. En er Einarr kom inn i stofuna, mælti hann: »my r kt er i málstoíu konungsins«. Jamskjótt hljópu menn at honum, ok IçgÖu sumir, en sumir hjoggu. En er Eindriði heyrði þat, brá hann sverðinu ok hljóp inn i stofuna; var hann þegar feldr ok báðir þeir. Pá hljópu konungsmenn at stofunni ok fyrir dyrrin, en bóndum fellusk hendr, þvíat þeir hçföu þá engan forgçngu-mann; eggjaöi hverr annan, segja, at skçmm var, er þeir skyldu eigi hefna hçföingja sins, en þó varö ekki af atgçngunni. Konungr gekk út til liös sins ok skaut á fylking ok setti upp merki sitt, en engi varö atganga bóandanna. Pá gekk konungr út á skip sitt ok alt liö hans, røri siöan ut eptir ánni ok svá út á fjçrö leiö sina. Bergljot, kona Einars, spurði fall hans; var hon þá i herbergi því, er þau Einarr hçföu áðr haft ut i bænum ; gekk hon þegar upp i konungsgarÖ, þar sem bóndaliÖit var; hon eggjaöi þá mjçk til orrostu; en i því bili røri konungr út eptir ánni. Pá mælti Bergljot: »missum vér nú Hákonar Ivarssonar, frænda mins; eigi mundu banamenn Eindriöa róa hér ut eptir ánni, ef Håkon stœði hér á árbakkanum«. Siöan lét Bergljot búa um lik þeira Einars ok Eindriöa; váru þeir jaröaöir at Óláfskirkju hjá leiöi Magnús konungs Óláfssonar. Eptir fall Einars var Haraldr konungr svá mjçk óþokkaðr af verki þessu, at þat eina skorti á, er lendir menn ok bændr veittu eigi atferð ok heldu bardaga viö hann, at engi varö forgçngumaör til at reisa merki fyrir bóandaherinum.

K. 45. Frá Haraldi konungi ok Finni Árnasyni.

Finnr Árnason bjó þá á Yrjum á Austrått; hann var þá lendr maör Haraldz konungs. Finnr átti Bergljótu, dóttur Hálídanar Siguröarsonar sýrs; Hálfdan var bróÖir Öláfs konungs ins helga ok Haraldz konungs. Póra, kona Haraldz konungs, var bróöurdóttir Finnz Arnasonar; var Finnr inn kærsti konungi ok allir þeir brœör. Finnr Árnason haföi verit nçkkur sumur '1 vestrviking; hçföu þeir þá verit allir saman i hernaði Finnr ok Guthormr Gunnhildarson ok Hákon ívarsson. Haraldr konungr fór út eptir Prándheimi ok út á Austrått; var honum þar vel fagnat. Siöan tçluöusk þeir viö konungr ok Finnr ok ræddu sin á milli um þessi tiöendi, er þá hçföu gçrzk fyrir skemstu, aftçku Einars ok þeira feöga ok svá kurr þann ok þys, er Prœndir gerÖu at konungi. Finnr svarar skjótt: »þér er verst farit at hvivetna; þú gerir hvatvetna ilt, en siöan ertu svá hræddr, at þú veizt eigi,



hvar þú hefir þik«. Konungr svarar hlæjandi: »mágr, ek vil nú senda þik inn til býjar; ek vil, at þú sættir bændr viö mik; vil ek, ef þat gengr eigi, at þú farir til Uplanda ok komir því viö Håkon Ivarsson, at hann sé eigi motgçngumaör minn«. Finnr svarar: »hvat skaltu til leggja viö mik, ef ek fer forsendu þessa, þviat bæöi Jprændir ok Uplendingar eru fjandr þínir svá miklir, at engum sendimçnnum þinum er fært þannug, nema sin njóti viö«. Konungr svarar: »far þú, mágr, sendifçrna, þviat ek veit, at þú kømr áleiÖis, ef nçkkurr kømr, at gera oss sátta, ok kjós þú bæn at oss«. Finnr segir: »halt þú þá orð þin, en ek mun kjósa bœnina; ek kýs griö ok

landzvist Kálfi, bróÖur mínum, ok eignir hans allar ok þat meö ,at hann hafi nafnbœtr sinar ok alt riki sitt, slikt er hann hafði, áðr hann fór ór landi«. Konungr sagöi ok játti çllu þessu, er Finnr mælti; hçföu at þessu vitni ok handfestar. Siöan mælti Finnr: »hvat skal ek Hákoni fram bjóÖa 1-til þess, at hann játti þér griðum, hann ræör nú mest fyrir þeim frændum«. Konungr segir: »hitt skaltu fyrst heyra, hvat Håkon mælir til sættar fyrir sina hçnd. Siöan kom þú minu máli, sem framarst máttu, en at lykðum þá neitaöu konungdóminum einum«. SiÖan fór Haraldr konungr suör á Mæri ok dró at sér liö ok geröisk fjçlmennr.

K. 46. Ferö Finnz Árnasonar.

Finnr Árnason fór inn til bæjar ok haföi meö sér húskarla sina, nær lxxx. manna. En er hann kom inn til býjarins, þá åtti hann þing viÖ býjarmenn. Finnr talaÖi á þinginu langt ok snjalt, baö býjarmenn ok bændr taka alt annat ráö en hatask viö konung sinn eða reka hann i brot, minti þá á, hversu mart ilt haföi yfir þá gengit, siöan er þeir hçföu þat fyrr gçrt viö inn helga Öláf konung; segir ok, at konungr vill bæta vig þessi, svá sem inir beztu menn ok inir vitrustu vilja dæma. Lauk Finnr svá 3° sinni ræöu, at menn vildu låta standa þetta mål kyrt, þar til er aptr kœmi sendimenn þeir, er Bergljot haföi gçrt til Uplanda á fund Hákonar Ivarssonar. Siöan fór Finnr út til Orkadals meÖ þá menn, er honum hçföu fylgt til býjar; siöan fór hann upp til Dofrafjallz ok austr um fjall. Fór Finnr fyrst á fund Orms jarls, mågs sins, — jarl átti Sigriöi, dóttur Finnz —, ok segir honum til ørenda sinna.4



K. 47. Frå Finni ok Hákoni Ivarssyni.

Síðan leggja þeir stefnulag viö Håkon Ivarsson. En er þeir finnask, þá bar Finnr upp ørendi sin fyrir Håkon, þau er Haraldr konungr bauö honum; fanzk þat brått i rœðu Hákonar, at honum þótti sér skylda mikil á vera at hefna Eindriða, frænda sins, segir, at honum váru þau orö komin ór Prándheimi, at honum myndi þar fásk gnógr styrkr til upreistar i móti konungi. Siöan tjáöi Finnr fyrir Hákoni, hversu mikill munr honum var, at betra var at taka af konungi svá mikil metorö, sem hann kynni sjálfr at beiöa, heldr en hætta til þess, at reisa orrostu i móti konungi þeim, er hann var áör þjónostubundinn viö, segir, at hann mun fara ósigr — »ok hefir þú þá fyrir gçrt bæöi fé ok friöi; en ef þú sigrask á konungi, þá muntu heita dróttinsviki«. Jarl studdi ok þessa roeöu meö Finni. En er Håkon hugsaöi þetta fyrir sér, þá lauk hann þat upp, er honum bjó i skapi, segir svá: »ek mun sættask viö Harald konung, ef hann vill gipta mér Ragnhildi, dóttur Magnus konungs Óláfssonar, frændkonu sina, meö þvilikri heimanfylgju, sem henni sómir ok henni líkar«. Finnr segir, at hann vill þessu játta af konungs hendi; staðfesta þeir þetta mál milli sin. Siöan ferr Finnr norör aptr til Pránd-heims; settisk þá niðr þessi ófriðr ok agi, svá at konungr helt þá enn riki sinu i friöi innan landz, þviat þá var niör drepit sambandi því çllu, er frændr Eindriöa hçföu haft til motstçöu viÖ Harald konung.

K. 48. Bónorð Hákonar Ivarssonar.

En er sú stefna kom, er Håkon skyldi vitja þessa einkamála, þá fór hann á fund Haraldz konungs. En er þeir taka tal sitt, þá segir konungr, at hann vill halda alt þat af sinni hendi, sem i sætt haföi komit meö þeim Finni — »skaltu Håkon, segir konungr, tala mál þetta viö Ragnhildi, hvárt hon vill samþykkja þetta ráö; en eigi er þér ok engum çörum at ráöanda at få Ragnhildar, svá at eigi sé hennar samþykki viö«. Siöan gekk Håkon á fund Ragnhildar ok bar upp fyrir hana bónorö þetta. Hon svarar svá: »opt finn ek þat, at mér er aldauöi Magnús konungr faðir minn, ef ek skal giptask bónda einum, þó at þú sér friör maör eöa vel búinn at íþróttum; ef Magnús konungr lifði, þá myndi hann eigi gipta mik minna manni en konungi. Nú er þess eigi ván, at ek vilja giptask ótígnum manni«. Siöan



gekk Håkon á fund Haraldz konungs ok. segir honum rœöu þeira Ragnhildar, innir þá upp einkamál þeira Finnz; var þá ok Finnr hjå ok fleiri menn, þeir er við rœðu þeira Finnz hçföu verit; segir Håkon svá til allra þeira vitnis, at svá var skilt, at konungr skyldi svá Ragnhildi heiman gera, at henni likaöi — »nú vill hon eigi eiga ótiginn mann, þá meguö þér gefa mér tignar-nafn; hefi ek til þess ætt, at ek má heita jarl, ok nçkkura hluti aðra, at því er

menn kalla«. Konungr svarar: »Óláfr konungr, bróÖir minn, ok Magnús konungr, sonr hans, þá er þeir réðu ríki, létu þeir einn jarl vera senn i landi; hefi ek ok svá gçrt, siöan er ek var konungr; vil ek eigi taka tign af Ormi jarli, þá er ek hefi áör gefit honum«. Sá þá Håkon sitt mål, at þat myndi eigi viö gangask; likaöi honum þá stórilla; Finnr var ok allreiÖr; segja þeir, at konungr heldi ekki orö sin, ok skilðusk at svá búnu. Håkon fór þá þegar ór landi ok hafði langskip vel skipat; hann kom fram suör i Danmçrk ok fór þegar á fund Sveins konungs, mågs sins. Tók konungr feginsamliga viö honum ok fekk honum þar veizlur miklar; geröisk Håkon þar landvarnar-maör Sveins konungs fyrir vikingum, er mjçk herjuöu á Dana-\eldi, Vinör ok aörir Austrvegs-menn ok svá Kúrir; lá hann úti vetr sem sumar.

K. 49. Dráp Ásmundar.

Ásmundr er maör nefndr, er sagt er, at væri systurson Sveins konungs ok fóstrson hans. Äsmundr var allra manna gørviligastr, unni konungr honum mikit. En er Ásmundr drósk á legg, var hann brått ofstopamikill, ok hann geröisk vígamaör. Konungi likaöi þat illa ok lét hann fara frå sér, fekk honum lén gott, þat er hann mátti vel halda sik ok sveit meö sér. En þegar er Ásmundr tók viö konungs fé, dró hann liö mikit at sér; en honum endisk ekki þat fé til sins kostnaöar, er konungr hafði veitt honum, þá tók hann annat miklu meira, þat er konungr åtti. En er konungr spuröi þat, þá stefndi hann Ásmundi á fund sinn. En er þeir hittusk, þá segir konungr, at Ásmundr skyldi vera i hirö hans ok hafa enga sveit; ok varö sva at vera sem konungr vildi. En er Ásmundr hafði verit litla hriö meö konungi, þá unöi hann ekki þar ok hljópsk i brot um nótt ok kom aptr til sveitar sinnar ok geröi þá enn fieira ilt en fyrr. En er konungr reiö yfir land ok kom þar nær sem Äsmundr var, þá sendi hann liö til at taka Åsmund meö valdi; siöan lét kon-





ungT setja hann i járn ok halda hann svá um hríð ok hugöi, at hann myndi spekjask. En er Ásmundr kom ór járni, þá hljóp hann þegar i brot ok fekk sér liö ok herskip, tók hann þá ok herjaöi bæöi útan landz ok innan landz ok geröi it mesta hervirki, drap mart manna ok rænti viöa. En þeir menn, er fyrir þessum ófriöi uröu, kómu til konungs ok kærðu skaða sinn fyrir honum. Hann svarar: »hvat segið þér mér til þess? Hvi fariö þér eigi til Hákonar Ivarssonar, hann er hér landvarnarmaör minn ok til þess settr at friða fyrir yðr bóndum, en hegna vikingum; var mér sagt, at Håkon væri djarfr maör ok frækn, en nú lizk mér sem hann vili hvergi þar til leggja, er honum þykki mannhætta i vera«. Pessi orö konungs váru f lutt til Hákonar, ok mçrgum viö aukit. Siöan fór Håkon meö liöi sinu at leita Ásmundar; varö fundr þeira á skipum; lagöi Håkon þegar til orrostu, varö þar hçrö orrosta ok mikil. Håkon gekk upp á skip Ásmundar ok hrauö skipit; kom svá, at þeir Ásmundr skiptusk sjálfir vápnum viör ok hçggum; þar feil Ásmundr; Håkon hjó hçfuö af honum. Siöan fór Håkon skyndiliga á fund Sveins konungs ok kom svá til hans, at konungr sat um mat-boröi. Håkon gekk fyrir boröit ok lagöi hçfuöit á boröit fyrir konunginn ok spuröi, ef kendi. Konungr svarar engu ok var dreyrrauör á at sjá. Siöan gekk Håkon i brot. Litlu siöarr sendi konungr menn til hans ok baö hann fara i brot ór sinni þjónostu, segir, at »ek vil ekki mein gera honum, en ekki må ek gæta frænda várra allra«.

K. 50. Kvánfang Hákonar Ivarssonar.

Siöan fór Håkon i brot ór Danmçrk ok norör i Nóreg til eigna sinna. Pá var andaör Ormr jarl, frændi hans. Menn uröu Hákoni fegnir mjçk, frændr ok vinir; uröu þá til þess margir gçfgir menn at ganga um sættir milli þeira Haraldz konungs r kom svá, at þeir sættusk meö þvi móti, at Håkon fekk Ragn-hildar konungsdóttur, en Haraldr konungr gaf Hákoni jarldórn ok veldi slikt, sem haft hafði Ormr jarl. Håkon sór Haraldi konungi trúnaðareiða til þeirar þjónostu, sem hann var skyldr til.

K. 51. Sætt Haraldz konungs ok Kálfs.

Kálfr Árnason hafði verit i vestrviking, siöan er hann fór ór Nóregi, en opt á vetrum var hann i Orkneyjum meö Porfinni jarli, mági sinum. Finnr Árnason, bróöir hans, geröi orö Kálfi



ok lét segja honum einkamál þau, er þeir Haraldr konungr hçföu viö mælzk, at Kálfr skyldi hafa landzvist i

Noregi ok eignir sinar ok slikar veizlur, sem hann haft hafði af Magnúsi konungi. En er Kálfi kom sjá orösending, þá bjósk hann þegar til farar; fór hann austr i Nóreg fyrst á fund Finnz bróöur sins; siÖan tók Finnr Kálfi griö, ok fundusk þeir sjálfir konungr ok Kálfr, geröu þá sætt sina, eptir því sem konungr ok Finnr hçföu fyrr bundit einkamálum meö sér; gekk Kálfr til festu viö konung ok allz skildaga sliks, sem hann hafði bundit fyrr viö Magnús konung, at Kálfr væri skyldr at gera þau verk çll, sem Haraldr konungr vildi ok honum þœtti sitt ríki bœta. Tók Kálfr þá upp eignir sínar allar ok veizlur, sem hann hafði fyrr haft.

K. 52. Fall Kálfs Árnasonar.

En it næsta sumar eptir hafði Haraldr konungr leiðangr úti, fór suör til Danmerkr ok herjaöi þar um sumarit. En er hann kom suör til Fjóns, þá var þar liðsamnaðr mikill fyrir þeim. Þá lét konungr liö sitt ganga af skipum ok bjósk til upgçngu; hann skipaöi HÖi sinu, lét vera fyrir sveit Kálf Árnason ok baö þá ganga fyrsta upp ok segir þeim, hvert þeir skyldu stefna, en hann kvezk mundu ganga upp eptir þeim ok koma þeim at liÖi. Þeir Kálfr gengu upp, ok kom brått liö i móti þeim; réö Kálfr þegar til orrostu, ok varö så bardagi eigi langr, þviat Kálfr var brått ofrliöi bor inn ok kom hann á flótta ok liö hans, en Danir fylgðu þeim; feil mart af Norömçnnum; þar feil Kálfr Árnason. Haraldr konungr gekk upp á land meö fylking sina; var þat brått á leiö hans, at þeir så fyrir sér valinn ok fundu brått lik Kálfs; var þat borit ofan til skipa; en konungr gekk upp á land ok herjaöi ok drap þar mart manna; svá segir Arnórr: 117. Rauö, en rýrt varö siöan, frána egg á Fjóni,

(rann eldr of sjçt manna) Fjónbyggva lið, tyggi.

K. 53. Ferö Finnz Árnasonar ór landi.

Eptir þat lét Finnr Árnason sér fjandskap i þvkkja viö konung um fall Kálfs bróöur sins, kallaöi, at konungr væri ráðbani Kálfs, ok þat væri blekking ein viö Finn, er hann hafði teygt Kálf, bróður sinn, vestan um haf á vald ok trúnaö Haraldz konungs. En er þessi rœöa kom á lopt, þá mæltu þat margir menn, at þat þótti grunnsæligt, er Finnr hafði trúat því, at Kálfr myndi fá trúnaö Haraldz konungs; þótti sem konungr væri heiptrækr5i 6



um smæri hluti en þá, er Kálfr hafði gçrt viö Harald konung. Konungr lét hér rœða um hvern slikt er vildi, sannaði þat ekki, synjaði ok eigi; fanzk þat eitt å, at konungi þótti þat vel oröit. Haraldr konungr kvað visu þessa: 118. Nú emk ellifu allra g"inn en gráleik inna

(eggjumk vigs) ok tveggja, golls, es ferr meö skolli, þau ró enn svát mank, manna, lýtendr; kveða lítit morö, ráðbani orðinn; lauki gæft til auka.

Finnr Árnason lét sér svá mikit um finnask þetta mål, at hann fór af landi brot ok kom fram suör i Danmçrk, fór á fund Sveins konungs ok fekk þar góöar viötçkur, ok tçluöu þeir lçngum einmæli, ok kom þat upp at lyköum, at Finnr gekk til handa Sveini konungi ok geröisk hans maör, en Sveinn konungr gaf honum jarldóm ok Halland til yfirsóknar, ok var hann þar til landvarnar fyrir Norömçnnum.

K. 54. Frá Guthormi Gunnhildarsyni.

Guthormr hét sonr Ketils kálfs ok Gunnhildar á Hringunesi, systurson Óláfs konungs ok Haraldz konungs. Guthormr var maör gørviligr ok snimma roskinmannligr. Var Guthormr optliga meö Haraldi konungi ok þar i miklum kærleikum ok råöagøröum meö konungi, þviat Guthormr var vitr maör; hann var inn vinsælsti maör. Guthormr var optliga i hernaöi ok herjaöi mjçk i Vestrlçnd; hann hafði liÖ mikit; hann hafði friöland ok vetrsetu i Dyflinni á Irlandi ok var i kærleikum miklum meö Margaöi konungi.

K. 55. Jartegn Óláfs konungs.

Um sumarit eptir fór Margaör konungr ok Guthormr meö honum, ok herjuöu á Bretland ok fengu þar ógrynni fjár. Siöan lçgöu þeir i Qngulseyjarsund; þeir skyldu þar skipta herfangi sinu. En er fram var borit þat mikla silfr ok konungr så þat, þá vildi hann einn samt hafa féit alt ok viröi þá litils vingan sina viö Guthorm. Guthormi likaöi þat illa, er hann skyldi vera hlutræningr ok hans menn. Konungr segir, at hann skyldi eiga ii. kosti fyrir

Pessa drápu orti Steinn Herdisarson um Óláf, son Haraldz konungs, ok getr hér þess, at Óláfr konungr var i orrostu meö Haraldi konungi, fçöur sinum. Pessa getr ok i Haraldzstikka:

154. Lógu fallnir svát gunnhvatir i fen ofan ganga mçttu Valþjófs liöar, Norömenn yfir

vçpnum hçggnir, at nçum einum.

Valþjófr jarl ok þat liö, er undan komsk, flýöi upp til borgar-innar Jork; varð þar it mesta mannfall; orrosta var miövikudag næsta dag fyrir Mathéús-messu.

K. 86. Frá Tósta jarli.

Tósti jarli hafoi komit vestan af Flæmingjalandi til Haraldz konungs, þegar er hann kom til Englandz, ok var jarl i çllum orrostuin þassum. Fór þá sva, sem hann hafoi sagt Haraldi, fyrr er þeir funnusk, at fjç>löi mannz dreif til þeira i Englandi; þat váru frændr ok vinir Tósta jarls, ok var konungi þat mikill styrkr liÖs. Eptir þessa orrostu, er áðr var frå sagt, gekk undir Harald konung liö alt um in næstu heruö, en sumt flýði. Pá byrjaöi Haraldr konungr ferö sina at vinna borgina ok lagöi herinum viö Stanforöa-bryggjur. En fyrir þá sçk, at konungr hafoi unnit svá mikinn sigr viö stóra hçföingja ok ofrefli liös, var alt fólk hrætt ok ørvæntisk motstçöu. På gerÖu borgarmenn ráð fyrir sér, at senda boö Haraldi konungi ok bjóöask i vald hans ok svá borgina. Var þetta alt boöat svá, at sunnudaginn fór Haraldr konungr meö çllum herinum til borgarinnar ok setti þing útan5i 6



borgar, konungr ok menn hans, en borgarmenn sóttu til þingsins; játaðisk alt fólk undir hlýöni við Harald konung ok fengu honum gislar tiginna manna sonu, svá sem Tósti jarl kunni skyn allra manna i þeiri borg, ok fór konungr um kveldit til skipanna með sjålfgçrum sigri ok var allkátr. Var á kveðit þing snimma mánadaginn i borginni; skyldi þá Haraldr konungr skipa stað þann meö rikismçnnum ok gefa réttu ok lén. Pat sama kveld eptir sólarsetr kom sunnan at borginni Haraldr konungr Guö-inason meö óvigjan her; reiö hann i borgina at vilö ok þokka allra borgarmanna; váru þá tekin çll borgarhliö ok allir vegar, at eigi skyldi njósnir koma Norömçnnum; var þessi herr um nóttina i staöinum.

K. 87. Upganga Haraldz konungs.

Mánadaginn er Haraldr SigurÖarson var inettr at dagveröar-máli, þá lét hann blåsa til landgçngu, býr þá herinn ok skiptir liðinu, hverir fara skulu eöa hverir eptir skulu vera; hann lét upp ganga i hverri sveit ii. menn, þar er einn var eptir. Tósti jarl bjó sik til upgçngu meö Haraldi konungi með sina sveit, en eptir váru til skipagæzlu Óláfr konungsson ok Póll ok Erlendr Orkneyja-jarlar ok Eysteinn orri, sonr Porbergs Árnasonar, er þá var ágætastr ok kærstr konungi allra lendra manna; þá hafoi Haraldr konungr heitit honum Máríu, dóttur sinni. Pá var veör forkunnliga gott ok heitt skin. Menn létu eptir brynjur sinar ok gengu upp meÖ skjçldum sinum ok hjálmum ok kesjum ok sveröum gyröir, ok margir hçföu ok skot ok boga, ok váru allkátir. En en þeir sóttu at borginni, reiö i móti þeim liö mikit; sá þeir jóreykinn ok undir fagra skjçldu ok hvitar brynjur. På stçövaöi konungr liöit, lét kalla til sin Tósta jarl ok spuröi, hvat liöi þat myndi vera. Jarl segir, lézk þykkja likligra, at ófriöar-menn myndi vera, lét ok hitt vera mega, at þetta mundu vera frændr hans nçkkurir ok leiti til vægöar ok vináttu, en fá i móti af konungi traust ok trúnað. Pá mælti konungr, at þeir mundu fyrst halda kyrru ok forvitnask um herinn; þeir geröu svá, ok var liöit þvi meira, er náligarr kom ok alt at sjå sem á eina ismçl, er vápnin glóuÖu.

K. 88. Ráö Tósta jarls.

Haraldr konungr SigurÖarson mælti þá: »tçkum nu nçkkut gott ráð ok vitrligt, þviat ekki er at dyljask, at ófriÖr er, ok



mun vera konungr sjálfr«. Pá segir jarl: »þat er it fyrsta, at snúa aptr sem hvatast til skipa eptir liöi váru ok vápnum; veitum þá viÖrtçku eptir efnum; en at çörum kosti látum skipin gaeta vår, ok eigu þá riddarar eigi vald yfir oss«. På segir Haraldr konungr: »annat ráð vil ek hafa, at setja ina skjótustu hesta undir iii. vaska drengi ok riÖi þeir sem hvatligast ok segi liði váru, — mun þá skjótt koma oss liðveizla, — fyrir þá sçk, at Englismenn

skulu eiga innar snçrpustu hriðar ván, heldr en vér berim inn lægra hlut«. På segir jarl, baö konung ráða þessu sem çöru, lézk ok vera eigi gjarn at flýja. Þá lét Haraldr konungr setja upp merki sitt, Landeyðuna. Frirekr hét så, er merkit bar.

K. 89. Frå fylking Haraldz konungs.

Siðan fylköi Haraldr konungr liði sinu, lét fylkingina langa ok ekki þykkva; þá beygði hann armana aptr á bak, sva at saman tóku; var þat þá víðr hringr ok þykkr ok jafn çllum megin útan, skjçldr við skjçld, ok svá fyrir ofan, en konungssveitin var fyrir útan hringinn ok þar merki; þat var valit lið. 1 çörum staö var Tósti jarl meö sina sveit; hafði hann annat merki. Var því svá fylkt, at konungr vissi, at riddarar váru vanir at ríða at riölum ok þegar aptr. Nu segir konungr, at hans sveit ok jarls sveit skal þar fram ganga, sem mest þarf — »en bogmenn várir skulu ok þar vera með oss, en þeir, er fremstir standa, skulu setja spjótshala sina i jçröina, en setja oddana fyrir brjóst riddurum, ef þeir ríða at oss, en þeir, er næstir standa, seti þeir sina spjótsodda fyrir brjóst hestum þeira«.

K. 90. Frå Haraldi konungi Guöinasyni.

Haraldr konungr Guðinason var þar kominn meö her óvigjan, bæöi riddara ok fótgangandi menn. Haraldr konungr Siguröarson reið þá um fylking sina ok skynjaöi, hvernig fylkt var; hann sat á svçrtum hesti blesóttum; hestrinn feil undir honum ok konungr af fram; stóð hann upp skjótt ok mælti: »fall er fararheill«. På mælti Haraldr Englakonungr til Norðmanna þeira, er meö honum váru: »kenduö þér þann inn mikla mann, er þar feil af hestinum, viö inn blå kyrtil ok inn fagra hjálm?«. »Par er konungr sjálfr« segja þeir. Engla-konungr segir: »mikill maör ok rikmannligr, ok er þat vænna, at farinn sé at hamingju«.



K. 91. Griða-boð viö Tósta jarl.

Riddarar xx. riöu fram af þingamannaliöi fyrir fylking Norömanna ok váru albrynjaöir ok svá hestar þeira. Pá mælti einn riddari: »hvárt er Tósti jarl i liÖinu?«. Hann svarar: »ekki er því at leyna, hér munu þér hann finna«. Pá mælti einn riddari: »Haraldr bróöir þinn sendi þér kveöju ok þau orö meö, at þú skyldir hafa griö ok Noröimbraland alt, ok heldr en eigi vilir þú til hans hneigjask, þá vill hann gefa þér þriðjung rikis allz með sér«. Pá svarar jarl: »þá er nçkkut annat booit en ófriör ok sviviröing sem i vetr; heföi þá verit þetta booit, þá væri margr maör sá á lifi, er nú er dauör, ok betr myndi þá standa riki i Englandi. Nú tek ek þenna kost, hvat vill hann þá bjóða Haraldi konungi Siguröarsyni fyrir sitt starf?«. Pá mælti riddarinn: »sagt hefir hann þar nçkkut frå, hvers hann mun honum unna af Englandi, vii. fóta rúm eöa þvi lengra, sem hann er hæri en aörir menn«. Pá segir jarl: »farið þér nú ok segiö Haraldi konungi, at hann búisk til orrostu; annat skal satt at segja meö Norömçnnum en þat, at Tósti jarl fari frå Haraldi konungi Siguröarsyni ok i óvinaflokk hans, þá er hann skyldi berjask i Englandi vestr; heldr skulu vér allir taka eitt ráð, deyja meö sæmö eöa fá England meö sigri«. På riöu aptr riddararnir. Pá mælti Haraldr konungr Siguröarson viö jarl: »hverr var þessi inn málsnjalli maör?«. Pá segir jarl: »þat var Haraldr konungr Guöinason. Pá mælti Haraldr konungr Siguröarson: »oflengi váru vér þessu leyndir; þeir váru sva komnir fyrir liö vårt, at eigi myndi þessi Haraldr kunna segja banaorö várra manna«. Pá segir jarl: »satt er þat herra; óvarliga fór slikr hpföingi, ok vera mætti sva, sem þér segið. Sá ek þat, at hann vildi mér griö bjóða ok riki mikit; en ek væra banamaör hans, ef ek segöa til hans; vil ek heldr, at hann sé minn banamaör en ek hans«. På mælti Haraldr konungr Siguröarson til sinna manna: »litill maör var þessi ok stóð steigurliga i stigreip«. Svá segja menn, at Haraldr konungr Siguröarson kvaö visu þessa:

155. Framm gçngum vér hjalmar skina,
i fylkingu hefkat ek mina;
brynjulausir nu liggr skrúö vårt
und bláar eggjar; at skipum niöri.

Emma hét brynja hans; hon var siö, sva at honum tók á mitt bein, ok svá sterk, at aldri haföi vápn á fest. — På

konungr Siguröarson: »þetta er illa kveðit ok mun verÖa at gera aöra visu betri«; þá kvaö hann þetta:

156. Krjúpum vér fyr våpna (valteigs) brçkun eigi (svá bauö Hildr) at hjaldri (haldorö) i bug skjaldar;

På kvaö ok Pjóöólfr:

157. Skalka frá, þótt fylkir falli sjálfr til vallar, (gengr sem goö vill) ungum grams erfingjum hverfa;

hátt baÖ mik, þars mœttisk, menskorö bera foröum, hlakkar iss ok hausar, hjalmstofn i gný malma.

skinnat sól á sýnni, snarráðs, an þá báða, Haralds eru haukar gçrvir hefnendr, konungs efni.

K. 92. Uphaf orrostu.

Nú hefr upp orrostu ok veita enskir menn áreiö NorÖmçnnum ; varö viörtakan hçrö; varö óhœgt enskum mçnnum at riöa á Norömenn fyrir skotum, ok riðu þeir i hring um þá. Var þat fyrst laus orrosta, meðan Norömenn heldu vel fylkingu, en enskir menn riöu at hart ok þegar frá, er þeir fengu ekki at gçrt. En er Norömenn sá þat, at þeim þótti blautliga at riðit, þá sóttu þeir at þeim ok vildu reka flóttann; en er þeir hçföu brugðit skjaldborginni, þá riöu enskir menn at þeim çllum megin ok báru á þá spjót ok skot. En er Haraldr konungr Siguröarson sá þat, gekk hann fram i orrostu, þar er mestr var vápnaburörinn. Var þar þá in haröasta orrosta ok feil mikit liö af hvárum-tveggjum. Pá varö Haraldr konungr Siguröarson svá óör, at hann hljóp fram alt ór fylkingunni ok hjo báÖum hçndum ; helt þá hvárki viö honum hjálmr né brynja. Pá stukku frá allir þeir, er næstir váru; var þá viö sjálft, at enskir menn mundu flvja; sva segir Arnórr jarlaskáld:

158. Hafðit brjóst, né biföisk þars til þengils hersa bçösnart konungs hjarta, þat sá herr, at skatna

i hjalmþrimu hilmir blóðugr hjçrr ens barra

hlitstyggr fyr sér litit, beit dçglinga hneitis.

Haraldr konungr Siguröarson var lostinn çru i óstinn; þat var hans banasár; feil hann þá ok çll sveit sú, er fram gekk með honum, nema þeir er aptr opuöu, ok heldu þeir merkinu. Var þá enn inn harðasti bardagi; gekk þá Tósti jarl undir konungs-merki. Tóku þá hvárirtveggju at fylkja i annat sinn, ok varö þá á dvçl mjçk lçng á orrostunni; þá kvaö Pjóöólfr:



159. Qld hefr afráö goldit svá lauk siklings ævi ilt, nú kveök her stiltan, snjalls, at vér róm allir bauð þessa fçr þjóðum (loföungr beið enn leyföi þarflaust Haraldr austan; lífs grand) i stað vçndum.

En áör saman sigi orrosta, þá bauö Haraldr Guöinason griö Tósta jarli, bróður sinum, ok þeim mçnnum çörum, er þá lifföu eptir af liöi Norömanna. En NorÖmenn æpöu allir senn ok segja, at fyrr skyldi hverr falla um þveran annan, en þeir gengi til griÖa viö enska menn, æpöu þá heróp; tóksk þá orrosta i annat sinn;

svá segir Arnórr jarlaskáld:

160. Eigi varö ens ýgja heldr kuru meir ens milda auöligr konungs dauöi; mildings, an griö vildi, hliföut hlenna svæfi of folksnaran fylki hoddum roönir oddar; falla liösmenn allir.

j. K. 93. Uphaf Orra-hriöar.

Eysteinn orri kom i því bili frá skipum meö þvi liöi, er honum fylgöi; váru þeir albrynjaöir; fekk Eysteinn þá merki Haraldz konungs, Landeyöuna. Varð nú orrosta it iii. sinn ok varö sú in haröasta orrosta; fellu þá mjçk enskir menn ok var viö sjálft, at þeir myndi flýja. Sú orrosta var kçlluö Orra-hriö. Peir Eysteinn hçföu farit sva ákafliga frå skipunum, at þeir váru fyrr svá móðir, at náliga váru þeir ófœrir, áðr en þeir kvæmi til orrostu, en siöan váru þeir sva óöir, at þeir hliföu sér ekki, meöan þeir máttu upp standa; at lykðum steypÖusk þeir af hringa-brynjunum. Var þá enskum mçnnum hægt, at finna hçggstaöi á þeim, en sumir sprungu meö çllu ok dó ósárir; feil náliga alt stórmenni Norömanna. Petta var inn øfra hlut dags. Var þat, sem ván var, at þar váru enn eigi allir jafnir, margir flýðu, margir ok þeir, er svá kómusk undan, at ýmsir báru auönu til; gerði ok myrkt um kveldit, áðr en lokit var çllum manndrápum.

K. 94. Frá Styrkári stallara.

Styrkárr, stallari Haraldz konungs SigurÖarsonar, komsk brot, ágætr maör; hann fekk hest ok reiö svá i brot. Ura kveldit geröisk á vindr nçkkurr ok heldr svalt, en Styrkárr haföi ekki klæöi fleiri en skyrtu eina, en hjálm á hçföi, en nøkvit sverö i hendi; honum svalaöi, er hann hratt af sér mœðinni. Pá kom i móti honum vagnkarl einn ok var i kçsungi fóðruöum. Pá mælti Styrkárr: »viltu selja kçsunginn, bóndi?«. »Eigi þérna, segir



hann; þú munt vera Norömaör, kenni ek mál þitt«. Pá mælti Styrkárr: »ef ek em Norðmaðr — hvat viltu þá?«. Bóndi svarar : »ek vilda drepa þik, en nú er sva illa, at ek hefi ekki vápn, þat er nýtt sé«. Pá mælti Styrkárr: »ef þú mátt mik ekki drepa bóndi, þá skal ek freista, ef ek mega þik drepa« — reiðir upp sveröit, setr á håls honum, svá at af gekk hçfuöit; tók siðan skinnhjúpinn ok hljóp á hest sinn ok fór til strandar ofan.

K. 95. Frá Viljálmi bastarði.

Viljálmr bastarðr Rúöu-jarl spuröi andlát Eatvarðar konungs, frænda sins, ok þat meö, at þá var til konungs tekinn i Englandi Haraldr Guöinason ok hafði tekit konungsvigslu. En Viljálmr þóttisk betr til kominn til ríkis i Englandi en Haraldr fyrir frændsemis sakir þeira Eatvarðar konungs. Pat var ok meb, at hann þóttisk eiga at gjalda Haraldi svivirðing, er hann hafoi slitit festamálum við dóttur hans; ok af ç>llu þessu saman dró Viljálmr her saman i Norðmandi ok hafði allmikit fjçlmenni ok gnógan skipakost. Pann dag, er hann reið ór borginni til skipa sinna ok hann var kominn á hest sinn, þá gekk kona hans til hans ok vildi tala viö hann. En er hann sá þat, þá laust hann til hennar meö hælinum ok setti sporann fyrir brjóst henni, svá at á kafi stóö; feil hon ok fekk þegar bana, en jarl reið til skips; fór hann meö herinum út til Englandz. Par var meö honum Ótta byskup, bróðir hans. En er jarl kom til Englandz, þá herjaöi hann ok lagöi undir sik landit, hvar sem hann fór. Viljálmr var hverjum manni meiri ok sterkari ok góðr riddari, inn mesti hermaör, ok allgrimmr, inn vitrasti maör, ok kallaör ekki tryggr.

K. 96. Fall Haraldz Guðinasonar.

Haraldr Guðinason lofaði brotferö Óláfi, syni Haraldz konungs Sigurðarsonar, ok þvi liöi, er þar var meö honum ok eigi hafði fallit i orrostu; en Haraldr snørisk þá meö her sinn suör á England, þvíat hann hafði þá spurt, at Viljálmr bastarÖr fór sunnan á England ok lagöi landit undir sik. Par váru þá meö Haraldi konungi bræÖr hans, Sveinn, Gyrör, Valþjófr. Fundr þeira Haraldz ok Viljálms jarls varö suör á Englandi viö Helsingjaport; varö þar orrosta mikil; þar feil Haraldr konungr ok Gyrör jarl, bróðir hans, ok mikill hluti liös þeira. Pat var xix. nóttum eptir fall Haraldz konungs Siguröarsonar. Valþjófr jarl komsk á flótta undan, ok siö um kveldit mætti jarl sveit



nçkkurri af Viljálms mçnnum. En er þeir sá lið Yalþjófs jarls, flýðu þeir undan á eikiskóg nçkkurn; þat var c. manna. Valþjófr jarl lét eld leggja i skóginn ok brenna upp alt saman ; svá segir Porkell Skallason i Valþjófsflokki:

i6i. Hundrað lét i heitum frétt 's, at fyrðar knpttu

hirömenn jçfurs brenna flagðviggs und kló liggja;

sóknar Yggr, en seggjum ímleitum feksk áta

sviðu kveld vas þat, eldi; óls blakk við hræfrakka.

K. 97. Dráp Valþjófs jarls.

Viljálmr lét sik til konungs taka i Englandi. Hann sendi boö Valþjófi jarli, at þeir skyldu sættask, ok seir honum grið til fundar. Jarl fór meö fá menn; en er hann kom á heiöina fyrir noröan Kastalabryggju, þá kómu móti honum ármenn ii. með sveit manna ok tóku hann ok settu i fjçtur, ok siöan var hann hçggvinn, ok kalla enskir menn helgan; svá segir Porkell:

162. Vist hefr Valþjóf hraustan satt 's at siö mun létta, Viljalmr, sás rauö malma, snarr en minn vas harri hinn es haf skar sunnan (deyrat mildingr mærri)

hélt, i tryggð of véltan; manndráp á Englandi.

Viljálmr var siöan konungr á Englandi xxi. vetr; er hans afkvæmi jafnan siðan á Englandi.

K. 98. Ferð Óláfs Haraldzsonar i Nóreg.

Óláfr, sonr Haraldz konungs, helt liöi sinu braut af Englandi, ok siglði út af Hrafnseyri ok kom um haustit til Orkneyja, ok váru þar þau tiðendi, at Mária, dóttir Haraldz konungs Sigurðar-sonar, hafði orðit bráðdauð þann sama dag ok á þeiri sçmu stundu, er Haraldr konungr feil, faðir hennar. Óláfr dvalðisk þar um vetrinn. En eptir um sumarit fór Óláfr austr til Nóregs; var hann þar þá tekinn til konungs með Magnúsi, bróður sinum. Ellisif drótning fór vestan með Óláfi, stjúpsyni sinum, ok Ingigerðr, dóttir hennar. Pá kom ok vestan um haf með Óláfi Skúli er siðan var kallaðr konungsfóstri ok Ketill krókr, bróðir hans. Peir váru báðir gpfgir menn ok kvnstórir af Englandi ok báðir forvitra; váru þeir báðir inir kærstu konungi. Fór Ketill krókr norðr á Hålogaland; fekk Óláfr konungr honum gott kvánfang, ok er frå honum komit mart stórmenni. Skúli konungsfóstri var vitr maðr ok skprungr mikill, manna fríðastr sýnum; hann gerðisk forstjóri i hirð Óláfs konungs ok talaði á 

þingum; hann réð çllum landráðum með konungi. Óláfr konungr bauð at gefa Skúla fylki eitt i Nóregi, þat er honum þœtti bezt, með çllum tçkum ok skyldum, þeim er konungr átti. Skúli þakkaði honum boð sitt ok lézk vilja beiðask af honum annarra hluta, fyrir þvi — »ef konungaskipti verðr, kann vera, at rjúfisk gjçfin; ek vil, segir hann, nçkkurar eignir þiggja, er liggja nær kaupstçðum þeim, sem þér, herra, eruð vanir at sitja ok taka jólaveizlur«. Konungr jåtti honum þessu ok skeytti honum jarðir austr við Konungahellu ok við ósló, við Tunsberg, við Borg, við Bjçrgvin ok norðr við Niðarós; þær váru náliga inar beztu eignir i hverjum stað, ok hafa þær eignir legit siðan undir þá ættmenn, er af Skúla ætt eru komnir. Óláfr konungr gipti honum frænd-konu sina, Guðrúnu Nefsteinsdóttur; móðir hennar var Ingiriðr, dóttir Sigurðar konungs sýr ok Ástu ; hon var systir Óláfs konungs ins helga ok Haraldz konungs. Sonr Skúla ok Guðrúnar var Ásólfr á Reini; hann åtti Póru dóttur Skopta Qgmundarsonar; sonr þeira Ásólfs var Guthormr á Reini, faðir Bárðar, fçður Inga konungs ok Skúla hertoga.

K. 99. Frå Haraldi konungi Sigurðarsyni. Einum vetri eptir fall Haraldz konungs var flutt vestan af Englandi lik hans ok norðr til Niðaróss, ok var jarðat. i Máríu-kirkju, þeiri er hann lét gera. Var þat allra manna mål, at Haraldr konungr hafði verit umfram aðra menn at speki ok at ráðsnild, hvárt er hann skyldi til taka skjótt eða gera lçng ráð fyrir sér eða çðrum; hann var allra manna vápndjarfastr; hann var ok sigrsæll, svá sem nú var ritit um hríð; sva segir Pjóðólfr:

163. Áræðis naut eyðir hugr ræðr hçlfum sigri, aldyggr Selundbyggva; Haraldr sannar þat, manna.

Haraldr konungr var friðr maðr ok tiguligr, bleikhárr, ok bleikt skegg ok langa kanpa, nçkkuru brúnin çnnur ofarr en çnnur; miklar hendr ok fætr ok vel vaxit hvártveggja; v. álna er hått mål hans. Hann var grimmr óvinum ok refsingasamr um allar motgørðir; svá segir Pjóðólfr:

164. Refsir reyndan ofsa sverðs hafa slikar byrðar ráðgegn Haraldr þegnum; (sanns nýtr hverr við annan), hykk at hilmis rekkar Haraldr skiptir svá heiptum, haldi upp, þvís valda; hljótendr es sér brjóta.

Haraldr konungr var inn ágjarnasti til rikis ok til allra farsælligra hluta; hann var stórgjçfull við vini sina, þá er honum líkaði vel við; sva segir Pjóðólfr: 

165. Mçrk lét veitt fyr verka (hann lætr hylli sinnar) vekjandi mér snekkju hjaldrs (tilgerðir valda).

Haraldr konungr var þá fimtøgr at aldri, er hann feil. Engar frásagnir merkiligar hçfum vér frå upruna hans, fyrr en hann var xv. vetra, þá er hann var á Stiklarstçðum i orrostu með Óláfi konungi, bróður sinum, en siðan lifði hann xxxv. vetra; en alla þá stund varð honum aldrigi á milli aga ok ófriðar. Haraldr konungr flýði aldrigi ór orrostu, en opt leitaði hann sér farborða fyrir ofrefli liðs, er hann åtti við at eiga. Allir menn sçgðu þat, þeir er honum fylgðu i orrostu ok hernaði, at þá er hann varð staddr i miklum háska ok bar skjótt at hçndum, at þat ráð mundi hann upp taka, sem allir så eptir, at vænst hafði verit at hlýða myndi.

K. 100. Frå Haraldi konungi. Haldórr, sonr Brynjólfs gamla úlfalda, var vitr maðr ok hçfðingi mikill; hann mælti sva, þá er hann heyrði rœður manna, at menn misjçfnuðu mjçk skaplyndi þeira brœðra Óláfs ins helga konungs ok Haraldz, Halldórr segir sva: »ek var með báðum þeim brœðrum i kærleikum miklum, ok var mér

hvárs tveggja skaplyndi kunnigt; fann ek aldri ii. menn skaplikari; þeir våru báðir inir vitrustu ok inir våpndjçrfustu, menn ágjarnir til fjár ok rikis, riklyndir, ekki alþýðligir, stjórnsamir ok refsinga-samir. Óláfr konungr braut landzfólk til kristni ok réttra siða, en refsaöi grimliga þeim, er daufheyrðusk við; þolðu landz-hçföingjar honum eigi réttdœmi ok jafndœmi ok reistu her i móti honum ok feldu hann á eigu sinni sjálfs; varð hann fyrir þat heilagr; en Haraldr herjaði til frægðar sér ok rikis ok braut alt fólk undir sik, þat er hann mátti; feil hann ok á annarra konunga eigu. Báðir þeir brœðr váru menn hversdagliga siölátir ok veglátir; þeir váru ok viöfçrlir ok eljanarmenn miklir, ok urðu af slíku viðfrægir ok ágætir«.

K. 101. Dauði Magnús konungs.

Magnús konungr réð fyrir Nóregi Haraldzson inn fyrsta vetr eptir fall Haraldz konungs, en síðan réð hann landi ii. vetr með Óláfi bróður sinum. Váru þeir þá ii. konungar, hafði Magnús inn norðra hlut landz, en Óláfr inn eystra. Magnús konungr åtti son, er Håkon hét; hann fóstraði Steigarþórir; var hann inn mannvænsti maör. Eptir fall Haraldz konungs Sigurðar-sonar talði Sveinn Dana-konungr, at slitit væri friði milli NorÖ-manna ok Dana, talði eigi lengr friö verit hafa settan, en þeir lifði báðir Haraldr ok Sveinn. Var þá útboö i hváru tveggja rikinu; hçföu synir Haraldz almenning fyrir Nóregi at liði ok skipum, en Sveinn konungr fór sunnan meö Dana-her. Fóru þá sendimenn milli þeira ok báru sættarboö, sçgöu Norömenn, at þeir vildi annat hvárt halda ina sçmu sætt, sem fyrr var gçr, eöa ber jask at çörum kosti; þvi var þetta kveöit:

166. Varði ógnar-orðum j<?rö, svát engi þoröi Áleifr ok friðmólum allvalda til kalla.

c

Svá segir Steinn Herdisarson i Óláfsdrápu:

167. Sin óöul mun Sveini ætt sinni mun unna sóknstrangr i Kaupangi, Áleifr konungr hála þars heilagr gramr hvilir, (Ulfs þarfat þar arfi) (hann's rikr) jçfurr banna; alis Nóregs (til kalla).

1 þessum stefnuleiðangri var sætt gçr milli konunganna, en friör milli landanna. Magnús konungr fekk vanheilendi, reformasótt, ok lå nçkkura hriö; hann andaðisk i Niðarósi ok var þar jarðaÖr; var hann vinsæll konungr af allri alþýöu.

*

# Saga Óláfs konungs kyrra.

K. i.

Óláfr var einn konungr yfir Nóregi eptir andlát Magnus bróður sins. Öláfr var maðr mikill á allan vçxt ok vel vaxinn; þat er allra manna sçgn, at engi maör hafi sét fegra mann eöa tiguligra sýnum; hann haföi gult hår sem silki, ok fór afarvel, bjartan likam, eygör manna bezt, limaör vel, fámálugr optast ok ekki talaör á þingum, glaör viö çl, drykkjumaör mikill, málrœtinn ok bliömæltr, friösamr meöan hans riki stóð; þess getr Steinn Herdisarson:

168. Lçnd vill þengill Prænda hugnar þjóð, þat 's þegna (þat likar vel skçtnum) þrályndr til friðmála

pli viö œrna snilli kúgar Engla œgir.

eggdjarfr i frið leggja; Óláfr borinn sólu.

K. 2. Frá siöum Öláfs konungs. , - Pat var siör forn í Nóregi, at konungs hásæti var á miðjum langpalli; var çl um eld borit; en Óláfr konungr lét fyrst gera sitt hásæti á hápalli um þvera stofu; hann lét ok fyrst gera ofnstofur ok strå gólf um vetr sem um sumar. Um daga Óláfs konungs hófusk mjçk kaupstaðir i Nóregi, en sumir settusk at uphafi. Óláfr konungr setti kaupstaö i Bjçrgyn; geröisk þar brått mikit setr auöigra manna ok tilsiglingar kaupmanna af çörum lçndum; hann lét reisa þar af grundvelli Kristskirkju, ina miklu steinkirkju, ok var at henni litit gçrt, en hann lét algera trékirkjuna. Óláfr konungr lét setja Miklagildi i Niöarósi ok mprg çnnur i kaupstçöum, en áör váru þar hvirfingsdrykkjur; þá var Bœjarbót in mikla hvirfingsklokka i Niðarósi. Hvirfings-

brœör létu þar gera Margrétarkirkju, steinkirkju. Á dçgum Óláfs konungs hófusk skytningar ok leizludrykkjur i kaupstçöum, ok þá tóku menn upp sundrgøröir, hçföu drambhosur lerkaöar



at bein i; sumir spentu gullhringum um fótleggi sér, ok þá hçföu menn dragkyrtla, láz at siðu, ermar v. alna langar ok svá þrpngvar, at draga skyldi viÖ handtugli ok lerka alt at çxl upp, hávir skúar ok allir silkisaumaöir, en sumir gullagöir. Mçrg çnnur sundrgørÖ var þá.

K. 3. Frá hirösiöum.

Óláfr konungr hafÖi þá hirösiöu, at hann lét standa fyrir borÖi sinu skutilsveina ok skenkja sér meö borökerum, ok svá çllum tignum mçnnum, þeim er at hans borði sátu; hann hafði ok kertisveina, þá er kertum heldu fyrir borði hans ok jammçrgum, sem tígnir menn sátu upp. Par var ok stallarastóll útar frá trápizu; þar sátu stallarar á ok aörir gœöingar ok horföu innar í mot hásæti. Haraldr konungr ok aörir konungar fyrir honum váru vanir at drekka af dýrahornum ok bera çl ór çndugi um eld ok drekkja minni á þann, er honum sýndisk; sva segir Stúfr skåld:

169. Vissak hildar hvessi þás blóöstara bræðir

(hann vas nýztr at kanna) baugum grimmr at Haugi af góöum byr Griöar gjarn meö gyldu horni

gagnsælan mér fagna, gekk sjálfr á mik drekka.

K. 4. Hiröskipan Öláfs konungs.

Öláfr konungr hafði c. hirðmanna ok lx. gesta ok lx. hús-karla, þeira er flytja skyldu til garÖzins þat er þurpti, eða starfa aöra hluti, þá sem konungr vildi. En er bœndr spuröu konung þess, fyrir hvi hann hefði meira liö en lçg váru til eöa fyrri konungar hç>föu haft, þá er hann fór á veizlur, þar sem bœndr gerðu fyrir honum — konungr svarar svá: »eigi fæ ek betr stýrt ríkinu ok eigi er meiri ógn af mér en af fçöur minum, þótt ek hafa hálfu fieira liö en hann haföi, en engi pynding gengr mér til þess viö yör eöa þat, at ek vil ja þyngja yörum kostum«.

K. 5. DauÖi Sveins konungs tJlfssonar.

Sveinn konungr tllfsson varö sóttdauðr x. vetrum eptir fall Haraldanna. Par næst var konungr i Danmçrk Haraldr hein, sonr hans, iiii. vetr, þá Knútr, sonr Sveins, viii. vetr, ok er sannheilagr; þá Óláfr, inn þriði sonr Sveins, viii. vetr; þá Eirikr góði, iiii. sonr Sveins konungs, enn viii. vetr. Öláfr Nóregs-konungr fekk Ingiriöar, dóttur Sveins Dana-konungs; en Öláfr



Dana-konungr Sveinsson fekk Ingigeröar, dóttur Haraldz konungs, systur Öláfs Nóregs-konungs. Öláfr Haraldzson, er sumir kçlluöu Óláf kyrra, en margir Öláf bónda, hann gat son viö Póru Jóans-dóttur; sá var nefndr Magnús; var sá sveinn inn fríðasti sýnum ok allmannvænn; óx hann upp i hirÖ konungs.

K. 6. Jartegnir Öláfs konungs.

Öláfr konungr lét gera steinmusteri i Niðarósi ok setti i þeim staö, sem fyrst hafði verit jarðat lik Öláfs konungs, ok var þar yfir sett altárit, sem grçptr konungs haföi verit, þar var vígð Kristskirkja; var þá ok þannug f lutt skrin Öláfs konungs ok sett þar yfir altári; uröu þar þá þegar margar jartegnir. En annat sumar eptir at jamlengö þess, er kirk jan haföi vígð verit, þá var þar allfjçlment; þat var Öláfsvpku aptan, at blindr maðr fekk þar sýn sina. En sjálfan messudaginn, þá er skrinit ok helgir dómar váru út bornir, skrinit var sett niðr i kirkjugarðinn, sva sem siövenja var til, þá fekk maör mál sitt, er lengi áör haföi mállauss verit, ok sçng þá lof guöi ok inum helga Óláfi konungi meö mjúku tungubragöi. Kona var inn iii. maör, er þannug haföi sótt af Sviþjóöu austan ok haföi í þeiri fçr þolat mikla nauö fyrir sjónleysis sçkum; en þó treystisk hon miskunn guös ok kom þar farandi at þeiri hátiö. Hon var leidd sjónlaus í musterit at messu um daginn, en fyrr en tíðum var lokit, sá hon báöum augum ok var þá skygn ok bjarteyg, en áðr hafði hon verit blind xiiii. vetr; fór hon þaðan meö háleitum fagnaði.

K. 7. Jartegnir Öláfs konungs.

Sá atburör geröisk í Niöarósi, at skrin Óláfs konungs var borit um stræti, at hçfugt varö skrinit svá at eigi fengu menn borit fram ór staö; en siöan var skrinit niör sett ok brotit upp strætit ok leitat, hvat þar var undir, ok fanzk þar barns lik, er 30 myrt hafθi verit ok fólgit þar; var þat þá á brot borit, en bætt aptr strætit, svá sem áðr hafði verit, en borit skrin at vanöa.

K. 8. Dauöi Óláfs konungs.

Öláfr konungr sat optliga i heraöi at stórbúum sinum, er hann åtti; en er hann var austr i Ránríki at Haukboe at búi sínu,þá tók hann sótt þá, er hann leiddi til bana. Pá hafði hann verit konungr at Nóregi xxvi. vetr, en hann var til konungs tekinn einum vetri eptir fall Haraldz konungs. Lik óláfs konungs var flutt norðr til Niðaróss ok jarðat at Kristskirkju, þeiri er hann lét sjálfr gera. Hann var inn vinsælsti konungr, ok hafði Nóregr mikit auðgazk ok prýzk undir hans riki.

*

# Uphaf Magnús konungs berfœtts.

K. i.

Magnús, sonr óláfs konungs, var þegar tekinn til konungs i Vikinni eptir andlát Óláfs konungs yfir allan Nóreg. En er Uplendingar spurðu andlát Óláfs konungs, þá tóku þeir til konungs Hákon Póris-fóstra, brœörung Magnús. Siöan fóru þeir Håkon ok Pórir norðr til Prándheims, en er þeir kómu til Niöaróss, þá stefndi hann Eyraþing, ok á því þingi beiÖir Håkon sér konungs nafns, ok var honum þat veitt, at bœndr tóku hann til konungs yfir hálft land, svá sem io haft haföi Magnus konungr, faöir hans. Håkon tók af viö Proendi landauragjald ok gaf þeim margar aörar réttarboetr; hann tók af viö þá jólagjafir; snørusk þá ok allir Prændir til vináttu við Håkon konung. Pá tók Håkon konungr sér hirð, fór siöan aptr til Uplanda; hann veitti Uplendingum réttarbætr allar slikar sem Prœndum; váru þeir ok fullkomnir vinir hans. På var þetta kveðit i Prándheimi:

170. Ungr kom Håkon hingat, syni Áleifs bauÖ siöan (hann's baztr alinn manna) sjalfr of Nóreg halfan frægÖar mildr (á foldu) mildr, en Magnus vildi

fór meö Steigar-Póri; málsnjallr hafa allan.

K. 2. Dauöi Hákonar.

Magnús konungr fór um haustit norör til kaupangs; en er hann kom þar, þá fór hann i konungsgarö ok var þar at herberginu ok dvalöisk þar çndveröan vetr. Hann helt vii. langskipum i vç>k þíöri fyrir konungsgaröi i Niö. En er Håkon konungr spuröi, at Magnús konungr var kominn i Prándheim, þá fór hann austan um Dofrafjall ok svá til Prándheims ok til kaupangs ok tók hann sér herbergi i Skúlagaröi ofan frá Klémenskirkju; þar var inn forni konungsgarör. Magnúsi konungi likaÖi illa



stórgjafar þær, er Håkon konungr hafði gefit bóndum til vinsælöa sér; þótti Magnúsi sin eign gefin engum mun siör, ok ýföisk hugr hans mjçk við þat, ok þóttisk mishaldinn af viö frænda sinn, er hann skyldi sva miklu minni tekjur hafa, en faÖir hans haföi haft eÖa forellri, ok kendi Póri ráðin um. Håkon kon- ungr okPórir uröu þessa varir, ok var uggr å, hver tiltœkiMagnús myndi hafa; þótti þeim þat helzt grunsamligt, er Magnús haföi á floti langskip tjçlduö ok búin. Um várit náliga kyndilmessu, þá lagöi Magnus konungr brot á náttarþeli, ok lçgöu ut tjçlduö-um skipum ok ljós undir, ok helt út til Hefringar, bjó þar um nótt, ok geröu þar elda stóra á landi uppi. Pá hugöi Hákon konungr ok liö þat, er i býnum var, at þat væri gçrt til svika; hann lét blása liöinu ut, ok sótti allr kaupangslýör til, ok váru i samnaÖi um nóttina. En um morgininn, er lýsa tók, ok Magnús konungr så allzherjar liö á Eyrunum, þá helt hann ut ór firöinum ok svá suör i Gula|)ingslçg. Håkon konungr byrjaöi þá ferö sina ok

ætlaöi austr i Vik ok átti áör mót i býnum, talaöi þá ok baÖ menn vináttu ok hét sinni vináttu çllum her, kvaö sér skugga vera um vilja frænda sins, Magnús konungs. Hakon konungr sat á hesti ok var farbúinn. Allir menn hétu honum vingan meö 20 góöum vilja ok fylgö, ef þyrpti, ok fylgöi honum lýör allr út undir Steinbjçrg. Håkon konungr fór upp til Dofrafjallz; en er hann fór yfir fjallit, reiö hann um dag eptir rjúpu nçkkurri, er fló undan honum; þá varö hann sjúkr ok fekk banasótt ok andaðisk þar á fjallinu, ok var lik hans norör flutt, ok kom hálfum mánaÖi siöarr til kaupangs, en hann hafõi brot farit; gekk þá allr bcejarlýðr, ok flestr grátandi, móti liki konungs, þviat allir menn unnu honum hugástum. Lik Hákonar konungs var niör sett i Kristskirkju. Håkon konungr varö maör vel hálfþritogr at aldri; hann hefir hçföingja verit einn ástsælastr i Noregi af alþýðu. Hann hafõi farit norör til Bjarmalandz, åtti þar orrostu ok fekk sigr.

K. 3. Hernaör i Hallandi.

Magnus konungr helt um vetrinn austr i Vik; en er váraði, helt hann suör til Hallandz ok herjaði þar viöa. På brendi hann þar Viskardal ok fleiri heruö; fekk hann þar fé mikit ok fór siöan aptr i riki sitt; svá segir Bjçrn inn krephendi i Magnús-drápu:5i 6 HEIMSKRINGLA

171. Vítt lét Vçrsa dróttinn, brendi buðlungr Proenda, varð skjótt rekinn flótti blés kastar hel fasta (hús sveiö Hçröa ræsir) (vaköi viskdœlsk ekkja) Halland farit brandi; viös, mçrg heruö siöan.

Hér getr þess, at Magnus konungr geröi it mesta hervirki á Hallandi.

K. 4 Frá Steigarþóri.

Sveinn er maör nefndr, sonr Haraldz flettis, danskr maör at kyni, hann var inn mesti vikingr ok mikill bardagamaör ok jo inn hraustasti, ættstórr maör i sinu landi. Hann hafõi verit meö Hákoni konungi; en eptir fråfall Hákonar trúði Steigarþórir illa því, at hann myndi komask i sætt eöa i vináttu viö Magnús konung, ef riki hans gengi yfir land, fyrir sakir tilverka ok motgçngu þeirar, er Pórir hafõi áðr haft viö Magnus konung. Siöan hpföu þeir Pórir ok Sveinn ráö þat, er siöan var fram-kvæmt, at þeir reistu flokk viö styrk ok fjçlmenni Póris. En fyrir því at Pórir var þá gamall maör ok þungfcerr, þá tók Sveinn viö stjórn floksins ok hçföingjanafni. At þessu ráöi hurfu fleiri hçföingjar; þeira var æztr Egill, sonr Ásláks af Forlandi. Egill var lendr maör; hann åtti Ingibjçrgu, dóttur Qgmundar Porbergssonar, systur Skopta ór Gizka. Skjálgr hét maör rikr ok auöigr, er enn kom til floksins; þess getr Porkell hamarskáld í Magnúsdrápu:

172. Vítt dró sínar sveitir sngrp frák á þvi, 's urpu
saman stórhugaör Pórir endr, Skjalgs vinum, lendir
(heldr vçrut þau hçlöum menn viö moröhauks brynni,
haglig rçö) meö Agli; mein, of afl sér steini.

Peir Pórir hófu flokkinn á Uplçndum ok kómu ofan i Raumsdal ok Sunn-Mæri ok pfluöu sér þar skipa; heldu siöan norör til Prándheims.

K. 5. Frá Póri ok hans atgøröum.

Sigurör ullstrengr hét lendr maör, sonr LoÖins Viggjar-skalla; hann samnaöi liöi meö çrvarskurö, þá er hann spurÖi til floks þeira Póris, ok stefndi çllu liÖi þvi, er hann fekk, til Viggju. En Sveinn ok Pórir heldu þannug liði sinu ok bçröusk viö þá Sigurö ok fengu sigr ok veittu mikit mannspell, en Sigurör flýði ok fór á fund Magnús konungs. En þeir Pórir fóru til kaupangs ok dvçlöusk þar um hriö i firöinum, ok komMAGN. BERF.

521

þar mart manna til þeira. Magnús konungr spuröi þessi tiöendi ok stefndi þegar liöi saman ok helt siöan norör til Prándheims. En er hann kom i fjçröinn ok þeir Pórir spurÖu þat —• þeir lágu þá viö Hefring ok váru búnir at halda út ór firöinum —, þá røru þeir á Vagnvikastrçmd ok gengu þar af skipum ok kómu norör i Peksdali i Seljuhverfi, ok var Pórir borinn i bçrum um fjallit. SiÖan réöu þeir til skipa ok fóru norör á Hålogaland. En Magnús konungr fór eptir þeim, þá er hann var búinn ór Prándheimi. Peir Pórir fóru alt norör í Bjarkey, ok flýöi

Jón undan ok Viökunnr, sonr hans. Peir Pórir ræntu þar lausafé qIIu, en brendu bœinn ok langskip gott er Viökunnr átti. Pá mælti Pórir, er snekkjan brann ok skipit hallaöisk: »meirr á stjórn, Viökuör«. Pá var þetta ort:
173. Breör i Bjarkey miöri Joan mun eigi frýja

ból þats ek veit gólast; elds né ráns, es kveldar;

téra þarft af Póri svíðr bjartr logi breiðan

(þýtr vandar bçl) standa; bý; leggr reyk til skýja.

K. 6. Dauöi Póris ok Egils.

Peir Jón ok Viökunnr fóru dag ok nótt, til þess er þeir funnu Magnús konung. Peir Sveinn ok Pórir heldu ok noröan sinu liði ok ræntu viöa um Halogaland. En er þeir lágu á firöi þeim, er Harmr heitir, þá sá þeir sigling Magnús konungs, ok þóttusk þeir Pórir eigi hafa liÖ til at berjask ok røru undan ok flvöu. Røri Pórir ok Egill til Hesjutúna, en Sveinn røri út til hafs en sumt liö þeira røri inn i fjçröinn. Magnús konungr helt eptir þeim Póri. En er skipin rendusk at i lendingunni, þá var Pórir i fyrirrúmi á sinu skipi. På kallaöi Sigurör ullstrengr á hann: »ertu heill, Pórir?« Pórir svarar: »heill at hçndurn, en hrumr at fótum«. Pá flýöi liÖ þeira Póris alt á land upp, en Pórir varö handtekinn. Egill varö ok handtekinn, þvíat hann vildi eigi renna frá konu sinni. Magnús konungr lét flyt ja þá báöa i Vambarhólm. En er Pórir var upp leiddr, reikaöi hann á fótum; þá mælti Viökunnr: »meirr á bakboröa, Pórir«. Siöan var Pórir leiddr til gálga; þá mælti hann:

174. Vórum félagar fjórir

foröum, einn viö stýri.

Ok er hann gekk at gálganum, mælt hann: »ill eru ill ráÖ«. Siöan var hann hengör; ok þá er upp reiö gálgatréit, var Pórir svá hçfugr, at sundr slitnaöi hálsinn, ok feil búkrinn til jaröar.

Pórir var allra manna mestr, bæði hår ok digr. Egill var ok til gálga leiddr, en er konungs þrælar skyldu hengja hann, þá mælti Egill: »eigi skuluð þér mik fyrir því hengja, at eigi væri hverr yðvarr makligri at hanga«, svá sem kveöit var: 175. Orð frák Agli verða, hvern þeira kvaö hæra

unnar dags, á munni, (hjaldrbliks) an sik miklu

Sól, við siklings þræla (beið ofmikit eyðir

satt, einaröar latta, angr) makligra at hanga.

Magnus konungr sat hjå, er þeir váru hengöir, ok var svá reiðr, at engi var hans manna svá djarfr, at þoröi at biðja þeim friðar. Pá mælti konungr, er Egill sparn gálgann: »illa koma þér góðir frændr i þQrf«. 1 þvi sýndisk, at konungr vildi hafa verit beöinn, at Egill hefði lifat. Svá segir Bjçrn inn krephendi:

176. Snarr rauð Sygna harri frátt, hvé fylkir mátti,

sverö á úthlaupsferöum, fór svá, at hengör vas Pórir,

vítt nam vargr at slíta (fçr vas gunnar gervis

varma brçö, á Harmi; greiÖ) dróttins-svik leiöa.

K. 7. Frá refsingum viö Prœndi. Magnús konungr helt siðan suðr til Prándheims, veitti þar stórar refsingar þeim mçnnum, er sannir váru at landráöum viö hann, drap hann surna, en brendi fyrir sumum ; svá segir Bjçrn krephendi:

177. Hrafngreddir vann hrædda hygg at hersa tveggja hlifar styggr, i byggöum, herbaldr lyki aldri

þrœnzka drótt, es þótti sinn; jór vasa svçru

þeim markar bçl sveima; svangr, fló çrn til hanga.

Sveinn Haraldzson flýði fyrst til hafs út ok svá til Danmerkr ok var þar til þess, er hann kom sér i sætt viö

Eystein konung Magnússon; hann tók Svein i sætt ok geröi hann skutilsvein 3° sinn ok haföi hann i kærleik ok viröingu. Magnús konungr hafôi þá riki einn saman; hann friöaöi vel fyrir landi sinu ok eyddi çllum vikingum ok utilegumçnnum; hann var maör rçski ok herskår ok starfsamr ok likari i çllu Haraldi konungi fçöurfçöur sinum i skaplýzku heldr en feör sinum.

K. 8. Hernaðr Magnús konungs i SuÖreyjum.

Magnús konungr byrjaöi ferö sina ór landi ok hafôi með sér liö mikit ok fritt ok góðan skipakost; helt hann liöi því vestr um haf ok fvrst til Orkneyja. Hann tók hçndum jarlana Pål

ok Erlend, sendi þá báöa austr i Noreg, en setti eptir Sigurð son sinn til hçfÖingja yfir eyjunum ok fekk honum ráðuneyti. Magnús konungr helt liöi sinu til Suöreyja; en er hann kom þar, tók hann þegar at herja ok brenna byggöina, en drap mannfólkit, ok ræntu alt, þar er þeir fóru, en landzlýör flýði undan vits vegar, en sumir inn i Skotlandz-fjçröu, en sumir suör i Saltiri eða út til Irlandz; sumir fengu griö ok veittu handgçngu; svá segir Bjçrn krephendi:

178. Lék of LjóÖhús fikjum limsorg náar himni, vitt vas ferö á flótta fús; gaus eldr ór húsum; çrr skjçldungr fór eldi Ivist, (búendr mistu) róggeisla vann ræsir rauöan (lifs ok auöar).

179. Hungrþverrir lét herj at hrxöar gagls á Skiöi, tçnn rauö Tyrvist innan teitr vargr i ben margri; grætti Grenlands dróttinn, gekk hått Skota stekkvir, (þjöö rann mýlsk til mæði) meyjar suör i eyjum.

K. 9. Frá Lçgmanni, syni Goörøöar konungs.

Magnus konungr kom liöi sinu i eyna Helgu ok gaf þar griÖ ok friö mçnnum çllum ok allra manna varnaöi. Pat segja menn, at hann vildi upp lúka Kolumkilla kirkju inni litlu, ok gekk konungr eigi inn ok lauk þegar aptr huröina ok þegar i lås ok mælti, at engi skyldi svá djarfr veröa siöan, at inn skyldi ganga i kirkju þá, ok hefir siöan svá gçrt verit. Pá lagÖi Magnus konungr liÖinu suör til Har, herjaöi þar ok brendi; en er hann hafôi unnit þat land, þá byrjar hann feröina suör fyrir Saltiri, herjaöi þá á bæöi borö á Irland ok Skotland, fór svá alt herskildi suör til Manar ok herjaöi þar sem i çörum stçöum; svá segir Bjçrn krephendi:

180. Vitt bar snarr á slétta Santiri laut sunnar
Sandey konungr randir; seggja kind und eggjar;
rauk of 11, þás jóku siggœöir réö siðan
allvalds menn á brennur; snjallr Manverja falli.

Lçgmaör hét sonr Guörøöar Suðreyja-konungs; Lçgmaör var settr til landvarnar i Noröreyjum. En er Magnús konungr kom til Suöreyja meö her sinn, þá flýði Lçgmaör undan herinum ok var i eyjunum, en at lyköum tóku menn Magnús konungs hann meö skipsçgn sina, þá er hann vildi flýja til Irlandz; lét konungr hann i járn setja ok hafa á gæzlu; svá segir Bjçrn krephendi:

181. Hætt vas hvert, þats åtti nýtr fekk nesjum útar hvarf, Goörøöar arfi; naörbings tçpuö finginn lçnd vann lofðungr Prœnda Egða gramr, þars umöu, Lçgmanni þar bannat; ungr, vétrima tungur.

K. io. Fall Huga jarls.

SiÖan helt Magnús konungr liðinu til Bretlandz. En er hann kom i Qngulseyjarsund, þá kom þar mot honum herr af Bretlandi, ok réðu jarlar tveir fyrir, Hugi prúöi ok Hugi digri, ok løgöu þegar til orrostu; varö harðr bardagi. Magnús konungr skaut io af boga, en Hugi prúöi var albrynjaör, svá at ekki var bert á honum nema augun ein. Magnus konungr skaut çru at honum ok annarr háleyskr maör, er stóð hjå konungi; skutu þeir báöir senn; kom çnnur çrin á nefbjçrg hjálmsins, ok lagöisk hon fyrir út af annan veg, en annat skotit kom i auga jarlinum ok

flaug aptr i gçgnum hçfuöit, ok er þat konunginum kent; feil þa,r Hugi jarl, en siðan flýöu Bretar ok hçföu látit liö mikit; svá segir Bjçrn krephendi:

182. Lifspelli réö Laufa (broddr fló) þars slçg snuddu lundr i Qngulssundi (snúöigt) Huga ens prúða.

Ok enn var þetta kveðit:

183. Dunöi broddr á brynju, strengs fló hagl i hringa, bragningr skaut af magni, (hné ferö) en lét veröa sveigöi allvaldr Egöa Hçröa gramr i haröri, alm, stçkk blóð á hjalma; hjarl, sókn banat jarli.

Magnus konungr fekk sigr i þeiri orrostu; þá eignaöisk hann Qngulsey, svá sem inir fyrri konungar hçföu lengst suör eignazk riki, þeir er i Nóregi hçföu verit. Qngulsey er þriðjungr Bretlandz. Eptir orrostu þessa snýr Magnus konungr aptr liöi sinu, helt fyrst til Skotlandz. Pá fóru menn milli þeira Melkólms 3° Skotakonungs, ok geröu þeir sætt milli sin; skyldi Magnús konungr eignask eyjar allar, þær er liggja fyrir vestan Skotland, allar þær, er stjornfçstu skipi mætti fara milli ok meginlandz. En er Magnus konungr kom sunnan til Saltiris, þá lét hann draga skútu umSaltíris-eið ok leggja stýri i lag; konungr sjálfr settisk i lypting ok helt um hjålmunvçl ok eignaöisk sva landit, þat er þá lá á bakborÖa. Saltiri er mikit land ok betra en in bezta ey i Suöreyjum nema Mçn. Eiö mjótt er á milli ok meginlandz á Skotlandi; þar eru opt dregin langskip yfir.



K. 11. Dauöi Orkneyja-jarla.

Magnús konungr var um vetr inn i Suöreyjum, þá fóru menn hans um alla SkotlandzfjçrÖu fyrir innan eyjar allar bæöi byggöar ok óbyggöar ok eignuðu Nóregs konungi eylçnd çll. Magnús fekk til handa syni sinum Sigurði Bjaðmynju, dóttur Mýrkjartans konungs Pjálbasonar, írakonungs; hann réö fyrir Kunnuktum. Eptir um sumarit fór Magnús konungr liöi sinu austr i Nóreg. Erlendr jarl varö sóttdauör i Niöarósi ok er þar jaröaör, en Páll i Bjçrgyn. Skopti Qgmundarson Porbergssonar var lendr maör ágætr; hann bjó i Gizka á Sunn-Mæri; hann åtti Guörúnu, dóttur Póröar Fólasonar; bçrn þeira váru Qgmundr, Finnr, Pórör, Póra, er átti Ásólfr Skúlason; sønir Skopta váru inir mannvænstu menn i œsku.

K. 12. Deila Magnús konungs ok Inga konungs.

Steinkell Svia-konungr andaöisk nær falli Haraldanna. Håkon hét så konungr, er næst var i Svíþjóð eptir Steinkel konung. Siöan var Ingi konungr, sonr Steinkels, góör konungr ok rikr, allra manna mestr ok sterkastr; hann var þá konungr i Sviþjóð, er Magnús var i Nóregi. Magnus konungr talði þat hafa verit landaskipti at fornu, at Gautelfr hefði skilt riki Svia- konungs ok Nóregs-konungs en siöan Væni til Vermalandz; talðisk Magnús konungr eiga alla þá byggö, er fyrir vestan Væni var, þat er Sunndalr ok Norödalr, Véar ok Varöynjar ok allar markir, er þar liggja til; en þat haföi þá langa hriö legit undir Sviakonungs veldi ok til vestra Gautlandz at skyldum; en Markamenn vildu vera undir Svia-konungs veldi sem fyrr. Magnus konungr reið ór Víkinni ok upp á Gautland ok haföi liö mikit ok fritt; en er hann kom i markbyggðina, herjaði hann ok brendi, fór svá um allar byggöir; gekk fólk undir hann ok svçröu honum lçndin. En er hann kom upp til vatsins Vænis, leið á haustit. Pá fóru þeir i Kvalöinsey ok geröu þar borg af torfi ok viöum ok grófu diki um. En er þat virki var gçrt, þá var þar flutt i vistir ok çnnur fçng, þau er þyrpti. Konungr setti þar i ccc. manna, ok váru þeir hçföingjar fyrir Finnr Skoptason ok Sigurör ullstrengr ok hçföu it friöasta liö, en konungr snøri þá út i Vikina.



K. 13. Frå Norömçnnum.

En er Svía-konungr spurði þetta, þá bauð hann liöi saman, ok fóru þau orð um, at hann myndi ofan riða, en þat frestaðisk; þá kváðu Norömenn þetta:

184. Alllengi dvelr Ingi ofanreið enn þjóbreiði.

En er ísa lagði á vatnit Væni, þá reið Ingi konungr ofan ok haföi nærr xxx. hundraöa manna. Hann sendi orð Norömçnnum þeim, er i borginni sátu, baö þá fara i brot meÖ fangi því, er þeir hçiföu, ok aptr i Nóreg. En er sendimenn báru konungs orö, þá svarar Sigurör ullstrengr, sagÖi, at Ingi myndi çoru viö

koma, en visa þeim brot sem hjçrö i haga, ok kvaö hann nærr áðr mundu ganga veröa. Sendimenn báru aptr þau orð til konungs. SiÖan fór Ingi konungr út i eyna meö aílan herinn. På sendi hann annat sinni menn til Norömanna ok baö þá i brot fara ok hafa vápn sin, klæöi ok hesta, en låta eptir ránfé alt. Peir neittu þessu; en siöan veittu þeir atgçngu ok skutusk á. Pá lét konungr bera til grjót ok viöu ok fylla dikit; þá lét hann taka akkeri ok drengja viö åsa langa ok bera þat upp á timbr-vegginn; gengu þar til margir menn ok drógu sundr vegginn. Pá váru gçrvar eisur stórar ok skotit logandi brçndum at þeim. Pá báöu Norömenn griöa, en konungr baö þá ut ganga vápnlausa ok yfirhafnarlausa; en er þeir gingu út, þá var hverr þeira sleginn limahçgg. Fóru þeir brot viö sva buit ok heim aptr i Nóreg; en Markamenn allir snørusk þá aptr undir Inga konung. Peir Sigurör ok hans félagar sóttu á fund Magnus konungs ok segja honum sinar ófarar.

### K. 14. Orrosta á Foxerni.

Pegar um várit, er isa leysti, fór Magnús konungr meö liöi miklu austr til Elfar ok helt upp eptir inni eystri kvisl ok herjaöi alt veldi Svia-konungs. En er hann kom upp á Foxerni, þá gengu þeir upp á land frá skipum; en er þeir kómu yfir á eina, þá er þar verðr, þá kom móti þeim herr Gauta, ok varö þar orrosta, ok váru Norömenn ofrliöi bornir ok kómu á flótta ok var drepit mart viö fors einn. Magnus konungr flýði, en Gautar fylgöu þeim ok drápu slikt er þeir máttu. Magnus konungr var auökendr, manna mestr; hann haföi rauöan hjúp yfir brynju, hárit silkibleikt ok feil á heröar niör. Qgmundr



Skoptason reiö á aöra hliö konungi; hann var ok manna mestr ok friöastr; hann mælti: »gef mér hjúpinn, konungr«. Konungr segir: »hvat skal þér hjúprinn?«. »Ek vil hafa, segir hann, gefit hefir þú mér stærrum«. Par var svá háttat, at vellir sléttir váru viöa, ok sásk þeir þá ávalt Gautar ok Norðmenn; þá váru enn kleifar ok skógarkjprr ok fal þá sýn; þá fekk konungr Qgmundi hjúpinn, ok fór hann i. Siöan riöu þeir fram á vçlluna; þá snøri Qgmundr þvers brot ok hans menn; en er Gautar sá þat, þá hugðu þeir þat konung vera, ok riöu þannug allir eptir; reið þá konungr leiö sina til skips, en Qgmund dró nauöuliga undan ok kom þó heill til skipa. Helt Magnús konungr siöan ofan eptir ánni ok svá norör i Vikina.

### K. 15. Konungastefna i Elfinni.

Annat sumar eptir var lçgö konungastefna viö Konunga-hellu i Elfi, ok kom þar Magnus Nóregs-konungr ok Ingi Svia- konungr, Eirikr Sveinsson Dana-konungr, ok var sú stefna bundin meö griöum. En er þingit var sett, þá gengu konungar fram á vçllinn frá çörum mçnnum ok tçluöusk viö litla hriö; gengu þá aptr til liÖs sins, ok var þá gçr sættin, at hverr þeira skyldi hafa þat riki, sem áör hçföu haft feör þeira, en hverr þeira konunga bæta viö sina landzmenn rån ok mannskaöa, en hverr þeira siöan jafna viö annan. Magnús konungr skyldi få Margrétar, dóttur Inga konungs; hon var siöan kçlluö Friökolla. Pat var mål manna, at eigi heföi sét hçföingligri menn, en þeir váru allir. Ingi konungr var einna mestr ok þrekuligastr ok þótti hann çldurmannligastr; en Magnus konungr þótti skçrulig-astr ok hvatligastr; en Eirikr konungr var einna fegrstr; en allir váru þeir friÖir, stórir menn ok gçfugligir ok orösnjallir — ok skilöusk at sva búnu.

### K. 16. Kvánfang Magnús konungs.

Magnus konungr fekk Margrétar drótningar; var hon send austan af Svíþjóð til Nóregs, ok var henni fengit vegligt fçruneyti. En Magnus konungr átti áör nçkkur bçrn, þau er nefnd eru. Eysteinn hét sonr hans, ok var hans móöerni litit; annarr hét Sigurör, ok var hann vetri yngri; Póra hét móðir hans; Óláfr hét inn þriÖi ok var hann miklu yngstr; móöir hans var Sigriör, dóttir Saxa i Vik, gçfugs mannz i Prándheimi; hon var friöla konungs. Svá segja menn, at þá er Magnús konungr



kom ór vestrvíking, at hann haföi mjçk þá siðu ok klæÖabúnaÖ, sem titt var i vestrlçndum, ok margir hans menn; gengu þeir berleggjaöir um stræti ok hçföu kyrtla stutta ok svá yfirhafnir; þá kçlluöu menn hann Magnús berfœtt eöa berbein; sumir kçlluöu hann Magnús håva, en sumir Styrjaldar-Magnús. Hann var manna hæstr. Mark var gçrt til um hæö hans á Máriukirkju i kaupangi, þeiri, er Haraldr konungr haföi gera látit; þar á

norðrdurum váru klappaöir á steinvegginum krossar iii., einn Haraldz hæð, annarr Óláfs hæð, iii. Magnus hæð, ok þat markat, io hvar þeim var hœgst kyssa á; ofarst Haraldz kross, en lægst Magnús kross, en Óláfs mark jafnnær báöum.

K. 17. Ósætt Magnús konungs ok Skopta. Skopti Qgmundarson varð missáttr við Magnús konung, ok deildu þeir um dánararf nçkkurn; Skopti helt, en konungr kallaÖi til meö svá mikilli freku, at þat var viö váöa sjálfan; váru þá at áttar margar stefnur, ok lagöi Skopti þat ráð til, at þeir feögar skyldu aldri allir senn vera á konungs valdi, segir, at meöan myndi hlýöa. Pá er Skopti var fyrir konungi, flutti hann þat fram, at skyld frændsemi var milli þeira konungs ok þat meö, at Skopti hafõi verit jafnan kærr vinr konungs ok aldri brugðizk þeira vinátta, segir svá, at menn mætti þat skilja, at hann var sva viti borinn — »at ek mun, segir hann, eigi þat mål halda i deilu viÖ þik, konungr, ef ek mæli rangt; ok því bregðr mér til foreliris mins, at ek halda réttu máli fyrir hverjum manni ok gera ek þar engi manna mun at«. Konungr var inn sami, ok mýkðisk ekki hans skap viö slikar rœður. Fór Skopti heim.

K. 18. Ferö Finnz Skoptasonar Siöan fór Finnr á konungs fund ok talaöi viö hann ok bað konung þess, at hann skyldi låta þá feöga ná réttendum af þessu máli. Konungr svarar styggt ok stutt. Pá mælti Finnr: »til annars hugða ek af yðr, konungr, en þér munduö gera mik lçgræning, þá er ek settumk i Kvalöinsey, er fáir vildu aörir vinir yÖrir ok sçgöu, sem satt var, at þeir váru fram seldir, er þar sátu, ok til dauöa dæmöir, ef Ingi konungr heföi eigi lyst viö oss meira hçfÖingskap, en þú haföir fyrir oss sét, ok mun þó mçrgum sýnask, sem vér bærim þaöan sviviröing, ef þat væri nçkkurs vert«. Konungr skipaÖisk ekki viö slikar ræöur, ok fór Finnr heim.



K. 19. Ferö Qgmundar Skoptasonar.

På fór Qgmundr Skoptason á fund konungs; en er hann kom fyrir konunginn, bar hann upp ørendi sin ok baö konung gera þeim rétt feögum. Konungr segir, at þat var rétt, er hann sagÖi, ok þeir væri firna djarfir. På mælti Qgmundr: »koma mundu, konungr, þessu, áleiðis, at gera oss rangt fyrir sakir ríkis þins; mun þat hér sannask, sem mælt er, at flestir launa illu eöa engu, er lifit er gefit; þat skal ok fylgja minu máli, at aldri siöan skal ek koma i þína þjónostu ok engi várr feöga, ef ek ræð«. Fór Qgmundr siöan heim, ok sásk þeir aldrigi ok Magnús konungr siöan.

K. 20. Ferö Skopta ór landi.

Skopti Qgmundarson byrjar ferö sina um várit eptir af landi i brot; hann hafõi v. langskip ok çll vel búin; til þeirar feröar réöusk meö honum synir hans, Qgmundr ok Finnr ok Pórðr. Uröu þeir heldr síöbúnir; siglöu um haustit til Flæm-ingjalandz ok váru þar um vetrinn. Snimma um várit siglöu þeir vestr til Vallandz, ok um sumarit siglöu þeir ut um Nçrva-sund ok um haustit til Rúmaborgar; þar andaÖisk Skopti; allir çnduÖusk þeir feögar i þeiri ferö. Pórör lifõi lengst þeira feöga; hann andaÖisk i Sikiley. Pat er sçgn manna, at Skopti hafi fyrst siglt Nçrvasund Norömanna, ok varö sú ferö in frægsta.

K. 21. Jartegnir.

Så atburör geröisk i kaupangi, þar sem Öláfr konungr hvilir, at eldr kom í hús i bcenum, ok brann viöa. På var borit út ór kirkjunni skrin Öláfs konungs ok sett á mot eldinum. Siöan hljóp at maör einn hvatviss ok óvitr ok baröi skrinit ok heitaöisk viö þann helga mann, segir svá, at alt myndi þá upp brenna, nema hann byrgi þeim meö bcenum sinum, bæöi kirkjan ok çnnur hús. Nú lét almáttigr guö viö berask bruna kirkjunnar, en þeim 3° óvitra manni sendi hann augnaverk þegar eptir um nóttina, ok lå hann þar alt til þess, er inn heilagi Öláfr konungr baö honum miskunnar viö almáttigan guö, ok boettisk honum i þeiri sçmu kirkju.





K. 22. Jartegnir Óláfs konungs.

Sá atburör varö enn i kaupangi, at kona ein var fœrð þangat til staðarins, þar sem Öláfr konungr hvilir; hon var sva armskçpuö, at hon var kropnuö çll saman, svá at báöir fœtr lágu bjúgir viÖ þjóin uppi. Ok er hon var iöuliga á bœnum ok hafði heitit á hann grátandi, þá bœtti hann henni þá miklu vanheilsu, at fcetr ok leggir ok aðrir limir réttusk ór lykkjum, ok þjónaði siöan hverr liðr ok limr réttri skepnu; mátti hon áðr eigi krjúpa þangat, en þaöan gekk hon heil ok fegin til sinna ío heimkynna.

K. 23. Hernaör á Irlandi.

Magnus konungr byr jar ferö sina af landi ok hafði her mikinn; þá hafði hann verit konungr i Nóregi ix. vetr; þá fór hann vestr um haf ok hafði it friöasta liö, er til var '1 Nóregi. Honum fylgöu allir rikismenn, er i váru landinu, Sigurör Hrana-son, Viökunnr Jóansson, Dagr Eilifsson, Serkr ór Sogni, Eyvindr olbogi, stallari konungs, tllfr Hranason, bróöir Siguröar, ok margir aörir rikismenn. Fór konungr meö þessu liöi çllu vestr til Orkneyja ok hafði þaðan meö sér sonu Erlendz jarls, Magnús ok Erling; þá siglöi hann til Suöreyja, ok er hann lá viö Skotland, þá hljóp Magnús Erlendzson um nótt af skipi konungs ok lagöisk til landz, fór siöan upp i skog ok kom fram i hirö Skota-konungs. Magnús konungr helt liÖinu til Irlandz ok herjaði þar, þá kom Mýrkjartan konungr til liös viÖ hann, ok unnu þeir mikit af landinu, Dyflinn ok Dyflinnarskiri, ok var Magnús konungr um vetrinn uppi á Kunnçktum meö Mýrkjartani konungi, en setti menn sina til landzgæzlu, þar er hann hafði unnit. En er váraði, fóru konungarnir meö her sinn vestr á ülaztir ok áttu þar orrostur margar ok unnu landit ok hçföu unnit mestan hluta af ülaztir; þá fór Mýrkjartan heim á Kunnaktir.

K. 24. Upganga Magnús konungs.

Magnús konungr bjó þá skip sin ok ætlaði austr til Nóregs; hann setti menn sina til landzgæzlu i Dyflinni. Hann lå viö ülaztir çllu liöi sinu ok váru seglbúnir. Peir þóttusk þurfa strandhçggva, ok sendi Magnus konungr sina menn til Mýrkjartans konungs, at hann skyldi senda honum stiandhçgg, ok kvaö á dag, at koma skyldi inn næsta fyrir Barthólómeúsmessu, ef sendimenn væri



heilir; en messudagsaptaninn váru þeir eigi komnir; en messu-daginn, þá er sól rann upp, gekk Magnus konungr á land meö rnestum hluta liös sins ok gekk upp frå skipum, vildi leita eptir mçnnum sinum ok strandhçggvi. Veör var vindlaust ok solskin; leiöin lå yfir mýrar ok fen, ok váru þar hçggnar yfir klappir, en kjarrskógar viö tveggja vegna. Pá er þeir sóttu fram, varö fyrir þeim leiti mjçk hått; þaöan sá þeir viöa; þeir sá jóreyk mikinn upp á land; rœddu þá milli sin, hvárt þat myndi vera herr Ira, en sumir sçgöu, at þar mundu vera menn þeira meö strandhçggvi. Námu þeir þar stað. Pá mælti Eyvindr olbogi: »konungr, segir hann, hverja ætlan hefir þú á ferö þessi ? Óvarliga þykkir þú fara; veiztu, at írar eru sviksamir; ætla nú ráð nçkkut fyrir liöi vöru«. Pá mælti konungr: »fylkjum nú liöi váru ok verum viö búnir, ef þetta eru svik«. Var þá fylkt; gekk konungr ok Eyvindr fyrir fylkingunni; hafði Magnus konungr hjálm á hçföi ok rauöan skjçld, ok lagt á meö gulli léó, gyrör sveröi, er Leggbitr var kallaör, tannhjaltat ok gullvafiör meÖalkaflinn, it bezta vápn; hann hafði kesju i hendi; hann hafði silkihjúp rauöan yfir skyrtu ok skorit fyrir ok á bak léo meö gulu silki; ok var þat mai manna, at eigi hefði sét skçruligra mann eöa vaskligra. Eyvindr hafði ok silkihjúp rauöan ok meö sama hætti sem konungr; var hann ok mikill maör ok friör ok inn hermannligsti.

K. 25. Fall Magnus konungs.

En er jóreykrinn nálgaðisk, þá kendu þeir sina menn, ok fóru þeir meö strandhçggvi miklu, er Ira-konungr hafði sent þeim, ok helt hann çll sin orö viö Magnús konung. Siöan snøru þeir út til skipanna, ok var þá um miödegisskeiö. En er þeir kómu út á mýrarnar, fórsk þeim seint um fen. Pá þusti herr Ira fram ór hverju skógarnefi ok réðu þegar til bardaga, en NorÖmenn fóru dreift, ok fellu brátt margir. Pá mælti Eyvindr: »konungr, segir hann, óheppiliga ferr liö várt; tçkum nú skjótt gott ráö«. Konungr mælti: »blási herblástr çllu liöinu undir merkin, en þat liö, sem hér er, skjóti á skjaldborg, ok fçrum siöan undan á hæli út yfir mýrarnar; siöan mun ekki saka, er vér komum á slétlendi«. Irar skutu djarfliga, en þó fellu þeir allþykt, en æ kom maör i mannz staö. En er konungr var kominn at nezta diki, þar var torfæra mikil ok fástaöar yfir fært; fellu þar

NorÖmenn mjçk. På kallar konungr Porgrim skinnhúfu, lendan mann sinn, — hann var uplenzkr —, ok baö hann fara

34*yfir díkit með sina sveit — »en vér munum verja meðan, segir hann, svá at yðr skal eigi saka; fariö siöan á hólma þann, er þar verör, ok skjótiö á þá, meðan vér fçrum yfir dikit; eruÖ þér bogmenn góðir«. En er þeir Porgrimr kómu yfir dikit, kçstuöu þeir skjçldunum á bak sér ok runnu til skipa ofan. En er konungr sá þat, mælti hann: »ódrengiliga skilstu viö þinn konung ; óvitr var ek, þá er ek gerða þik lendan mann, en ek gerða útlaga Sigurö hund; aldri myndi hann svá fara«. Magnús konungr fekk sår, var lagör kesju i gçgnum bæði lærin fyrir ofan kné; hann greip skaptit milli fóta sér ok braut ór keflit ok mælti: »svá brjótu vér hvern sperrilegginn, sveinar«. Magnús konungr var hçggvinn á hálsinn meö spçröu, ok varö þat hans banasár. Pá flýðu þeir, er eptir váru. VíÖkunnr Jóansson bar til skipa sverðit Leggbit ok merki konungs ; þeir runnu siðarst, annarr Sigurðr Hranason, þriöi Dagr Eilifsson. Par fellu meÖ Magnúsi konungi Eyvindr olbogi, tJlfr Hranason ok margir aörir rikismenn; mart feil Norðmanna, en þó miklu fleira af Irum. En þeir Norömenn, er undan kómusk, fóru þegar brot um haustit. Erlingr, sonr Erlendz jarls, feil á Irlandi meö Magnúsi konungi. En er þat liö, er flýit hafòi af Trlandi, kom til Orkneyja, ok Sigurör spuröi fall Magnus konungs, fçöur sins, þá rézk hann þegar til feröar meö þeim, ok fóru þeir um haustit austr til Nóregs.

K. 26. Frá Magnúsi konungi ok Viökunn Jóanssyni. Magnús konungr var yfir Nóregi x. vetr, ok var á hans dçgum friör góör innan landz, en menn hçföu mjçk starfsamt ok kostnaöarsamt af leiöçngrum. Var Magnús konungr inn vinsælsti viö sina menn, en bóndum þótti hann harör. Pat herma menn frå oröum hans, þá er vinir hans mæltu, at hann fór opt óvarliga, er hann herjaði útan landz, hann sagöi svá: »til frægÖar skal konung hafa, en ekki til langlifis«. Magnús konungr var nær xxx. at aldri, þá er hann feil. Víökunnr drap þann mann i orrostu, er banamaör var Magnús konungs; þá flýði Viökunnr ok hafòi fengit iii. sår; ok af þessum sçkum tóku synir Magnús konungs hann i inn mesta kærleik.

*

# Uphaf Magnús-sona.

K. i.

Eptir fall Magnús konungs berfœts tóku synir hans kon-ungdóm í Nóregi, Eysteinn, Sigurör, Óláfr; hafòi Eysteinn inn nøröra hlut landz, en Sigurör inn syöra. Öláfr konungr var þá iiii. vetra eöa v.; en þann þriöjung landz, er hann átti, hçföu þeir báöir til varöveizlu. Sigurör var þá til konungs tekinn, er hann var xiii. vetra eöa xiiii., en Eysteinn var vetri ellri. Sigurör konungr lét eptir fyrir vestan haf dóttur Ira-konungs. På er synir Magnús váru til konunga teknir, kómu útan ór Jórsala-heimi, ok sumir ór Miklagarði, þeir menn, er farit hçföu út meö Skopta Qgmundarsyni, ok váru þeir inir frægstu ok kunnu margs konar tíöendi at segja; en af þeim nýnæmum girntisk fjçlöi mannz í Nóregi þeirar feröar; var þat sagt, at i Miklagarði fengu Norömenn fullsælu fjár, þeir er á måla vildu ganga. Peir báöu konungana, at annarr hvárr þeira, Eysteinn eða Sigurðr, skyldi fara ok vera fyrir því liöi, er til útferðar geröisk. En konungarnir játtu þvi ok bjoggu ferö þá með beggja kostnaði. Til þeirar ferðar réðusk margir rikismenn, bæði lendir menn ok rikir bœndr. En er ferðin var búin, þá var þat af ráðit, at Sigurðr skyldi fara, en Eysteinn skyldi hafa landráð af hendi beggja þeira.

K. 2. Frå Orkneyja-jprlum.

Einum vetri eða tveim eptir fall Magnús berfoets kom vestan af Orkneyjum Håkon, sonr Påls jarls, en konungar gáfu honum jarldóm ok yfirsókn i Orkneyjum, sva sem jarlar hçföu haft fyrir honum, Páll faðir hans eða Erlendr fçöurbroöir hans. Fór Håkon vestr til Orkneyja.5i 6

HEIMSKRINGLA

K. 3. Ferö Siguröar konungs ór landi.

Fjórum vetrum eptir fall Magnús konungs fór Sigurör konungr liöi sinu ór Nóregi; þá hafði hann lx. skipa; svá segir Þórarinn stuttfeldr: 185. Sva kom fylkis at skip viö skçp

framt liö saman skarfçgr of lçg

margspaks mikit, hreins goðs heöan

mildingi vilt, hnigu, sex tigir.

Sigurör konungr siglöi um haustit til Englandz ; þá var þar kon-ungr Heinrekr, sonr Viljálms bastaröz. Var Sigurör konungr þar um vetrinn; svá segir Einarr Skúlason: 186. Våsçflugr réð visi stål lét hilmir hvilask

vestr helmingi mestum; heiptglaör ok vas þaðra

óö at ensku láöi (né gramr af val Vimrar)

ægis marr und harra; vetrlengis (stigr betri).

K. 4. Ferö Siguröar konungs.

Sigurör konungr fór eptir um várit liöinu vestr til Vallandz ok kom fram um haustit út á Galizuland ok dvalÖisk þar annan vetr; svá segir Einarr Skúlason: 187. Ok, sås cezt gat riki, þar frák hilmi herjar

ól þjóÖkonungr, sólar, (hjaldrs) lausmæli gjalda

çnd á Jákóbs landi (gramr bræddi svan snimma

annan vetr, und ranni; snarlyndr) frçmum jarli.

En þat var meö þeim atburö, at jarl sá, er þar réö fyrir landi, gerði sætt viö Sigurö konung, ok skyldi jarl låta set ja Siguröi torg til matkaupa allan vetrinn, en þat endisk eigi lengr en til jóla, ok geröisk þá ilt til matar, þviat landit er skarpt ok ilt matland. På fór Sigurör konungr meÖ miklu liöi til kastala þess, er jarl åtti, ok flýði jarl undan, þvíat hann hafði litit liö. Sigurör konungr tók þar vist mikla ok mikit herfang annat, ok lét flytja til skipa sinna; bjósk siöan i brot ok fór vestr fyrir Spån. På er Sigurör konungr siglöi fyrir Spån, barsk þat at, at vikingar nçkkurir, þeir er fóru at féfangi, kómu i móti honum meö galeiÖa her, en Sigurör konungr lagöi til orrostu viö þá, ok hófu sva ina fyrstu orrostu viö heiöna menn, ok vann af þeim viii. galeiör; svá segir Haldórr skvaldri:

188. Ok fádýrir fóru náöi herr at hrjóða Fjçlnis hróts at móti, (hlaut dreng-ja vinr fengi vigçsum hlóö visi, fyrðum hollr), þars fellat víkingar gram ríkjum; fátt liö, galeiör átta.

Siöan helt Sigurðr konungr til kastala þess, er Sintré heitir, ok baröisk þar aðra orrostu; þat er á Spáni; þar sat i heiðit fólk ok herjaði á kristna menn; hann vann kastalann ok drap þar alt fólk, þviat ekki vildi kristnask låta, ok tók þar fé mikit; sva segir Haldórr skvaldri:

189. Stór skalk verk, þaus vçru gerðisk heldr við harðan (Vánar dags) á Spáni, hermçmnum gram berjask (prútt lét sløngvir sóttan grátt, es gçrva neittu

Sintré) konungs inna; goðs rétti sér boönum.

K. 5. Unnin Lizibón.

Eptir þat helt Sigurör konungr liöinu til Lizibónar, þat er borg mikil á Spáni, ok hálf kristin en hálf heiöin; þar skilr Spán kristna ok Spán heiöna; eru þau heruö heiöin çll, er vestr liggja þaöan. Par átti Sigurðr konungr ina iii. orrostu við heiöna menn ok hafði sigr; fekk þar fé mikit; svá segir Haldórr skvaldri:

190. Suör vått sigr enn þriöja, lofðungs kundr, þars lenduö snjallr, við borg þás kalla, Lizibón, at fróni.

Pá helt Sigurör konungr liöinu vestr fyrir Spán heiöna ok lagöi til borgar þeirar, er kçlluö er Alkasse, ok átti þar ina iiii orrostu viö heiðna menn ok vann borgina, drap þar mart fólk, svá at hann eyddi borgina. Peir fengu þar

ófamikit fé; svá segir Hal- dórr skvaldri:

191. üt frák yör þars heitir folkþeysandi, fýsask Alkasse styr hvassan, fjóröa sinn at vinna.

Ok enn þetta:

192. Unnit frák i einni (hitti herr á flótta) eyddri borg til sorga heiöins vifs (at drifa).

K. 6. Orrosta i Forminterru.

På helt Sigurör konungr fram feröinni ok lagöi til Nçrva-sunda; en i sundunum var fyrir honum vikingaherr mikill, ok lagÖi konungr til orrostu viö þá, ok átti þar ina fimtu orrostu ok hafði sigr; svá segir Haldórr skvaldri:

193. Treystuzk egg fyr austan náskári fló nýra, (yör tjóði goö) rjóða, Nçrvasund, til unda.



Siöan lagði Sigurör konungr herinum fram it syöra meÖ Serklandi ok kom til eyjar þeirar, er kçlluö er Forminterra. Par hafði þá sezk herr mikill heiöinna blåmanna i helli nçkkurn ok settu fyrir hellisdyrnar steinvegg mikinn; þeir herjuðu viöa á landit ok fluttu til hellisins alt herfang. Sigurðr konungr veitti upgçngu i þeiri ey ok fór til hellis ok var i bergi nçkkuru, ok var hått at ganga upp i hellinn til steinveggsins, en bjargit skútti yfir steinvegginn fram . Heiðingjar vçröu steinvegginn ok hræddusk ekki vápn þeira Norömanna, en þeir máttu bera grjót ok skot o niör undir fœtr sér ofan á Norömenn. Norömenn réöu ok ekki til upgçngunnar at svá búnu. På tóku heiöingjar pell ok aöra dýrgripi ok báru út á vegginn ok skóku at NorömQnnum ok œpðu á þá ok eggjuðu þá ok frýöu þeim hugar. Pá leitaöi Sigurör konungr sér ráöa. Hann lét taka ii. skipbáta, er barkar eru kallaöir, ok draga upp á bergit yfir hellisdyrnar ok drengja meö strengjum digrum alt undir innviöuna ok um stafnana. Siöan gengu þar i menn, svá sem rúm hafði, létu þá siga skipin ofan fyrir hellinn meö reipum ; þá skutu þeir ok grýttu, er á skipunum váru, svá at heiöingjar hrukku af steinvegginum. På gekk Sigurör konungr upp i bergit meö herinn undir steinvegginn, ok brutu vegginn ok kómusk svá upp i hellinn, en heiöingjar flýðu inn um steinvegginn, þann er settr var um þveran hellinn. På lét konungr flytja i hellinn viöu stóra ok kasta bål mikit i hellis-durunum ok slå eldi i. En heiöingjar, er eldr ok reykr sótti þá, þá létu sumir li f it, sumir gengu á vápn Norömanna, en alt fólk var drepit eöa brent. Par fengu Norömenn it mesta herfang, þess er þeir hefði tekit i þessi ferö; sva segir Haldórr skvaldri.

194. VarÖ fyr staf ni þar varö eggjar styr jar gjçrnum ok eld þola

friðraskaði blámanna liö,

Forminterra; áör bana fengi.

Ok enn þetta:

195. Bçöstyrkir, lézt barka en i hall at helli, (bragnings verk á Serkjum hernenninn, fjçlmennum,

fræg hafa gçrzk) fyr gýgjar gçndlar þings, meö gengi gagnstig ofan siga; gnýþróttr, neðan sóttir.

Enn segir Pórarinn stuttfeldr:

196. Bað gramr guma þás i reipum gunnhagr draga ramdýr þrama

byrvarga á bjarg sigu fyr hellis

blásvarta tvá, hliödyrr meö liö.



K. 7. Orrosta. På fór Sigurbr konungr fram á leib ok kom til eyjar þeirar, er Iviza heitir, ok átti þar orrostu ok fekk sigr; su var in vii. orrosta; svá segir Haldórr skvaldri:

197. Margdýrkaðr kom merkir (fúss vas frembar ræsir morbhjóls skipa stóli fribslits) til Ivizu.

Eptir þat kom Sigurbr konungr til eyjar þeirar, er Manork heitir, ok helt þar ina viii. orrostu vib heibna menn ok fekk sigr; svá segir Haldórr skvaldri:

198. Knátti enn en átta (Finns rauð gjç>ld) á grœnni oddhríb vakib siban (grams ferb) Manork verba.

K. 8. Gefit Robgeiri jarli konungsnafn. Sigurbr konungr kom um várit til Sikileyjar ok dvalbisk þar lengi. Par var þá Robgeirr hertogi; hann fagnabi vel konungi ok baub honum til veizlu. Sigurbr konungr kom þannug ok mikit lib meb honum. Par var dýrligr fagnabr, ok hvern dag at veizlunni stób Robgeirr hertogi ok þjónabi at borbi Sigurbar konungs. Ok inn vii. dag veizlunnar, þá er menn hçfbu tekit laugar, þá tók Sigurbr konungr i hçrnd hertoganum ok leiddi hann upp i hásæti ok gaf honum konungsnafn ok þann rétt, at hann skyldi vera konungr i Sikileyjar-veldi, en ábr hpfbu þar jarlar verit yfir þvi riki.

K. 9. Frå Robgeiri konungi. Robgeirr Sikilevjar-konungr var inn rikasti konungr; hann vann Púl allan ok lagbi undir sik ok margar abrar stóreyjar i Griklandz-hafi; hann var kallabr Robgeirr riki. Hans sonr var Viljálmr konungr i Sikiley, er lengi hafbi ófrib mikinn haft vib Miklagarbz keisara. Viljálmr konungr åtti iii. doetr, en engan son; hann gipti eina dóttur sina Heinreki keisara, syni Frireks keisara, en þeira sonr var Frirekr, er nú var keisari i Rúmaborg. Abra dóttur Viljálms konungs åtti hertogi af Kipr; ina iii. åtti Margrit yfirkussari; Heinrekr keisari drap þá bába. Dóttur Robgeirs Sikileyjar konungs åtti Mánúli keisari i Miklagarbi; þeira sonr var Kirjalax keisari.

K. 10. Jorsala-ferb Sigurbar konungs.

Um sumarit siglbi Sigurbr konungr út um Griklandz-haf til Jórsala-landz; fór siban ut til Jórsala-borgar ok hitti þar5i 6



Baldvina Jórsala-konung. Baldvini konungr fagnaði Sigurði konungi forkunnar vel ok reið meö honum út til árinnar Joröánar ok aptr til Jórsalaborgar; svá segir Einarr Skúlason: 199. Húf lét hilmir svifa 200. Getk þess,'s gramr fór vitja hafkaldan (lof skaldi (glyggs) Jórsala bvggÖar

esat of allvalds risnu (meÖr vitut çöling œöra)

einfalt) i Griksalti, ógnbliðr (und sal viöum),

áör við einkar breiöa ok leyghati laugask

auölestir skip festi (leyft ráö vas þat) náöi

(çld beið çll meö stilli) hauka fróns i hreinu

Akrsborg (fegins morgin). hvatr Jórðánar vatni. Sigurðr konungr dvalöisk mjçk lengi á Jórsala-landi um haustit ok çnduröan vetr.

K. 11. Unnin Sætt. Baldvini konungr geröi veizlu fagra Siguröi konungi ok liöi miklu með honum. Pá gaf Baldvini konungr Sigurði konungi marga helga dóma, ok þá var tekinn spánn af krossinum helga at ráöi Baldvina konungs ok pátriarka, ok sóru þeir báðir at helgum dómi, at þetta tré var af inum helga krossi, er gub sjálfr var pindr å. Siöan var så heilagr dómr gefinn Siguröi konungi, með þvi at hann sór áör ok xii. menn aörir meö honum, at hann skyldi fremja kristni meö çllum mætti sinum ok koma i land erkibyskupsstóli, ef hann mætti, ok at krossinn skyldi þar vera, sem inn helgi Óláfr konungr hvílði, ok hann skyldi tiund fremja ok sjálfr gera. Sigurðr konungr fór siöan til skipa sinna i Akrsborg; þá bjó ok Baldvini konungr her sinn at fara til Sýrlandz til borgar þeirar, er Sæt heitir; sú borg var heiÖin Til þeirar feröar rézk Sigurör konungr meö honum. Ok þá er þeir konungarnir hçföu litla hriö setit um borgina, gáfusk heiönir menn upp, ok eignuöusk konungarnir borgina, en liÖsmenn annat herfang. Sigurör konungr gaf Baldvina konungi alla borgina; svá segir Haldórr skvaldri:

201. Borg heiðna tókt, bræöir (háðisk hver viÖ prýöi benja tikr, af riki, hildr) en gaft af mildi.

Einarr Skúlason segir ok hér frå:

202. Sætt frák Dæla dróttin sterkr braut váligt virki (drengr minnisk þess) vinna; vals munnlituðr gunnar; tóku hvast i Hristar fçgr ruöusk sverö, en sigri hriö valslçngur riöa; snarr bragningr hlaut fagna.SIG. EYST. OL.

539

Eptir þat fór Sigurör konungr til skipa sinna ok bjósk brot af Jórsala-landi; þeir siglöu norör til eyjar þeirar, er Kipr heitir, ok dvalöisk Sigurör konungr þar nçkkura hriö; fór siöan til Griklandz ok lagöi çllu liöinu ut viö Engilsnes ok lá þar hálfan mánuö, ok var hvern dag hraöbyri norör eptir hafinu, en hann S vildi biöa þess byr jar, er þverskytningr væri, ok seglum mætti aka at endilçngu skipi, þvíat çll segl hans váru sett pellum, bæöi þat er fram vissi ok aptr, fyrir því at hvárirtveggju, frambyggjar ok þeir er aptr váru, vildu eigi sjå it ófegra seglanna.

K. 12. Ferö Siguröar konungs i Miklagarö.

På er Sigurör konungr siglöi inn til Miklagaröz, siglöi hann nær landi; þar eru alt á land upp borgir ok kastalar ok þorp, svá at hvergi slitr. Pá så af landi i bug allra seglanna ok bar hvergi i milli, svá sem einn garör væri. Alt fólk stöö úti, þat er sjá mátti sigling Siguröar konungs. Spurt hafði ok Kirjalax keisari til feröar Siguröar konungs ok lét hann upp lúka borghliö þat á Miklagaröi, er heitir Gullvarta; þat hliÖ skal inn riöa keisari, þá er hann hefir lengi áör i brot verit af Miklagaröi ok hafi vel sigrazk; þá lét keisari breiöa pell um çll stræti borgar-innar frá Gullvçrtu ok til Laktjarna; þar eru keisara hallir inar ágæztu. Sigurör konungr mælti viö sina menn, at þeir skyldu riöa drambsamliga i borgina ok låta sér litit um finnask alla nýbreytni, er þeir sá, ok sva geröu þeir. ReiÖ Sigurör konungr ok allir hans menn meö þvílíkan pris til Miklagaröz ok svá til innar ágæztu konungs hallar, ok var þar fyrir þeim alt búit. Sigurör konungr dvalöisk þar nçkkura hriö. På sendi Kirjalax konungr menn sina til hans, hvárt hann vildi þiggja af keisara sex skippund af gulli eöa vildi hann, at konungr léti efna til leiks þess, er keisari var vanr at låta leika á paöreimi. Sigurör konungr kaus leikinn, ok sendimenn sçgöu, at keisarann kostaöi eigi minna leikinn, en þetta gull. Pá lét konungr efna til leiksins, ok var þá leikit at vanöa, ok veittu allir leikar betr konungi þat sinn. Drótning á hálfan leikinn, ok keppask i çllum leikum menn þeira; ok segja Grikir, at þá er konungr vinnr fleiri leika á paöreimi en drótning, þá mun konungr vinna sigr, ef hann ferr herferö.

K. 13. Frá ferö Siguröar Jorsalafara.

Eptir þetta bjósk Sigurör konungr til heimferöar. Hann gaf keisara çll skip sin, ok hçfuö gullbúin váru á þvi skipi, er5i 6



konungr hafði stýrt, þau váru sett á Pétrskirkju. Kirjalax keisari gaf Siguröi konungi marga hesta ok fekk honum leiðtoga um alt ríki sitt. Fór þá Sigurör konungr brot af Miklagaröi, en eptir dvalöisk mikill fjçlöi manna ok gekk á måla. Sigurör kon-ungr fór útan fyrst á Bolgaraland ok þá um Ungara-riki, ok um Pannóníam ok um Sváfa ok um Býjaraland; þar fann hann Lózaríúm keisara af Rúmaborg, ok fagnaÖi hann honum forkunnar vel, fekk honum leiötoga alt um sitt riki ok lét halda þeim torg, svá sem þeir þurptu til allra kaupa. En er Sigurör konungr kom i Slésvik á Danmçrk, þá veitti Eilífr jarl honum dýrliga veizlu; þat var um miðsumarsskeiö. I Heiöabý fann hann Nikolás Dana-konung, ok fagnaði hann honum afarvel ok fylgöi honum sjálfr norör á Jótland ok gaf honum skip meö çllum búnaði, þat er hann hafði i Nóreg. Fór þá Sigurör kon-ungr heim i riki sitt, ok var honum vel fagnat, ok var þat mål manna, at eigi hafi verit farin meiri viröingarfçr ór Nóregi, en þessi var, ok var hann þá xx. at aldri; hann hafði iii. vetr verit i þessarri ferö. Óláfr bróöir hans var þá xii. vetra gamall.

K. 14. Frá athçfn Eysteins konungs.

Eysteinn konungr hafði mart gçrt i landinu, þat er nytsamligt var, meöan Sigurör konungr var i ferö. Hann hóf munklífi i Bjçrgyn i Noröunesi ok lagöi hann þar mikit fé til; hann lét gera Mikjálskirkju, it vegligsta steinmusteri; hann lét ok gera i konungsgaröi Postolakirkju, trékirkju ; þar lét hann ok gera hçll ina miklu, er vegligast tréhús hefir gçrt verit i Nóregi; hann lét ok gera kirkju á Agöanesi, ok þar virki ok hçfn, sem áör var øræfi; hann lét ok gera i Niðarósi i konungsgaröi Nikoláskirkju, ok var þat hus allmjçk vandat at skuröum ok allri smiö; hann lét ok gera kirkju i Vágum á Hálogalandi ok lagöi prófendu til.

K. 15. Frá Eysteini konungi.

Eysteinn konungr geröi orö inum vitrustum mçnnum til Jamtalandz ok inum mestum, bauö þeim til sin, en fagnaöi çllum, er kómu, meö bliöu mikilli ok leiddi brot meö vingjçfum, en teygði þá svá til vináttu viö sik. En er þeir vçnöusk margir at fara til hans ok þágu gjafir hans, en sumum sendi hann gjafir, þeim er eigi kómu þar, þá kom hann sér i fullkomna vináttu viö alla þá menn, er réöu fyrir landinu. Siöan talaöi hann fyrir þeim



ok segir, at Jamtr hçföu þat illa gçrt, er þeir hçföu snúizk i brot frá Nóregs konungum i óhlýöni eða skattgjçfum, tók þar til måls, er Jamtr hçföu gengit undir riki Hákonar konungs Aöalsteins-fóstra ok verit siöan lengi undir Nóregs konungum, inti ok þat, hversu mçrg þarfendi þeir máttu hafa af Nóregi, eöa hversu mikill ómaki þeim væri, at sækja til Svia-konungs þat, er þeir þurftu. Ok kom hann sva sinum ræöum, at Jamtr sjálfir buöu honum ok båöu hann, at þeir vildu snúask til hlýðni viö Eystein konung, ok kçlluöu þat þurft sina ok nauösyn. Dró svá saman þeira félagsskap, at Jamtr gáfu land alt undir riki Eysteins konungs. Tóku fyrst til þessa måls rikismenn þar trúnaðareiða af çllu fólkinu; siöan fóru þeir til Eysteins konungs ok sóru honum land ok hefir þat haldizk jafnan siöan. Vann Eysteinn konungr Jamtaland meö viti en eigi meÖ áhlaupum sem sumir hans langfeögar.

K. 16. Frá Eysteini konungi.

Eysteinn konungr var maör inn friöasti sýnum, bláeygr ok nçkkut opineygr, bleikhárr ok hrokkinhárr, ekki hår meöalmaör, spekingr at viti, at çllu fróðr, lçgum ok dæmum ok mannfrcröi, råösnjallr ok oröspakr ok inn snjallasti, manna glaöastr ok litillátastr, hugþekkr ok ástsæll allri alþýöu. Hann åtti Ingi-bjçrgu, dóttur Gotthorms Steigarþórissonar; þeira dóttir hét Máría, er siöan átti Guöbrandr Skafhçggsson.

K. 17. Frá Siguröi konungi.

SigurÖr konungr var mikill vexti ok jarpr á hár, skçruligr, ekki fagr, vel vaxinn, snœfurligr, fámæltr, ok optast ekki þýðr, vingóÖr ok fastúöigr, ekki talaör mjçk, siölátr ok veglátr. Sigurör konungr var stjórnsamr ok refsingasamr, helt vel lçgin, mildr af fé, rikr ok ágætr. Öláfr konungr var maör hår ok mjór, friör sýnum, glaör ok litillátr, vinsæll. På er þeir brœör váru konungar i Nóregi, tóku þeir af margar ålçgur, þær sem Danir hçföu lagt á lýðinn, þá er Sveinn Alfifuson réö landi, ok urÖu þeir af því stórvinsælir viö alþýöu ok stórmenni.

K. 18. Dauði Óláfs konungs.

Óláfr konungr tók sótt þá, er hann leiddi til bana, ok er hann jaröaör at Kristskirkju i Niðarósi, ok var hann it mesta harmaÖr. Siöan réöu þeir ii konungar landi, Eysteinn ok Sigurör,



en áör hçföu þeir iii. brceör verit konungar xii. vetr, v. síðan er Sigurör kom til landz, en vii. áðr. Öláfr konungr var xvii. vetra, er hann andaÖisk, en þat var xi. kálendas Jánúaríí. Pá er Eysteinn konungr haföi verit einn vetr austr i landi, en Sigurör var norðr, þá sat Eysteinn konungr lengi um vetrinn i Sarpsborg.

K. 19. Fœddr Magnús blindi.

Bóandi rikr er nefndr Óláfr i Dáli, auÖigr maör; hann bjó i Aumorö i Dali mikla; hann åtti ii. bçrn. Sonr hans hét Håkon faukr, en Borghildr dóttir hans; hon var kvinna friöust ok vitr kona ok fróð mjçk. Pau Óláír ok bçrn hans váru lengi um vetrinn i Borg, ok var Borghildr jafnan á tali viö konung, ok mæltu menn allmisjafnt um vináttu þeira. En eptir um sumarit fór Eysteinn konungr norÖr i land, en Sigurör fór austr, ok annan vetr eptir var Sigurör konungr austr i landi; hann sat lçngum i Konungahellu ok eflöi mjçk þann kaupstaö. Par geröi hann kastala mikinn ok lét grafa um diki mikit; hann var gçrr af torfi ok grjóti; hann lét húsa i kastalanum; hann lét gera þar kirkju. Kross inn helga lét hann vera i Konungahellu ok helt i því eigi eiöa sina, er hann sór á Jórsala-landi, en hann framði tíund ok flest alt annat, þat er hann haföi svarit; en þat er hann setti krossinn austr viö landzenda, hugði hann þat vera mundu allz gæzlu; en þat varö at inu mesta óráði, at setja þann helgan dóm svá mjçk undir vald heiðinna manna, sem siöan reyndisk. Borghildr óláfsdóttir heyrÖi þann kvitt, at menn

illmæltu þau Eystein konung um tal sitt ok vináttu; þá fór hon til Borgar ok fastaöi þar til járns ok bar járn fyrir mai þetta ok varö vel skir. En er þetta spurði Sigurör konungr, þá reið hann þat á einum degi, er miklar váru ii. dagleiðir, ok kom fram i Dali at Óláfs; var þar um nótt. Þá tók hann Borghildi frillutaki ok haföi hana brot meö sér; þeira sonr var Magnús; hann var brått brot sendr til fóstrs norÖr á Hålogaland i Bjarkey til Viökunnz Jóanssonar, ok fœddisk hann þar upp. Magnus var allra manna friöastr ok bråögçrr á vçxt ok afl.

K. 20. Kvánfang Siguröar konungs.

Sigurör konungr fekk Málmfríðar, dóttur Haraldz konungs Valdamarssonar austan ór Hólmgaröi. Móöir Haraldz konungs var Gyöa gamla drótning, dóttir Haraldz Engla-konungs

GuÖinasonar; móðir Málmfríðar var Kristin, dóttir Inga Svia-konungs Steinkelssonar. Systir Málmfríðar var Ingilborg, er átti Knútr lávarðr, sonr Eiriks góða Dana-konungs, sonar Sveins ülfssonar. Bçrn þeira Knuts ok Ingilborgar var Valdamarr, er konungdóm tók i Danmçrk eptir Svein Eiriksson, Margrét, Kristin ok Katrin. Margrétu átti Stigr hvitaleör; þeira dóttir Kristin, er åtti Karl Sørkvisson Svia-konungr; þeira sonr var Sørkvir konungr.

K. 21. Mannjafnaör konunga.

Eysteinn konungr ok Sigurör konungr váru einn vetr báðir á veizlu á Uplçndum, ok åtti sinn bæ hvárr þeira. En er skamt var milli þeira býja, er konungar skyldu veizlu taka, þá geröu menn þat ráð, at þeir skyldu vera báöir samt á veizlunum, ok sinu sinni at hvárs búum; váru þeir fyrst báöir samt at því búi, er Eysteinn konungr åtti. En um kveldit, er menn tóku at drekka, þá var mungát ekki gott, ok váru menn hljóöir. Þá mælti Eysteinn konungr: »þó eru menn hljóðir; hitt er çlsiör meiri, at menn geri sér gleði; fám oss çlteiti nçkkura; mun þá enn á rœtask um gaman manna. Sigurör bróðir, þat mun çllum sœmst þykkja, at vit hefim nçkkura skemtanarrœöu«. Sigurðr konungr svarar heldr stutt: »ver þú sva margr, sem þú vill, en lát mik ná at þegja fyrir þér«. Þá mælti Eysteinn konungr; »sá çlsiör hefir opt verit, at menn taka sér jafnaöarmenn; vil ek hér svá vera låta«. Þá þagði Sigurör konungr. »Sé ek, segir Eysteinn konungr, at ek verö hefja þessa teiti; mun ek taka þik, bróðir, til jafnaðarmannz mér. Foeri ek þat til, at jafnt nafn hçfum vit báÖir ok jafna eign; geri ek engi mun ættar okkarrar eöa upfœzlu«. På svarar Sigurör konungr: »mantu eigi þat, er ek braut þik á bak, ef ek vilda, ok vartu vetri ellri«. På segir Eysteinn konungr: »eigi man ek hitt siör, er þú fekt eigi leikit þat, er mjúkleikr var i«. Þá mælti Sigurör konungr: »mantu, hversu fór um sundit meö okr; ek mátta kefja þik, ef ek vilda«. Eysteinn konungr segir: »ekki svam ek skemra en þú, ok eigi var ek verr kafsyndr; ek kunna ok á isleggjum, svá at engan vissa ek þann, er þat kepöi viö mik, en þú kunnir þat eigi heldr en naut«. Sigurör konungr segir: »hçföingligri iþrótt ok nyt-samligri þykki mér sú at kunna vel á boga; ætla ek, at þú nýtir eigi boga minn, þóttu spyrnir fótum í«. Eysteinn svarar: »ekki em ek bogsterkr sem þú, en minna mun skil ja beinskeyti okra,

ok miklu kann ek betr á skíðum en þú, ok hafði þat verit enn fyrr kçlluö góð iþrótt«. Sigurör konungr segir: »þess þykkir mikill munr, at þat er hçföingligra, at så, er yfirmaör skal vera annarra manna, sé mikill i flokki, sterkr ok vápnfœrr betr en aörir menn ok auösær ok auðkendr, þá er flestir eru saman«. Eysteinn konungr segir: »eigi er þat siör einkanna hlutr, at maör sé friör, ok er så ok auökendr i mannfjçlöa; þykki mér þat ok hçföingligt, þvíat friÖleikinum sómir inn bezti búnaör; kann ek ok miklu betr til laga en þú, ok sva hvat sem vit skulum tala, em ek miklu sléttoröari«. Sigurör konungr segir: »vera kann, at þú hafir numit fleiri lçgprettu, þviat ek átta þá annat at starfa, en engi frýr þér sléttmælis, en hitt mæla margir, at þú sér eigi allfastorör ok litit mark sé, hverju þú heitr, mælir eptir þeim, er þá er hjå, ok er þat ekki konungligt«. Eysteinn konungr segir: »þat berr til þess, er menn bera mål sin fyrir mik, þá hygg ek at því fyrst, at lúka svá hvers mannz máli, at þeim mætti bezt þykkja; þá kømr ok opt annarr, så er mai á viö hann, ok verör þá opt dregit til at miöla, svá at báöum skyli lika. Hitt er ok opt, at ek heit því, sem ek em beöinn, þvíat ek vilda, at allir færi fegnir frá minum fundi. Sé ek hinn kost, ef ek vil hafa, sem þú gerir, at heita çllum illu, en engi heyri ek efndanna frýja«. Sigurör konungr segir: »þat hefir verit mål manna, at ferð sú, er ek fór ór landi, væri heldr hçföinglig, en þú sazt heima meöan sem dóttir fçöur þins«. Eysteinn konungr svarar: »nú greiptu á kýlinu; eigi mynda ek þessa ræöu vek ja, ef ek kynna hér engu svara;

nærr þótti hinu, at ek geröa þik heiman sem systur mina, áör þú yrðir búinn til feröar«. Sigurör konungr segir: »heyrt muntu hafa þat, at ek átta orrostur mjçk margar 1 Serklandi, er þú munt heyrt hafa getit, ok fekk ek i çllum sigr ok margs konar gørsimar, þær er eigi hafa slikar komit hingat til landz; þótta ek þar mest verör, er ek fann gçfgasta menn, en ek hygg, at eigi hafir þú enn hleypt heim-draganum«. Eysteinn konungr segir: »spurt hefi ek þat, at þú áttir orrostur nçkkurar útan landz, en nytsamligra var hitt landi váru, er ek geröa meöan v. kirkjur af grundvelli, ok geröa ek hçfn viö Agöanes, er áðr var øræfi ok hvers mannz fçr, þá er ferr norör eöa suör meö landi; ek geröa ok stçpulinn i Sinhólms-sundi ok hçllina i Bjçrgyn, meðan þú brytjaöir blåmenn fyrir fjándann á Serklandi; ætla ek þat litit gagn riki váru«. Sigurör konungr segir: »fór ek i ferð þeiri lengst ut til Jórðánar ok



IçgÖumk ek yfir ána; en út á bakkanum er kjarr nçkkut, en þar á kjarrinu reið ek knút ok mælta ek svá fyrir, at þú skyldir leysa, bróðir, eöa hafa elligar þvilíkan formåla, sem þar var á lagör«. Eysteinn konungr segir: »eigi mun ek leysa þann knút, er þú reitt mér, en riöa mátta ek þér þann knút, er miklu siör fengir þú leyst, þá er þú siglöir einskipa i her minn, þá er þú komt i land«. Eptir þat þpgnuÖu þeir báðir, ok var hvártveggi reiðr. Fleiri hlutir uröu þeir i skiptum þeira brœðra, er þat fanzk á, at hvárr dró sik fram ok sitt mål ok vildi hvárr vera çörum meiri, en helzk þó friðr milli þeira, meðan þeir lifðu.

K. 22. Frá kerlaugu.

Sigurör konungr var á Uplçndum at veizlu nçkkurri, en þar váru laugar gçrvar. En er konungr var i laug ok var tjaldat yfir kerit, þá þótti honum renna fiskr i lauginni hjá sér, ok þá sló á hann hlátri svá miklum, at þar fylgöi staöleysi, ok kom þat siöan mjçk optliga at honum. Ragnhildi, dóttur Magnús konungs berfcets, giptu þeir broeör hennar Haraldi kesju; hann var sonr Eiriks góöa Dana-konungs; váru synir þeira Magnús, Óláfr, Knútr, Haraldr.

K. 23. Skipsmið Eysteins konungs.

Eysteinn konungr lét gera skip mikit i Niðarósi; þat var gçrt at vexti ok meö hætti eptir því, sem Ormr inn langi hafði verit, er Óláfr Tryggvason hafði gera látit; var þar ok dreka-hçfuö á fram, en krókr á aptr ok hvártveggja gullbúit; skip var borömikit, en stafnarnir þóttu nçkkuru minni en bezt bæri. Hann lét ok gera þar i Niðarósi naust bæði sva stór, at afrek var i, ok gçr meö inum beztum fçngum ok smiöuö ágæta vel. Eysteinn konungr var á veizlu á Stim á Hüstçöum; hann fekk þar bráöasótt, þá er hann leiddi til bana; hann andaÖisk iiii. kálendás Septembris, ok var lik hans flutt norör til kaupangs, ok er hann þar jarðaör i Kristskirkju, ok er þat mål manna, at yfir enskis mannz liki haf i svá margr maör i Nóregi jamhryggr staöit sem Eysteins konungs, siöan er andaör var Magnús konungr, sonr Óláfs ins helga konungs. Eysteinn var konungr xx. vetr at Nóregi; en eptir andlát Eysteins konungs var Sigurör einn konungr i landi, meðan hann lifði.





K. 24. KristnuÖ Smålgnd.

Nikolas Dana-konungr, sonr Sveins ülfssonar, fekk siöan Margrétar, dóttur Inga, er fyrr hafði átt Magnus konungr berfoetr; hét sonr þeira Nikoláss Magnús inn sterki. Níkolás konungr sendi orö Sigurði konungi Jórsalafara ok baö hann veita sér liö ok styrk allan af sinu riki, at fara með Níkolási konungi austr fyrir Svia-veldi til Smålanda ok kristna þar fólk, þviat þeir, er þar byggðu, heldu ekki kristni, þótt sumir hefði við kristni tekit. Var i þann tima viöa i Svíaveldi mart fólk heiðit ok mart illa kristit, þviat þá váru nçkkurir þeir konungar, er kristni kçstuöu ok heldu upp blótum, svá sem gerði Blót-Sveinn eöa síðan Eirikr inn ársæli. Sigurðr konungr hét ferö sinni, ok gerðu konungar stefnulag sitt i Eyrarsundi. Siðan bauö Sigurör konungr almenningi út af çllum Nóregi, bæöi at HÖi ok at skipum. En er saman kom herr sá, þá hafði hann vel ccc. skipa. Nikolás konungr kom fyrr miklu til stefnunnar ok beiö þar lengi; þá kurruðu Danir illa ok segja, at Norömenn mundu ekki koma. Siöan rufu þeir leiöangrinn; fór konungr i brot ok allr herrinn. Siöan kom Sigurör konungr þar, ok likaöi

honum illa; heldu þá austr i Svimrar-ós ok áttu þar húsþing ok talaöi Sigurör konungr um lausyröi Níkoláss konungs, ok kom þat ásamt, at þeir skyldu nçkkut hervirki gera i landi hans fyrir þessar sakir. Þeir tóku upp þorp þat, er heitir Tumaþorp ok skamt liggr frá Lundi, ok heldu siöan austr til kaupbæjar þess, er heitir Kalmarnar, ok herjuöu þar ok svá á Smålçndum ok IçgÖu vistagjald á Smålçtnd xv. hundruö nauta, ok tóku Smálend-ingar viö kristni. Siöan vendir Sigurör konungr aptr herinum ok kom i sitt riki meö mçrgum storgørsimum ok fjárhlutum, er hann hafõi aflat i þeiri ferö, ok var þessi leiöangr kallaör Kalmarna-leiöangr. Þat var sumri fyrr en myrkr it mikla. Þenna einn leiöangr røri Sigurör konungr, meöan hann var konungr.

K. 25. Draumr Siguröar konungs.

Sigurör konungr var eitt hvert sinn at búi sinu, en um morgininn, þá er konungr var klæddr, var hann fámálugr ok ókátr, ok hræddusk vinir hans, at þá myndi enn at honum komit vanstillit. En ármaðrinn var vitr maör ok djartfr ok krafõi konung måls ok spurõi, ef hann hefõi nçkkut tiöenda spurt, þat



er svá væri mikit, at honum stœði fyrir gleöi, eða væri þat, at veizlan hugnaÖi honum eigi vel eöa nçkkurir þeir hlutir, er menn mætti ráöa bœtr á. Sigurör konungr segir, at engi hlutr heldi þar til, så er hann rceddi um — »en þat heldr til, segir hann, at ek hugsa draum þann, er fyrir mik bar i nótt«. »Herra, segir hann, góðr draumr skyldi så vera, en heyra vildim vér gjarna«. Konungr mælti: »ek þóttumk hér á Jaöri vera úti staddr ok så ek út i haf ok leit ek þar sorta mikinn ok var fçr i ok nálgaöisk hingat; þá sýndisk mér, sem þat væri mikit tré eitt, ok óöu limarnar uppi, en roetrnar i sjå. En er tréit kom at landi, þá braut þat ok rak brot trésins viöa um landit, bæöi um meginland ok úteyjar, sker ok strandir; ok þá gaf mér sýn, sva at ek þóttumk sjå um allan Nóreg it ýtra meö sjå ok sá ek i hver ja vik, at rekin váru brot af þessu tré, ok váru flest små, en sum stærri«. Þå segir ármaðrinn þat likast um þenna draum — at »þér sjálfir munuö bezt skipa, ok vildim vér gjarna heyra, at þér réðið«. Þá mælti konungr: »þat þykki mér likast, at vera myni fyrir tilkvámu nçkkurs mannz i land þetta, ok mun hann hér staöfestask ok hans afspringi myndi viöa dreifask um land þetta ok vera mjçk misstórt«.

K. 26. Haraldr gilli kom i Nóreg.

Hallkell húkr, sonr Jóans smjçrbalta, var lendr maör á Mæri; hann fór vestr um haf ok alt til Suöreyja; þar kom til fundar viö hann útan af Irlandi så maör, er hét Gillikristr ok sagöisk vera sonr Magnús konungs berfœts; móöir hans fylgöi honum ok sagöi, at hann hét Haraldr çöru nafni. Hallkell tók viö þessum mçnnum ok flutti meÖ sér til Nóregs, ok þegar á fund SigurÖar konungs meö Harald ok móður hans. Þau báru fram sitt ørendi fyrir konung. Sigurör konungr rœddi þetta mål fyrir hçföingjum, at hverr legöi til eptir sinu skaplyndi, en allir báöu hann sjálfan fyrir ráöa. Þá lét Sigurör konungr kalla til sin Harald ok segir honum sva, at hann vill eigi synja Haraldi, at hann fremi skirslu til faöernis sins, meö því at hann vill þat vera låta i festu, þó at honum berisk þat faöerni, er hann segir, at Haraldr skal eigi beiöask konungsdóms, meðan Sigurör konungr eöa Magnus konungsson lifir; ok fóru þessar festur fram meö svardçgum. Sigurör konungr segir, at Haraldr skyldi troöa slår til faöernis sér, en sú skirsla þótti heldr frek, þvíat hann skyldi þá skirslu fremja til faöernis en eigi til konung-





dóms, hann hafði áðr þar fyrir svarit. En Haraldr játti þessu. Hann fastaði til járns, ok var sú skirsla gçr, er mest hefir verit gçr i Nóregi, at ix. plógjárn glóandi váru niör lçgö, ok gekk Haraldr þar eptir berum fótum, ok leiddu hann byskupar ii. Ok iii. dçgum siöarr var skirslan reynd; váru þá foetr hans óbrunnir. Eptir þat tók Sigurör konungr vel viö frændsemi Haraldz; en Magnús, sonr hans, óþokkaðisk mjçk viö hann, ok margir hçföingjar snøru eptir honum. Sigurör konungr treystisk svá vinsælö sinni viö alt landzfólk, at hann beiddisk þess, at allir skyldu þat sverja, at Magnús, sonr Siguröar konungs, skyldi vera konungr eptir hann; ok fekk hann þá svardaga af çllu landzfólki.

K. 27. Veöjan Haraldz ok Magnus.

Haraldr gilli var maör hår ok grannvaxinn, hálslangr, heldr langleitr, svarteygr, døkkhårr, skjótligr ok fráligr, hafði mjçk búnaö irskan, stutt klæöi ok létt klæddr; stirt var honum norrænt mål, kylfÖi mjçk til orÖanna, ok hçföu margir menn þat mjçk at spotti. Haraldr sat i drykkju eitt sinn ok talaöi viÖ annan mann, sagði hann vestan af Irlandi; var þat i ræöu hans, at þeir menn váru á Irlandi, at svá váru fóthvatir, at engi heatr tók þá á skeiðí. Magnús konungsson hejyröi þétta ok mælti: »nú lýgr hann enn, sem hann er vanr«. Haraldr svarar: »satt er þetta, segir hann, at þeir menn munu fásk á írlandi, at engi hestr i Nóregi mun hlaupa um þá«. Rœddu þeir um nçkkurum oröum; þeir váru báöir druknir. Pá mælti Magnús, at — »hér skaltu veÖja fyrir hçföi þínu, ef þú renn eigi jafnhart sem ek rið hesti minum, en ek mun legg ja i móti gullhring minn«. Haraldr svarar: »ek segi ekki þat, at ek renna svá hart; finna mun ek þá menn á Irlandi, at sva munu renna, ok má ek veðja um þat«. Magnus konungsson svarar: »ekki mun ek fara til Irlandz; hér skulum vit veöja en ekki þar«. Haraldr gekk þá at sofa ok vildi ekki fieira viö hann eiga. Petta var i Óslo. En eptir um morgininn, þá er lokit var formessu, reið Magnús upp i gçtur; hann geröi orö Haraldi at koma þannug. En er hann kom, var hann svá búinn, hafði skyrtu ok ilbanda-brækr, stuttan mçttul, hçtt irskan á hçföi, spjótskapt i hendi. Magnús markaði skeiöit. Haraldr mælti: »oflangt ætlar þú skeiöit«. Magnús ætlaöi þegar miklu lengra ok segir, at þó var ofskamt. Mart var manna hjá. Þá tóku þeir skeiö fram, ok



fylgÖi hann jafnan boeginum. En er þeir kómu til skeiðsenda, mælti Magnús: »þú heldr i gagntak, ok dró hestrinn þik«. Magnús hafði gauzkan hest allskjótan. Peir tóku þá annat skeiö aptr, rann þá Haraldr alt skeiö fyrir hestinum. En er þeir kómu til skeiösenda, þá spurÖi Haraldr: »helt ek nú i gagntakit?« Magnús segir: »nú tóktu fyrri til«. På lét Magnus blåsa hestinn um hriö; en er hann var búinn, þá keyrir hann sporum hestinn ok kom hann skjótt á hlaup. Haraldr stóð þá kyrr. Pá leit Magnus aptr ok kallaði — »renn nú« segir hann. Pá hljóp Haraldr ok skjótt fram um hestinn ok langt frå fram ok svá til skeiösenda; kom hann miklu fyrr, svá at hann lagðisk niðr ok spratt upp ok heilsaöi Magnúsi, er hann kom. Siöan fóru þeir heim til bcejar; en Sigurör konungr hafði verit meöan at messu, ok vissi hann þetta eigi fyrr en eptir mat um daginn. På mælti hann reiöuliga til Magnús: »þér kalliö Harald heimskan, en mér þykkir þú fól; ekki kantu útanlandzsiöu manna; vissir þú þat eigi fyrr, at útanlandzmenn temja sik viö aörar iþróttir, en at kýla drykk eöa gera sik æran ok ófœran ok vita þá ekki til mannz; få Haraldi hring sinn ok apa hann aldri siöan, meöan mitt hçfuö er fyrir ofan mold«.

K. 28. Frá sundfçr.

På er Sigurör konungr var eitt sinn úti á skipum, ok lçgöu þeir i hçfn ok kaupskip nçkkut hjá þeim, Islandz-far. Haraldr gilli var i fyrirriimi á konungsskipi, en næst honum fram frá lá Sveinn Hrimhildarson; hann var sonr Knúts af Jaöri. Sigurör Siguröarson var lendr maör ágætr; hann stýrði þar skipi. Pat var einn fagran veördag — var heitt skin — fóru menn á sund margir bæöi af langskipum ok af kaupskipinu. Islenzkr maör einn, så er á sundi var, hendi gaman at þvi, at fcera niör þá menn, er verr váru syndir. Menn hlógu at þvi. Sigurör konungr så þat ok heyröi; siöan kastaöi hann af sér klæöum ok hleypr á sundit ok lagöisk at Islendingi, gripr hann ok fceröi i kaf ok helt niöri; ok þegar annat sinn, er Islendingr kom upp, færöi konungr hann niör ok hvert sinn eptir annat. På mælti Sigurör Siguröarson: »skulu vér konung låta deyöa manninn?«. MaÖr segir, at engi var allfúss til at fara. Sigurör mælti: »veröa myndi maör til, ef Dagr Eilifsson væri hér«. Sigurör hljóp siöan fyrir boröit ok lagöisk til konungs, tók til hans ok mælti: »týn eigi manninum: sjá nú allir. at þú ert miklu betr syndr«. Konungr



mælti: »låt mik lausan Sigurðr; ek skal bana honum; hann vill kefja menn vára«. Sigurðr svarar: »vit skulum nú leika fyrst, en þú, Islendingr, leita til landz«; hann geröi svá, en konungr lét Sigurðr lausan ok lagðisk til skips sins; svá fór ok SigurÖr.

En konungr mælti, bað Sigurö eigi veröa svá djarfan at koma i augsýn sér. Pat var sagt Sigurði ok gekk hann upp á land.

K. 29. Frå Haraldi ok Sveini Hrimildarsyni.

Um kveldit þá er menn fóru at sofa, léku sumir menn uppi á landi. Haraldr var i leikinum, en baÖ svein sinn fara út å skip ok búa hvilu sina ok biða sin þar. Sveinninn gerði svá. Konungr var sofa farinn. En er sveininum þótti lengjask, þá lagöisk hann upp i rúmit Haraldz. Sveinn Hrimhildarson mælti: »skçmm mikil er at fara til þess heiman frá búum sinum dugandis mçnnum, at draga hér knapa upp jafnhátt sér«. Sveinninn svarar, segir, at Haraldr visaði honum þangat. SveinnHrim-hildarson mælti: »oss þykkir engi ofgœðakostr i, at Haraldr iiggi hér, þótt hann dragi eigi hér þræla upp eöa stafkarla«, — ok gripr hann upp riövçl ok laust i hçfuö sveininum, svá at blóÖ feil um hann. Sveinninn hljóp þegar upp á land ok segir Haraldi, hvat i var oröit. Haraldr gekk þegar á skip upp ok aptr i fyrirrúmit; hann hjó með handøxi til Sveins ok veitti honum sår mikit a hendi; gekk Haraldr þegar á land upp. Sveinn hljóp upp á land eptir honum, drifu þá til frændr Sveins ok tóku Harald hçndum ok ætíuöu at hengja hann. En er þeir bjoggu þar um, þá gekk Sigurðr Sigurðarson út á skipit Sigurðar konungs ok vakði hann. En er konungr brå augum i sundr ok kendi Sigurð, mælti hann: »fyrir þetta sama skaltu deyja, er þu komt i augsýn mér, þvíat ek bannaða þér þat« — ok hljóp konungr upp. Sigurðr mælti: »kostr er þér þess, konungr, þegar þú vilt, en aðrar sýslur eru nú fyrst skyldri, far sem skjótast máttu upp á land ok hjálp Haraldi brœðr þínum; Rygir vilja nú hengja hann«. Þá mælti konungr: »guð gæti nú til; Sigurðr, kalla lúðrsveininn; lát blása liðinu upp eptir mér«. Konungr hljóp upp á land, en allir, er hann kendu, fylgðu honum ok þar til er gálginn var búinn; tók hann þegar Harald til sin ,en alt fólk þusti þegar til konungs með alvæpni, er lúðr hafði við kveðit. Þá segir konungr, at Sveinn ok allir hans félagar skyldu utlagir fara, en viö boen allra manna feksk þat af konungi, at þeir skyldu hafa landzvist ok eignir sinar, en sárit bótalaust. Þá spurði

Sigurör Siguröarson, ef konungr vildi, at hann fceri þá i brot. »Pat vil ek eigi, segir konungr, aldri má ek þin án vera«.

K. 30. Jartegn Óláfs konungs.

Kolbeinn hét maör, ungr ok fátœkr, en Póra, móðir Sigurðar konungs Jórsalafara, lét skera tungu ór hçföi honum, ok var til þess eigi meiri sçk, en så inn ungi maör Kolbeinn haföi etit stykki hálft af diski konungsmóÖur ok segir, at steikari haföi gefit honum, en hann þoröi eigi viÖ at ganga fyrir henni; siöan fór sá maör mállauss langa hriö; þess getr Einarr Skúlason i Óláfsdrápu:

203. Gçfug lét Hçrn ór hçfÖi þann sçum vér, es vçrum, Hvitings of sçk litla válaust numinn máli

auöar aumum beiöi hodda brjót, þars heitir

ungs manns skera tungu ; Hlíð, fóm vikum siöarr.

Hann sótti siöan til Prándheims ok til Niöaróss ok vaköi at Kristskirkju. En um ottusçng Ölåfsvçkudag inn siöarra, þá sofnaöi hann ok þóttisk sjá Óláf inn helga koma til sin ok taka hendi sinni i stúfinn tungunnar ok heimta; en er hann vaknaði, þá var hann heill ok þakkaði várum drótni feginsamliga ok Óláfi konungi, er hann hafði heilsu ok miskunn af þegit, haföi farit þagat áör mállauss ok sótti hans heilagt skrin, en þaðan fór hann heill ok skorinorÖr.

K. 31. Jartegn öláfs konungs.

Ungan mann nçkkurn danskan at øöli tóku heiönir menn ok fluttu til Vindlandz ok hçföu þar i bçndum meö çörum herteknum mçnnum. Nú var hann um daga i járni einn saman varÖveizlulauss, en um nætr þá var sonr bónda i fjçtri meö honum, at hann hloepisk eigi frá honum. En så aumi maör beiö aldri svefn né ró fyrir harms sakir ok sorga; hugleiddi marga vega, hvat til hjálpar væri, kviddi mjçk ánauð ok hræddisk bæöi sult ok pislir ok vænti engrar aptrlausnar af frændum sinum, fyrir því at þeir hçföu tvisvar sinnum áör leystan hann af heiÖnum lçndum meö fjárhlut, ok þóttisk hann því vita, at þeim myndi þá þykkja bæöi mikit fyrir því ok kostnaöarsamt, at ganga undir it iii. sinn. Vel hefir så maör er eigi biör slikt ilt þessa heims, sem hann þóttisk þá beðit hafa. Nú gerðisk honum engi annarr til en hlaupask i brot ok komask undan, ef þess verör auöit. Pvi næst ræör hann til á náttarþeli ok drepr son bónda,

høggr af honum fótinn ok stefnir svá til skógar með fjçtri undan. En um morgininn eptir, er lýsti, þá verÖa þeir varir viö ok fara eptir honum með hundum ii., er því váru vanir, at spyrja þá upp, er undan hljópusk, finna hann i skógi, þar sem hann lá ok leyndisk fyrir þeim. Nú taka þeir hann hçndum ok berja ok beysta ok leika allz konar illa. Siöan draga þeir hann, ljå honum lifs at hváru nauöula ok engrar annarrar miskunnar, draga hann til pisla ok settu hann þegar i myrkvastofu, þar er fyrir váru áðr inni xvi. allir kristnir menn, bundu hann þar bæði í járnum ok çörum bçndum, sem fastast máttu þeir. Sva þótti honum vesçlö ok pislir þær, er fyrr hafôi hann haft, sem þat væri skuggi nçkkurr þess allz ins illa, er fyrr hafôi hann haft. Engi maör så hann augum i þessi prisund, så ér honum bæöi miskunnar; engum manni þótti aumligt um þann vesaling nema kristnum mçnnum, er þar lágu bundnir meö honum; þeir hçrmuöu ok grétu hans mein ok sina nauö ok ógæfu. Ok um dag nçkkurn lçgöu þeir ráö fyrir hann, báöu, at hann hétisk inum helga Óláfi konungi ok gæfisk til embættismannz ok hans dýröarhúsi, ef hann kvæmisk meö guðs miskunn ok hans bœnum ór þeiri prisund. Nú játaöi hann því feginn ok gafsk þegar til þess staöar, sem þeir báöu hann. Nóttina eptir þá þóttisk hann sjá í svefni mann einn ekki hávan standa þar it næsta sér ok mæla viö sik á þá leiö: »heyrðu, inn aumi maör, segir hann, hvi ristu eigi upp?«. Hann segir: »lávarör minn, hvat manna ertu?« segir hann. »Ek em Óláfr konungr, er þú kallaöir á«. »Ó hó, lávarör minn góör, segir hann, ek vilda feginn upp risa, ef ek mætta, en ek ligg járnum bundinn ok þó i fjçtri meö þeim mçnnum, er hér sitja bundnir«. Siöan heitr hann á hann ok kveðr svá at oröum: »stattu upp skjótt, ok æörask ekki um, vist ertu nú lauss«. Pvi næst vaknaöi hann ok segir þá sinum félçgum, hvat fyrir hann hafôi borit. Siöan báðu þeir hann upp standa ok freista, ef satt væri. Upp stendr hann ok kendi, at hann var lauss. Nú segja félagar hans aörir ok kváöu þat honum fyrir ekki koma mundu, þvíat hurö var læst útan ok innan. På lagöi orö til gamall maör, er þar sat, meinliga haldinn, ok baÖ hann ekki tortryggva þessa mannz miskunn, er hann hafôi lausn af fengit, segir ok svá, at — »því mun hann jartegn viö þik gçrt hafa, at þú skylir hans miskunnar njóta ok heöan lauss veröa, en eigi þér til meiri vesalöar ok pisla; nú lát viö fimt, segir hann, ok leita dura, ok ef þú mátt út komask, þá ertu hólpinn«.



Sva geröi hann, fiör dyrnar þegar opnar, støkkr út jamskjótt ok brot í skóginn. Pegar þeir urðu varir þessa, þá slógu þeir hundum sinum ok fóru eptir sem snúöuligast, en hann liggr ok leynisk ok sér gçrla, vesall karl, hvar þeir fara eptir honum. Nú villask hundar þegar farsins, er þeir liöu at honum, en þeim çllum viltisk sýnin, svá at engi maðr mátti finna hann, ok lå hann þar fyrir fótum þeim; vendu þeir þá heim aptr þaöan ok veinuöu mjçk ok hçrmuöu, er þeir máttu eigi fá staöit hann. Óláfr konungr lét honum ekki tortima, er hann var til skogår kominn, gaf honum heyrn ok heilsu alla, er þeir hçföu áör barit hçfuö alt á honum ok knosat, til þess er hann deyfði. Pvi næst komsk hann á skip meö kristnum mçnnum tveim, þeim er lengi hçföu þar verit pindir, ok neyttu þá allir saman þess farskostar sem ákafast ok fluttusk þá áleiöis af þeim hlaupstigi. Siöan sótti hann til þess helga, mannz húss; var þá heill orÖinn ok herfœrr. Pá iðraöisk hann sinna heita, gekk á orð sin viö þann milda konung ok hljópsk þá á brot um dag ok kom at kveldi til bónda eins, þess er honum veitti herbergi fyrir guös sakir. Siöan um nóttina, er hann var i svefni, så hann meyjar iii. ganga til sin, friöar ok fagrbúnar, ok ortu oröa á hann þegar ok bçröu hann miklum ávítum, er hann skyldi svá djarfr gerask, at hlaupa fra þeim góða konungi, er honum hafôi sva mikla miskunn veitt, fyrst er hann leysti hann ór járnum ok allri prisund, ok firrask þann ljúfa lávarö, er hann hafði á hçnd gengit. Pvi næst vaknaði hann felmsfullr ok stóÖ upp þegar árdegis ok sagði húsbóanda; en sá góöi bóandi lét hann engu çöru viö koma, en venda heim aptr til þess helga staöar. Sá maör ritaÖi at uphafi þessa j artegn, er sjálfr sá manninn ok á honum járnastaÖinn.

K. 32. Efldr kaupstaör i Konungahellu.

Sigurör konungr lét svá mjçk efla kaupstaöinn i Konungahellu, at þá varö engi rikari i Nóregi, ok sat þar lçngum til landzgæzlu; hann lét húsa konungsgarö i kastalanum; hann lagöi á çll heruö, þau er i nánd váru kaupstaöinum, ok sva á býjar-mennina, at á hverjum xii. mánuðum skyldi hverr maör ix. vetra gamall eöa ellri bera til kastalans v. vápnsteina eöa aöra v. staura, ok skyldi þá gera hvassa i annan enda ok v. álna håva. Par i

kastalanum lét Sigurör konungr gera krosskirkju; hon var tré-kirkja ok mjçk vçnduö at efnum ok smiö. På er Sigurör hafői verit konungr xxiiii. vetr, var vigö krosskirkja. Þá lét konungrþar vera kross inn helga ok marga aðra helga dóma. Sú var kçlluö Kastalakirkja. Par setti hann fyrir altári tábolu, er hann hafői gera látit i Griklandi; hon var gç>r af eirr ok silfri ok gyld fagrliga, sett smeltum ok gimsteinum. Par var skrin, er Eirikr eimuni Dana-konungr hafői sent Sigurői konungi, ok plénáríús, ritinn gullstçfum, er pátriarki gaf Sigurői konungi.

K. 33. Andlát Siguröar konungs.

Primr vetrum siðarr en Krosskirkja var vigö, fekk Sigurör konungr sótt; þá var hann staddr i Óslo; hann andaðisk þar einni nótt eptir Máríumessu i fçstu; hann var jaröaör at Hall-varðzkirkju, lagðr i steinvegginn útar frá kórinum inum syÖra megin. Magnús, sonr Siguröar konungs, var þar þá i býnum; tók hann þar þegar allar konungs féhirzlur, er Sigurör konungr andaöisk. Sigurör var konungr yfir Nóregi xxvii. vetr; hann var at aldri xl., ok var hans ç>ld góð landzfólkinu, var þá bæði ár ok friðr.

*

# Uphaf Magnús blinda.

K. i.

Magnús, sonr Sigurðar konungs, var tekinn til konungs i ösló yfir land alt, svá sem alþýða hafði svarit Sigurői konungi. Gerðusk þá þegar margir menn handgengnir ok svá lendir menn. Magnús var hverjum manni friöari, er þá var i Nóregi; hann var maðr skapstórr ok grimmr, atgørvimaör var hann mikill, en vinsælö fçöur hans heimti hann mest til alþýðu vináttu. Hann var drykkjumaðr mikill, fégjarn, óþýör ok ódæll. Haraldr gilli var maðr léttlátr, kátr, leikinn, litillátr, çrr, svá at hann sparöi ekki við vini sina, ráöþægr, svá at hann lét aðra ráða meö sér çllu því, er vildu. Slikt alt dró honum til vinsælða ok orölofs; þýddusk hann þá margir rikismenn engum mun siör en Magnús. Haraldr var þá iTúnsbergi, er hann spurði andlát Siguröar konungs bróður sins. Åtti hann þá þegar stefnur við vini sina, ok réðu þeir þat af, at eiga Haugaþing þar i býnum. Á því þingi var Haraldr til konungs tekinn yfir hálft land; váru þá kallaðir þat nauðungareiðar, er hann hafði svarit fçöurleifö sina af hendi sér. Tók Haraldr sér hirð ok geröi lenda menn, drósk honum brátt liö engum mun minna en Magnúsi konungi. Fóru þá menn i milli þeira, ok stóð svá vii. nætr. En fyrir því at Magnus fekk liö miklu minna, þá sá hann engan annan sinn kost en skipta landi viö Harald. Var þá sva skipt, at hálft riki skyldi hvárr þeira hafa viö annan, þat er Sigurör konungr hafői haft, en skip ok borðbúnaö ok gørsimar ok alt lausafé, þat er Sigurör konungr hafői átt, hafői Magnús konungr, ok unöi hann þó verr sinum hluta, ok réöu þó landi nçkkura hriö i friöi, ok hugöu þó mjçk sér hvárir. Haraldr konungr gat son, er Sigurör hét, viö dóttur Guthorms grábaröa. Haraldr konungr fekk Ingiriöar, dóttur Rçgnvaldz; hann var sonr Inga konungs Steinkelssonar. Magnús konungr åtti Kristin, dóttur Knúts lávaröar, systur 

Valdimars Dana-konungs. Magnús varö henni ekki unnandi ok sendi hana aptr suör til Danmerkr, ok gekk honum alt siöan þyngra; fekk hann óþokka mikinn af frændum hennar.

K. 2. Frå her Haraldz konungs ok Magnús konungs.

Þá er þeir hçföu konungar verit iii. vetr Magnus konungr ok Haraldr konungr, sátu þeir inn iiii. vetr báöir norör i kaupangi, ok veitti hvárr çörum heimboð, ok var þó æ viö bardaga búit meö liÖinu. En at vári sœkir Magnús konungr meÖ skipaliöi suör fyrir land ok dró liö at sér alt, þat er hann fekk; leitar þá þess viö vini sina, ef þeir vildi få hanum styrk til þess, at taka Harald af konungdóminum ok miöla honum slikt af riki, sem honum sýndisk, tjár þat fyrir þeim, at Haraldr hafői svarit riki af hendi sér. Fekk Magnus konungr til þess samþykki margra rikismanna. Haraldr fór til Uplanda ok it øfra austr til Vikr; dró hann ok liö at sér, þá er hann spuröi til Magnús konungs; ok hvar sem þeir fóru, hjoggu hvárir bli fyrir çörum, ok sva drápusk þeif menn fyrir. Magnús konungr var miklu fjçlmennari, þviat hann hafői allan þora landz til liösamnaöar. Haraldr var i Vik austan

fjarÖar ok dró at sér liö, ok tók þá hvárr fyrir çörum bæöi menn ok fé. Par var þá meö Haraldi Kristrøör, bróðir hans sammceöri, ok lendir menn váru margir meö honum, ok þó miklu fleiri meö Magnúsi konungi. Haraldr konungr var meö sitt liö, þar sem heitir Fors á Ránríki, ok fór þaöan ut til sjávar. Låfranzvçkuaptan mçtuöusk þeir at náttveröi, þar sem heitir Fyrileif; en varömenn váru á hestum ok heldu hestvçrö alla vega frá bœnum; ok þá veröa varömenn varir viö liö Magnús konungs, at þeir fóru þá at bœnum; ok hafði Magnús lx. hundraða manna, en Haraldr hafði xv. hundruö manna. Þá kómu varömenn ok báru njósn Haraldi konungi ok segja, at liö Magnus konungs var þá komit at bænum. Haraldr svarar: »hvat mun Magnus konungr frændi vilja?; eigi mun þat, at hann myni vilja berjask viö oss«. Þå segir Þjóstólfr Álason: »herra, sva munuö þér veröa gera ráö fyrir yör ok liöi yöru, sem Magnus konungr myni hafa til þess her saman dregit i alt sumar, at hann myni ætla at berjask, þegar er hann finnr yör«. Þá stóö konungr upp ok mælti viö sina menn, bað þá taka vápn sin, — »ef Magnus vill berjask, þá skulum vér ok berjask«. Þar næst var blásit, ok gekk liö Haraldz konungs alt út frá bvnum i akrgerÖi nçkkut ok settu þar upp merki sin. Haraldr



konungr hafði ii. hr ingabryn jur, en Kristrøör, bróðir hans, hafði enga brynju, er kallaÖr var inn hraustasti maör. Þå er Magnús konungr ok hans menn sá liö Haraldz konungs, þá fylköu þeir sinu liöi ok gerðu svá langa fylkingina, at þeir skyldu kringja alt um liö Haraldz konungs; svá segir Haldórr skvaldri:

204. Magnús fekk þar miklu, (valr nam vçll at hylja margs gengis naut, lengri varmr) fylkingar arma.

K. 3. Orrosta á Fyrileif.

Magnus konungr lét bera fyrir sér krossinn helga i orrostu; \arö þar orrosta mikil ok hçrö. Kristrøör konungsbróðir hafði gengit meö sina sveit i miöja fylking Magnús konungs ok hjó til beggja handa, ok stukku fyrir honum menn tvá vega. Ok einn hverr búandi rikr, så er verit hafði i liöi Haraldz konungs, var staddr á bak Kristrøöi; hann reiddi upp kesjuna tveim hçndum, lagöi i gçgnum heröarnar ok kom fram i brjóstit, ok feil Kristrøör þar. Þá mæltu margir, er hjá stóðu, hvi hann gerði þetta it illa verk. Hann segir: »nú veit hann þat, er þeir hjoggu bú mitt i sumar ok tóku alt, þat er heima var, en hçföu mik nauðgan i her meö sér; slikt hugöa ek honum fyrr, ef ek fenga fçng á«. Eptir þat kom flótti i liö Haraldz konungs, ok flýöi hann sjálfr ok alt liö hans. Þå var fallit mart af liöi Haraldz konungs; þar fekk banasár Ingimarr af Aski Sveinsson, lendr maör ór liöi Haraldz konungs, ok nær lx. hirömanna. Haraldr konungr flýÖi þá austr i Vik til skipa sinna ok fór siöan til Danmerkr á fund Eiriks konungs eimuna ok sótti hann at trausti; þeir funnusk suör á Sjálandi. Eirikr konungr tók vel viö honum ok mest fyrir því, at þeir hçföu svarizk i bræöralag; hann veitti Haraldi at veizlu ok yfirferö Halland ok gaf honum viii. langskip reiöalaus. Eptir þat fór Haraldr konungr norör um Halland ok þá kom liö til hans. Magnús konungr lagöi land alt undir sik eptir orrostu þessa; griö gaf hann çllum monnum er sárir váru, ok lét groeöa sem sina menn ok kallaöi sér þá land alt; hann hafði þá alt it bezta mannval, er i var landinu. En er þeir réöu ráðum sinum, þá vildi Sigurör Siguröarson ok Þórir Ingiriöarson ok allir inir vitrustu menn, at þeir heldi flokkinum i Vikinni ok biöi þar, ef Haraldr kvæmi sunnan. Magnús konungr tók hitt meö einræöi sinu, at hann fór norör til Bjçrg-ynjar ok settisk þar um vetrinn, en lét liö fara frå sér, en lenda menn til búa sinna.



K. 4. Dauði Ásbjarnar ok Nereiös.

Haraldr konungr kom til Konungahellu meö liði því, er honum hafði fylgt ór Danmçrk. Þá hçföu þeir þar samnað fyrir, lendir menn ok býjarmenn, ok settu fylking upp frá býnum; en Haraldr konungr gekk upp frå skipum sinum ok gerði menn til bóndaliðs ok beiddi af þeim, at þeir verði honum eigi vigi land sitt, ok lézk eigi mundu meira beiöask en hann åtti at réttu at hafa, ok fóru menn milli. Um síðir gáfu bændr upp samnaöinn ok gengu til handa Haraldi konungi; þá gaf Haraldr til liös sér lén ok veizlur lendum mçnnum, en réttarbœtr bóndum þeim, er i liö snørusk meÖ honum. Eptir þat samnaðisk mikit fólk til Haraldz konungs; fór hann austan um Vikina ok gaf góðan frið çllum mçnnum nema mçnnum Magnus konungs; þá lét hann ræna eöa drepa, hvar sem hann stóð þá. Ok þá er hann kom austan t:il Sarpsborgas, ok tók þar ii. lenda menn Magnús konungs, Asbjçrn ok

Nereið, bróður hans, ok bauð þeim kost at annan skyldi hengja, en çörum steypa i forsinn Sarp, ok baö þá sjálfa kjósask at; Asbjçrn kaus at fara i Sarp, þvíat hann var ellri, en sá þótti dauðinn enn grimmligri, ok var svá gçrt; þess getr Haldórr skvaldri:

205. Asbjçrn varö, sås oröum Nereiö lét gramr á grimman illa helt viö stilli, grandmeiö Sigars fjanda,

(gramr fæöir val viöa húsþinga galt, hengja,

vigs) i Sarp at stiga; hrannbáls glçtuör måla.

Eptir þat fór Haraldr konungr norör til Túnsbergs, ok var þar vel viÖ honum tekit; samnaöisk þar ok til hans herr mikill.

K. 5. Råöagørö.

Magnus konungr sat i Bjçrgyn ok spuröi þessi tiöendi. Þå lét hann kalla á tal viö sik hçföingja þá, er váru i býnum, ok spuröi ráös, hvernug meö skyldi fara. Þá segir SigurÖr Sigurö-arson: »hér kann ek gott ráð til leggja; láti þér skipa skútu meö góðum drengjum ok fá til at stýra mik eöa annan lendan mann, at fara á fund Haraldz konungs, frænda þíns, at bjóða honum sættir, eptir því sem rétlátir menn gera i milli ykkar, þeir sem eru i landinu, ok þat at hann skal hafa riki hálft viö yör; ok þykki mér likligt meö orÖafulltingi gööra manna, at Haraldr konungr þekkisk þetta boö ok veröi þá sætt milli yöar«> Þå segir Magnus konungr: »ek vil ok eigr þenna kost, eöa hvat



stoðar þá þat, er vér unnum alt rikit undir oss i haust, ef vér skulum nú miðla hálft rikit — ok gefiö þar til annat ráö«. Þá segir Sigurör SigurÖarson: »svá sýnisk mér, sem lendir menn þínir setisk nú heima ok vili eigi koma til þín, þeir er i haust báöu þik heimleyfis; geröir þú þá mjçk móti mínum ráðum, er þú dreifðir þá svá mjçk því fjçlmenni, er vér hçföum, þviat ek þóttumk vita, at þeir Haraldr mundu leita aptr i Vikina, þegar er þeir spyröi, at þar væri hçföingjalaust. Nu er til annat ráð, ok er þat ilt, ok kann þó vera at hlýði; ger til gesti þína ok annat liö meö þeim, låt fara heim at þeim lendum mçnnum ok drepa þá, er nú vilja eigi viö skipask nauðsyn þína, en gef eignir þeira þeim nçkkurum, er yör eru øruggir, þótt áör sé eigi mikils veröir; lát þá keyra upp fólkit, hafiö eigi siör illa menn en gööa; fariö siöan austr i móti Haraldi meö því liöi, er þér fáiö, ok berizk«. Konungr segir: »óvinsælt mun þat veröa at låta drepa mart stórmenni, en hefja upp litilmenni; hafa þeir opt eigi siör brugöizk, en verr skipat landit; vil ek enn heyra fleiri ráð þín«. Sigurör svarar: »vandask mér nú råöagøröirnar, er þú vill eigi sættask ok eigi berjask; fçru vér þá norör til Prándheims, þannug sem landzmeginit er mest fyrir oss, ok tçkum liö þat alt um leiö, er vér fám ; kann þá vera, at þeim Elfargrimum leiöisk at rekask eptir oss«. Konungr svarar: »ekki vil ek flýja fyrir þeim, er vér eltum i sumar — ok ráö mér betra ráö«. Þá stóö Sigurör upp ok bjósk braut at ganga ok mælti: »ek skal þá ráða þér þat ráö, er ek sé, at þú vill hafa ok framgengt mun veröa; sit hér i Bjçrgyn, þar til er Haraldr kømr meö múga hers, ok munuö þér annat hvárt veröa þola bana eöa skçmm« — ok var Sigurör ekki lengr á þessu tali.

K. 6. Frá liöi Haraldz konungs.

Haraldr konungr fór austan meö landi ok haföi allmikinn her. Var þessi vetr kallaör múgavetr. Haraldr kom til Bjçrg-ynjar jólaaptan ok lagöi liöinu i Flóruvága ok vildi eigi berjask um jólin fyrir helgi sakir; en Magnús konungr lét búask viö i býnum; hann lét reisa valslçngu út i Hólmi ok hann lét gera járnrekendr ok sumt af viöum ok leggja um þveran váginn yfir frá konungsgaröi; hann lét slå herspora ok kasta yfir á Jóans-vçllu, ok eigi meirr en iii. daga var heilagt haldit um jólin, at eigi væri smiöat. En affaradag jólanna þá lét Haraldr konungr



blåsa til brautlçgu liðinu; dcccc. manna hçföu samnazk til Haraldz konungs um jólin.

K. 7. Tekinn Magnús konungr.

Haraldr konungr hét á inn helga óláf konung til sigrs sér, at låta Óláfskirkju gera þar i býnum meö sinum eins kostnaði. Magnús konungr setti fylking sina út i Kristskirkjugarði, en Haraldr røri fyrst at Norönesi; en er þeir Magnus konungr så þat, snøru þeir inn i býinn ok inn í vágsbotn. En er þeir fóru inn um stræti, þá hljópu margir býjarmenn inn i garða ok til heimilis sins, en þeir, er yfir gengu á vçlluna, hljópu á hersporana. Pá sá þeir Magnús, at Haraldr hafõi róit çllu liðinu yfir i Hegravik ok gengu þar upp á bakka fyrir ofan býinn; þá snørisk Magnús konungr út eptir stræti; flýði þá liðit frá honum, sumt i fjallit upp, sumt upp um Nunnusetr, sumt í kirkjur eöa falsk i çörum stçöum. Magnus gekk út á skip sitt, en þeim var engi kostr i brot at fara, þar er járnrekendr gættu fyrir útan; fylgÖi ok fått manna konungi, váru þeir fyrir því til enkis fœrir; svá segir Einarr Skúlason i Haraldzdrápu: 206. Luku vág viku, brúns, Bjçrgynjar,

vara kostr fara braut hås skrautum.

Litlu siðarr kómu menn Haraldz konungs út á skipin; var þá handtekinn Magnús konungr; en hann sat aptr i fyrirrúmi á hásætiskistu ok með honum Håkon faukr, móðurbróðir hans, inn vænsti maör ok kallaör eigi vitr, ok Ivarr Qzurarson ok margir aðrir vinir hans váru þá handteknir, en sumir þegar drepnir.

K. 8. Dauöi Reinaldz byskups.

Haraldr konungr åtti þá stefnur viö ráðuneyti sitt ok beiddi þá råöagøröar meö sér, ok at lyköum þeirar stefnu fengusk þeir órskuröir, at taka Magnus sva frå riki, at hann mætti eigi kallask konungr þaöan i frå. Var hann þá seldr i hendr konungs þrælum, en þeir veittu honum meizlur, stungu út augu hans ok hjoggu af annan fot, en síðarst var hann geldr. Ivarr Qzurarson var blindaör, Håkon faukr var drepinn. Eptir þetta lagöisk land alt undir riki Haraldz konungs. Gerðisk þá mjçk eptir leitat, hverir mestir hçföu verit vinir Magnús konungs eöai hverir mest mundu vita féhirzlur hans eöa gørsimar. Krossinn helga hafõi Magnus haft meö sér, síðan er Fyrileifar orrosta

hafõi verit, ok vildi hann ekki til segja, hvar þá var kominn. Reinaldr byskup i Stafangri var enskr ok fégjarn mjçk kallaÖr; hann var kærr vinr Magnus konungs, ok þótti mçnnum þat likligt, at honum myndi fengin til varÖveizlu stórfé ok dýrgripir; váru menn sendir eptir honum ok kom hann til Bjçrgynjar; váru þá kenzl þessi borin á hendr honum, en hann synjaöi ok bauð skirslur fyrir. Haraldr vildi ekki þat; hann lagði á byskup at gjalda sér xv. merkr gullz. Byskup segir, at hann vill eigi svá vesla stað sinn,vill heldr hætta lifi sinu. Siðan hengðu þeir Reinald byskup út i Hólmi viö valslçnguna; en er hann gekk til gálgans, hristi hann bótann af fæti sér ok mælti ok sór um: »eigi veit ek meira fé Magnus konungs, en þat sem þar er i bótanum«. Par var i einn gullhringr. Byskup var jaröaör i Norönesi at Mikjálskirkju, ok var þetta verk mjçk lastat. Siöan var Haraldr einn konungr yfir Nóregi, meðan hann lifõi.

K. 9. Undr i Konungahellu.

Fimm vetrum eptir andlát Siguröar konungs uröu tiöendi mikil i Konungahellu. Peir váru þar þá sýslumenn Gothormr, sonr Haraldz flettis, ok Sæmundr húsfreyja. Hann åtti Ingi-bjçrgu, dóttur Andréás prests Brúnssonar; þeira synir Páll flipr ok Gunni fiss. Ásmundr hét sonr Sæmundar laungetinn. Andréás Brúnsson var mikill merkismaör; hann sçng at Kross-kirkju; Solveig hét kona hans. Meö þeim var þá at fóstri ok upfæzlu Joan Loptsson ok var xi. vetra gamall. Loptr prestr Sæmundarson, faÖir Jóans, var ok þar. Dóttir Andréás prests ok Solveigar hét Helga, er Einarr åtti. Pat barsk at i Konungahellu dróttinsnótt ina næstu eptir páskaviku, at gnýr varö mikill úti á strætum um allan býinn, sem þá er konungr fór meö alla hirö sina, ok hundar létu svá illa, at eigi mátti varöveita, ok brutusk út; en allir, er út kómu, urÖu galnir ok bitu alt þat, er 3° fyrir varö, menn ok fénaö; en alt þat, er bitit var ok blóöit kom á, þá œrÖisk, ok alt þat, er hafanda var, lét burð sinn ok oeröisk. Pessi minning var náliga hver ja nótt frá páskum til upstigningar-dags. Menninir óttuðusk mjçk undr þessi ok réöusk margir i brot ok seldu garöa sina, fóru i heraö eöa i aðra kaupstaÖi, ok þótti þeim çllum þat mest vert, er vitrastir váru, ok hræddusk þat, sem var, at þetta myndi vera fyrir miklum stórtíöendum, þeim er þá váru enn eigi fram komin. En Andréás prestr talaði þá langt ok sn j alt hvitsunnudag ok veik hann s vå til lyköa

rœðu sinni, at hann rœddi um vanda bæjarmanna ok bab menn herða hugi sina ok eyba eigi þann inn dýrliga stab, hafa heldr gæzlu yfir sér ok ætla råb sin ok gaeta sin vib çllu þvi, er vib mætti komask, vib eldi ok ófribi ok bibja sér miskunnar til gubs.

- K. io. L^phaf orrostu i Konungahellu.

Ór býnum bjoggusk xiii. byrbingar ok ætlubu til Bjçrgynjar ok týndusk xi. meb mçnnum ok fé ok çllu því, er á var, en inn xii. braut, ok heldusk menninir, en féit týndisk. Pá fór Loptr prestr til Bjçrgynjar ok helt hann heilu. Låfranzvçkudag týndusk byrbingarnir. Eirikr Dana-konungr ok Qzurr erki-byskup sendu orb bábir til Konungahellu ok bábu þá varask um stabi sina, sçgbu, at Vinbr hçfbu uti her mikinn ok herjubu viba á kristna menn ok hçfbu jafnan sigr. Býjarmenn lçgbu oflitinn hug á sitt mål, afrækbusk ok ómintusk þess at meirr, er lengra leib frá þeiri ógn, er yfir hafbi komit. Låfranzvçkudag, þá er talat var fyrir hámessu, kom Réttiburr Yinba-kor.ungr til Konungahellu ok hafbi hálft sétta hundrab Vinba snekkjur, en á hverri snekkju váru menn xl. ok iiii. menn ok ii. hestar. Dúnímiz hét systurson konungs, en üniburr hét hçfbingi einn, er réb fyrir miklu libi. Peir ii. hçfbingjar røru upp meb herinum sumum eystri kvisl um Hising ok kómu svá ofan at býnum, en sumu libinu lçgbu þeir upp vestri kvisl til býjarins. Peir lçgbu at landi út vib stikin ok létu þar upp hestalibit ok ribu þar um Bratsås ok svá upp um býinn. Einarr Andréás-mágr bar þessi tibendi upp til Kastalakirkju, þviat þar var býjarlýbrinn ok hafbi sótt til hámessu, ok kom Einarr þá er Andréás prestr talabi. Einarr segir mçnnum, at herr fór at bænum meb fjçlba skipa, en sumt libit reib ofan um Bratsás. Pá mæltu margir, at þar myndi vera Eirikr Dana-konungr, ok væntu menn sér griba af honum. Pá hljóp fólkit alt ofan i býinn til fjár sins ok vápnubusk ok gekk ofan á bryggjur, sá þá þegar, at ófribr var ok óflýjandi herr. Austrfararskip ix. flutu i ánni fyrir bryggjum, er kaupmenn áttu. Yinbr lçgbu þar fyrst at ok bçrbusk vib kaupmennina. Kaupmenn vápnubusk ok vçrbusk lengi vel ok drengiliga; varb þar orrosta hçrb, ábr kaupmenn yrbi unnir. I þeiri hrib létu Yinbr hálft annat c. skipa at çllu libi. På er bardaginn var sem mestr, stóbu bœjarmenn á bryggjum ok skutu á heibingja; en er orrosta rénaói, flýbu býjarmenn upp i boeinn ok siban til kastala alt fólk, ok hçfbu



menn meö sér dýrgripi sina ok alt fé þat, er meö mátti komask. Solveig ok dætr hennar ok ii. konur aörar gengu upp á land. På er Vinör hçföu kaupskipin unnit, gengu þeir á land ok kçnnuöu liö sitt, ok birtisk þá skaöi þeira; hljópu þeir sumir i býinn, sumir á kaupskipin, ok tóku fé alt, þat er þeir vildu meö sér hafa. Pvi næst lçgöu þeir eld i býinn ok brendu hann allan ok sva skipin. Eptir þat sóttu þeir çllu liöinu at kastala ok skipuöu til atsóknar.

K. 11. Orrosta çnnur.

Réttiburr konungr lét bjóða þeim, er i kastalanum váru, at ganga ut ok hafa lifsgriö meö vápnum ok klæöum ok gulli; gçrvallir æpöu at móti ok gengu út á borgina, sumir skutu, sumir grýttu, sumir skutu staurum, ok varö þá mikil orrosta; feil þá af hvárum tveggjum ok miklu fieira af Vinöum. Solveig kom upp á Sólbjargir ok segir þar tiÖendin. På var skorin herçr ok send til Skúrbága; þar var samburöarçl nçkkut ok mart manna. Par var sá bóndi, er Qlvir hét miklimunnr; þá hljóp hann upp þegar ok tók skjçld ok hjálm ok mikla øxi i hçnd sér ok mælti: »stçndum upp, góöir drengir, ok takiö vápn yöur ok fçrum til liöveizlu viö bvjarmenn, þviat þat mun skçmm þykkja hverjum manni, er þat spyrr, at vér sitjum hér ok kylum çl, en góöir drengir skulu leggja lif sitt i hættu i bvnum fyrir várar sakir«. Margir svçruöu ok mæltu i mot, segja, at þeir mundu týna sér, en koma bæjarmçnnum at engu liöi. Pá hljóp Qlvir upp ok mælti: »þótt allir dvelisk eptir, þá skal ek þó fara einn samt, ok låta skulu heiöingjar einn eöa ii. fyrir mik, áðr en ek falla«— hleypr ofan til býjarins. Menn fara eptir honum ok vildu sjá ferö hans ok sva, ef honum mætti nçkkut viö hjálpa. En er hann kom svá nær kastala, at heiönir menn sá hann, þá hljópu i mot honum viii. menn alvápnaöir. En er þeir mættusk, hljópu heiönir menn umhverfis hann; Qlvir reiddi upp øxina ok laust fremri hyrnu undir kverk þeim, er á bak honum stóö, svá at sundr sneiö kjálkann ok barkann, ok feil så opinn á bak aptr. På reiddi hann fram øxina fyrir sik ok høggr annan i hçfuöit ok klauf þann i heröar niör. Siöan sóttusk þeir, ok drap hann þá enn ii. ok varö sjálfr sárr mjçk; en þeir iiii., er eptir váru, flýðu þá. Qlvir rann eptir þeim, en diki nçkkut var fyrir þeim; ii. inir heiönu hljópu þar i, ok drap Qlvir þá báöa; stóð hann þá ok fastr i dikinu; en ii. heiöingjar kómusk

undan af þeim viii. Peir menn, er fylgt hçföu Qlvi, tóku hann ok fluttu hann með sér til Skúrbága, ok varö hann grceddr at heilu; ok er þat mål manna, at eigi hafi maör farit drengiligri ferö. Lendir menn i i., Sigurör Gyröarson, bróöir Philippús, ok Sigarör kómu meö dc. manna til Skúrbága, ok hvarf Sigurör aptr meö cccc. manna ok þótti siöan litils verör ok liföi skamma stund. Sigarör fór meö cc. manna til býjarins ok baröisk þar við heiöna menn ok feil þar meö çllu liöi sinu. Vinör sóttu kastalann, en konungr ok stýrimenn stóöu fyrir útan bardagann. I einhverjum staö, þar er Vinör stóöu, var einn maör ok skaut af boga ok mann til bana meö hverri çr; ii. menn stóðu fyrir honum meÖ skjçldu. På mælti Sæmundr viö Åsmund son sinn, at þeir skyldu skjóta at skytanum báðir senn — »en ek mun skjota at þeim, er skjçldinn berr«. Hann geröi sva, en så skaut skildinum fyrir sik. Pá skaut Äsmundr milli skjaldanna, ok kom çrin i enni skytanum, svá at ut kom i hnakkann, ok feil sá dauör á bak aptr; en er Vinör sá þat, þá ýlöu þeir allir sem hundar eöa vargar. På lét Réttiburr konungr kalla til þeira ok bjóöa þeim griö; en þeir neituöu því; siöan veittu heiöingjar haröa atsókn. Pá var sá einn af heiönum mçnnum, er svá nær gekk, at alt gekk at kastalahuröinni ok lagði sveröi þann mann, er fyrir innan stóð huröina, en menn báru at honum skot ok grjót ok var hann hliföarlauss, en svá var hann fjçlkunnigr, at ekki vápn festi á honum. Pá tók Andréás pestr vígðan eld ok signaði ok skar tundr ok lagöi i eld ok setti á çrvarodd ok fekk Äsmundi, en hann skaut þessi çr at inum fjçlkunnga manni, ok beit þetta skot svá, at honum vann at fullu, ok feil hann dauör á jçrÖ. Pá létu heiöingjar illiliga enn sem fyrr, ýlðu ok gnístu. Gekk þá alt fólk til konungs; þótti kristnum mçnnum þá sem væri til ráðs, at þeir mundu undan leita. Pá skilöi túlkr, så er skilði vinðesku, hvat hçföingi sá mælti, er üniburr er nefndr; hann mælti svá: »þetta fólk er atalt ok ilt viöskiptis, ok þótt vér tækim alt þat fé, er í þessum staö er, þá mætti vér gefa til annat fé jammikit, at vér heföim eigi komit hér; svá hçfum vér mikit lið látit ok marga hçföingja. Ok fyrst i dag, er vér tókum at ber jask viö kastala, þá hçföu þeir til varnar skot ok spjót, því næst bçröu þeir oss meö grjóti, ok nú ber ja þeir oss meö keflivçlum sem hunda; sé ek fyrir því, at þeira fçng þverra til varnar, ok skulu vér enn gera þeim haröa hriö ok freistum þeira«. En svá var sem hann sagöi, at þá skutu þeir staurum, en i fyrstu hriö hçföu



þeir borit óvarliga skotvápn ok grjót. En er kristnir menn sá, at minkaöisk fjçlöi at staurunum, hjoggu þeir i ii. hvern staurinn; en heiðingjar sóttu at þeim ok geröu haröa hriö ok hvilöusk i milli. Geröusk hvárirtveggju móðir ok sárir. Ok i einhverri hvilö þá lét konungr enn bjóöa þeim grið, at þeir skyldu hafa vápn sin ok klæÖi ok þat, er þeir bæri sjálfir út yfir kastalann. Pá var fallinn Sæmundr húsfreyja, ok var þat ráö manna þeira, er eptir váru, at gefa upp kastala ok sjálfa sik i vald heiöinna manna, ok var þat it ósnjallasta ráð, fyrir því at heiÖingjar efnöu eigi orö sin, tóku alla menn, karla ok konur ok bçrn, drápu mart, alt þat er sårt var ok ungt ok þeim þótti ilt at flvtja eptir sér; þeir tóku alt fé þat, er þar var i kastalanum; þeir gengu inn i Krosskirkju ok ræntu hana at çllu skrúöi sinu. Andréás prestr gaf Réttibur konungi reföi silfrbúit, en Dúnimiz, systursyni hans, fingrgull; fyri þvi þóttusk þeir vita, at hann 'S myndi vera nçkkurr ráÖamaðr i staöinum, ok viröu hann meira en aöra menn. Peir tóku krossinn helga ok hçföu braut; þá tóku þeir táboluna, er stóð fyrir altárinu, er Sigurör konungr haföi gera látit i Griklandi ok haft i land; þeir lçgöu hana niör á gráöuna fyrir altárit. Pá gengu þeir út ór kirkjunni. Pá mælti konungr: »þetta hús hefir verit búit meö ást mikilli við þann guö er þetta hús á; ok sva lízk mér, sem gætt myni litt hafa verit til staÖarins eÖa hússins, þvíat ek sé, at guð er reiör þeim, er varöveita«. Réttiburr konungr gaf Andréási presti kirkjuna ok skrinit, krossinn helga, bókina plénáríúm ok klerka iiii.; en heiðnir menn brendu kirkjuna ok çll húsin, þau er i kastalanum váru; en sá eldr, er þeir hçföu tendrat i kirkjunni, sloknaöi tysvar; þá hjoggu þeir ofan kirkjuna, tók þá at loga innan çll ok brann sem çnnur hús. Pá fóru heiöingjar til skipa sinna meö herfangi ok kçnnuöu liö sitt, en er þeir sá skaöa sinn, þá tóku þeir at herfangi alt fólkit ok skiptu milli skipanna. Pá fóru þeir Andréás prestr á konungsskipit ok meö krossinn helga; þá kom ótti yfir heiöingja af þeiri bending, er yfir konungsskipit kom hiti sva mikill, at allir þeir þóttusk nær brenna. Konungr baö túlkinn spyr ja prest, hvi svá varö. Hann segir, at almáttigr guÖ, sá er kristnir menn trúöu á, sendi þeim mark reiði sinnar, er þeir dirfðusk þess, at hafa meö hçndum hans pislarmark, þeir er eigi vilja trúa á skapara sinn — »ok svá mikill kraptr fylgir krossinum, at opt hafa oröit fyrr þvilikar jartegnir yfir heiðnum mçnnum, þá er þeir hçföu hann meö hçndum, ok sumar enn

berari«. Konungr lét skjóta á skipbátinn kennimçnnum, ok bar Andréás krossinn í faömi sér. Peir leiddu bátinn fram með endilçngu skipinu ok fram fyrir boröit ok aptr með çöru borði til lyptingar, skutu siöan viö forkum ok hrundu bátinum inn at bryggjunum. Siöan fór Andréás prestr meÖ krossinn um nóttina til Sólbjarga, ok var bæði hregg ok rota. Andréás flutti krossinn til góÖrar varöveizlu.

K. 12. Frá Magnúsi blinda.

Réttiburr konungr ok hans liö, þat er eptir var, fór i brot i o ok aptr til Vindlandz, ok mart þat fólk, er tekit hafði verit i Konungahellu, var lengi siöan i Vindlandi i þján ,en þeir, er ut váru leystir ok aptr kómu i Nóreg til óöala sinna, uröu allir at rninna þrifnaÖi. Kaupstaörinn i Konungahellu hefir aldregi fengit slika upreist sem áör var. Magnús, er blindaör hafði verit, fór siöan i Niöarós ok gaf sik i klaustr ok tók viö munka-klæöum. På var skeytt þannug Hernes mikla á Frostu i próvendu hans. En Haraldr réö þá einn landi eptir um vetrinn ok gaf çllum mçnnum sættir, er hafa vildu, tók þá marga menn til hirövistar, er meö Magnúsi hçföu verit. Einarr Skúlason segir svá, at Haraldr konungr åtti ii. orrostur i Danmçrk, aöra viö Hveön, en aöra viÖ Hlésey:

207. Ótryggum lézt eggjar Hveön á hçlÖum roönar

eljunfrár und hári hrafns munnlituör þunnar.

Ok enn þetta:

208. Qttuð sókn viö sléttan, harör, þars hregg of viröum.

serkrjóör Hçars, merki, Hléseyjar jDrçm blésu.

K. 13. Uphaf SigurÖar slembidjákns.

Sigurör er maör nefndr, er upp foeddisk i Nóregi; hann var kallaör sonr AÖalbrikts prests; móöir Siguröar var Póra, dóttir Saxa i Vik, systir Sigriöar, móöur þeira Óláfs konungs Magnús-sonar ok Kára konungsbróöur, er átti Borghildi, dóttur Dags Eilifssonar; sønir þeira váru þeir Sigurör á Austrått ok Dagr; synir Siguröar Jóan á Austrått ok Porsteinn, Andréas daufi. Jóan åtti Sigriöi, systur Inga konungs ok Skúla hertoga. Sigurör var i barnæsku settr til bókar, ok varö hann klerkr ok vígðr til djákns. En er hann gerðisk fullkominn at aldri ok afli, þá var hann allra manna vaskligastr ok sterkastr, mikill maör, ok á alla atgørvi var hann umfram alla jafnaldra sina ok



náliga hvern annan i Nóregi. Sigurðr var snimma ofsamaör mikill ok óeirarmaðr; hann var kallaðr slembidjákn; manna var hann friðastr, heldr þunnhárr ok þó vel hærðr. På kom þal upp fyrir Sigurð, at móðir hans segir, at Magnus konungr berfætr var faðir hans; ok þegar er hann réð sjálfr háttum sinum, þá' afrœkðisk hann klerkasiðu, fór þá af landi brot. I þeim ferðum dvalðisk hann langa hríð. På bvrjaði hann ferö sina út til Jórsala ok kom til Jórðánar ok sótti helga dóma, svá sem pálmarum er titt. Ok er hann kom aptr, þá dvalðisk hann i kaupferðum. Einn vetr var hann staddr nçkkura hríð i Orkneyjum; hann var meö Haraldi jarli at fall i Porkels fostra Sumarliöasonar. Sigurör var ok uppi å Skotlandi með Dávið Skota-konungi; var hann þar virðr mikils. Siðan fór Sigurðr til Danmerkr ok var þat hans sçgn ok hans manna, at þar hefði hann flutt skírslur til faðernis sér ok bar svá, at hann var sonr Magnus konungs, ok væri þar við v. byskupar; svá segir tvarr Ingimundarson i Sigurðarbelki:

209. Gerðu skirslur svá bar raunir,

of skjçldungs kyn at riks konungs

fimm byskupar, þess vas ens milda

þeirs framast þóttu; Magnús faðir.

Vinir Haraldz sçgöu, at þat hefði verit svik ok lygi Dana.

K. 14. Frá Sigurði slembidjákn.

På er Haraldr hafði verit konungr yfir Nóregi vi. vetr, kom Sigurör til Nóregs ok fór á fund Haraldz konungs, bróður sins, hitti hann i Bjçrgyn, gekk þegar brátt á fund hans, birti fyrir konungi faöerni sitt ok beiddi

konung taka við frændsemi sinni. Konungr veitti enga órskurði skjóta um þat mål ok bar þetta fyrir vini sina, åtti við þá tal ok stefnur; en af tali þeira kom þat upp, at konungr bar sakir å hendr Sigurði um þat, er hann hafði verit at aftçku Þorkels fostra fyrir vestan haf. Þorkell hafði fylgt Haraldi til Nóregs þá fyrst, er hann hafði komit til landz; hafðöi Þorkell verit inn mesti vinr Haraldz konungs. Var þessu máli fylgt svá fast, at þar var Sigurði gefin fyrir dauða-sçk, ok með ráði lendra manna þá varð þetta svá, at eitt kveld síðarliga gengu til gestir nçkkurir, þar er Sigurðr var, ok kçlluöu hann með sér ok tóku skútu nçkkura ok røru brot frá býnum með Sigurð ok suðr til Norðness. Sigurör sat aptr á kistunni ok hugsaði sitt mai ok grunaöi, at þetta myndi vera svik. Hann



var svá búinn, at hann hafði blår brækr ok skyrtu ok mçttul á tuglum at yfirhçfn; hann sá niÖr fyrir sik ok hafði hendr á mçttulsbçndunum, lét stundum af hçfði sér, stundum lét hann á hçfuö sér. En er þeir váru komnir fyrir nes eitt, váru þeir kátir ok druknir ok røru ákafliga ok uggðu fått. Þá stóð Sigurör upp ok gekk til boröz, en ii. menn þeir, er til gæzlu váru fengnir meö honum, stóðu upp ok gingu at boröinu, tóku mçttulinn báöir ok heldu frá honum, sem titt er at gera viö rika menn. En er hann grunaöi, at þeir heldi fleirum klæöum hans, þá greip hann sinni hendi hvárn þeira ok steypöisk útan boröz meö alla þá, en skútan rendi fram á langt, ok varö þeim seint at vikja ok lçng dvçl, áÖr en þeir fengi sina menn tekit. En Sigurör tók svá langt kaf i brot, at hann var fyrr á landi uppi, en þeir hefði snúit skipi sinu eptir honum. Sigurör var allra manna fóthvatastr ok stefnir hann á land upp, en konungsmenn fóru ok leituöu hans alla nótt ok funnu hann eigi. Hann lagöisk i bergskor nçkkura, svalaöi honum mjçk; hann fór af brókunum ok skar rauf á setgeiranum ok smeygöi á sik ok tók ut hçndunum ok hjálp sva lifi sinu at sinni. Konungsmenn fóru aptr ok máttu eigi leyna sinni fçr.

K. 15. SvikræÖi viö Harald konung.

Sigurör þóttisk finna, at eigi myndi honum til hjálpar vera at leita á fund Haraldz konungs, ok var þá i fylsknum alt haustit ok çnduröan vetr. Hann var i býnum i Bjçrgyn meö presti nçkkurum ok gildraöi til, ef hann mætti veröa skaöamaör Haraldz konungs, ok váru mjçk margir menn i þessum ráöum meÖ honum, ok þeir sumir, er þá váru hirömenn ok herbergis-menn Haraldz konungs, ok þeir hçföu fyrr verit hirömenn Magnús konungs; váru þeir þá i kærleikum miklum viö Harald konung, svá at æ var nçkkurr af þessum sá, er sat yfir boröi konungsins. Lúciumessu at kveldi tçluöusk viö ii. menn, er þar sátu; mælti annarr til konungs: »herra, nú hçfum vit skotit órskurð þrætu okkarrar til yöarra órslita, ok hçfum vit veöjat ask hunangs hvárr okkarr; ek segi þat, at þér munuö liggja i nótt hjá Ingiriöi drótning, konu þinni, en hann segir, at þér munuö liggja hjá Þóru Gothormsdóttur«. Þá segir konungr hlæjandi ok var mjçk óvitandi, at þessi spurning væri meö svá mikilli vél, ok segir: »eigi muntu hljóta veöféit«. Af þvi þóttusk þeir vita, hvar hans var at vitja á þeiri nótt, en hçfuövçrör varþá haldinn fyrir þvi herbergi, er flestir hugöu at konungr væri inni i ok drótning svaf i.

K. 16. Dráp Haraldz konungs.

Sigurðr slembidjákn ok nçkkurir menn meö honum kómu þar til herbergis, er konungr svaf, ok brutu upp huröina ok gengu þar inn meö brugÖnum vápnum. Ivarr Kolbeinsson vann fyrst á Haraldi konungi, en konungr hafði drukkinn niör lagzk ok svaf fast ok vaknaöi viÖ þat, er menn vágu at honum, ok mælti i óvitinu: »sårt býr þú nú viö mik, Þóra«. Hon hljóp upp viö ok mælti: »þeir búa sårt viö þik, er verr vilja þér en ek«. Lét Haraldr konungr þar lif sitt. En Sigurör meÖ sina menn gekk i brot. Lét hann þá kalla sér þá menn, er honum hçföu heitizk til fçruneytis, ef hann fengi Harald konung tekit af lifdçgum. Þå gengu þeir Sigurör ok hans menn til skútu nçkkurrar ok skipuöusk menn viö árar ok røru út á våginn undir konungsgarÖ; tók þá at lýsa af degi. Þá stóö Sigurör upp ok talaöi viö þá, er stóÖu á konungsbryggju, ok lýsti vigi Haraldz konungs sér á hendr ok beiddisk af þeim viörtçku ok þess, at þeir toeki hann til konungs, svá sem buröir hans váru til. Þå dreif þannug á bryggjurnar mart manna ór konungsgaröi ok svçruöu allir, sem einum munni mælti, sçgöu, at þat skyldi aldri verÖa, at þeir veiti hlýöni ok þjónan þeim manni, er myrt hafði bróður sinn — »en ef hann var eigi þinn bróðir, þá áttu enga ætt til at vera konungr«. Þeir bçröu saman vápnum sinum, dœmöu þá alla útlaga ok friÖlausa. Þá var blásit konungslúöri ok stefnt saman çllum lendum mçnnum ok hirömçnnum, en Sigurör ok hans menn sá þann sinn kost inn fegrsta, at veröa i brotu; hann helt á Noröi-Hçröaland ok åtti þar þing viö bœndr; gengu þeir

undir hann ok gáfu honum konungsnafn. På fór hann inn i Sogn ok åtti þar þing viö bœndr; var hann ok þar til konungs tekinn. På fór hann norör i Fjçröu ; var honum þar vel fagnat, svá segir Ivarr Ingimundarson: 210.
Tóku viö mildum sórusk margir

Magnús syni menn á þingi

Hçröar ok Sygnir, buölungs syni

at Harald fallinn; i bróöur staö.

Haraldr konungr var jaröaðr i Kristskirkju inni fornu.

*

# Uphaf Inga konungs.

K. I.

Ingiriðr drótning ok meö henni lendir menn ok hiröin, sú er Haraldr konungr hafði haft, réöu þat", at hleypiskip var gçrt ok sent norör til Prándheims at segja fall Haraldz konungs ok þat meö, at Prændir skyldu taka til konungs son Haraldz konungs Sigurö, er þá var norör þar ok Sáöa-Gyrör Báröarson fóstraÖi, en Ingiríðr drótning fór þegar austr i Vik. Ingi hét sonr þeira Haraldz konungs, er var at fóstri þar i Vikinni meö Ámunda Gyröarsyni Lçgbersasonar. En er þau kómu i Vikina, var stefnt Borgarþing; þar var Ingi til konungs tekinn, —• þá var hann á annan vetr, — at því ráöi hurfu Ámundi ok Pjóstólfr Álason ok margir aörir stórir hçföingjar. En er þau tiöendi kómu norör til Prándheims, at Haraldr konungr var af lifi tekinn, þá var þar til konungs tekinn Sigurör, sonr Haraldz konungs, ok hurfu at því ráöi Óttarr birtingr ok Pétr Sauöa-ülfsson ok þeir bræÖr Gothormr af Reini Ásólfsson ok Öttarr balli ok fjçlöi annarra hçfÖingja, ok snørisk undir þá bræÖr náliga allr lýör ok allra helzt fyrir þess sakar, at faðir þeira var kallaör heilagr, ok \ar þeim sva land svarit, at undir engan mann annan skyldi ganga, meöan nçkkurr þeira lifõi sona Haraldz konungs.

K. 2. Frá Siguröi slembidjákn.

Sigurör slembidjákn sótti norör um Staö, ok þá "er hann kom á Norð-Mœri, váru alt komin fyrir honum bréf ok jartegnir ráöamanna þeira, er snúizk hçföu undir hlýðni viö sonu Haraldz konungs, ok fekk hann þar enga viörtçku eöa upreist; en meö því at hann var sjálfr liöfár, þá réöu þeir þat, at stefna inn i Þrándheim, þviat hann haföi áðr gçrt orö fyrir sér inn þannug til vina sinna ok til vina Magnus konungs, er blindaör haföi verit. En er hann kom til kaupangs, røri hann upp i ána Niö,ING. SIG.

5 77

ok kómu festum á land í konungsgarði ok urðu þá undan at leita, þviat lýðr allr stóð i móti. Peir Içgöu síðan til Hólms ok tóku þar út ór klaustranum Magnús Siguröarson af nauðgum munk-unum; hann hafði tekit áör munksvígslu. Sú er fleiri manna sçgn, at Magnús foeri at sjálfs sin vilja, þótt þetta væri gçrt til bótar um mål hans; ok vænti af þessu sér liðsafla, ok svá geröisk ok gafsk, ok var þetta þegar eptir jól. Fóru þeir Sigurör út eptir firöinum. Siöan sótti eptir þeim Bjçrn Egilsson, Gunnarr af Gimsum, Haldórr Siguröarson, Áslákr Hákonarson ok þeir brœðr, Benedikt ok Eiríkr, ok hirÖ sú, er verit haföi fyrr með Magnúsi konungi, ok fjçlöi annarra manna. Peir fóru meÖ flokkinn suör fyrir Mœri ok alt fyrir Raumsdalsminni. Peir skiptu þar liöi sinu, ok fór Sigurör slembidjákn vestr um haf þegar um vetrinn, en Magnús fór til Uplanda ok vænti sér þar mikils liös, sem hann fekk; var hann þar um vetrinn ok um sumarit alt á Uplçndum ok haföi þá mikit liö; en Ingi konungr fór meö liöi sinu, ok hittusk þeir sem heitir i Mynni; varö þar mikil orrosta, ok haföi Magnus konungr meira liö. Svá er sagt, at Pjóstólfr Álason haföi Inga konung i kiltingu sér, meöan orrosta var, ok gekk undir merki, ok kom Pjóstólfr i mikla nauÖ af erfiÖi ok atsókn ; ok er þat mål manna, at þá hafi Ingi fengit vanheilendi þat, er hann haföi allan aldr siöan, ok knytti hrygginn, en annarr fótrinn var skemri en annarr ok sva afllitill, at hann var illa gengr, meöan hann lifõi. På snøri mannfallinu á hendr Magnus konungs mçnnum, ok fellu þessir i çndurÖri

gengu þeir at garbinum, Ingi konungr ofan frá smibabúbum, Arni kon-ungsmágr útan frá Sandbrú, Áslákr Erlendzson ór garbi sínum, en Grégóríús af strætinu, ok þótti þaban verst. Peir Sigurbr skutu mjçk ór loptgluggum ok brutu ofna ok báru grjótit á þá. Peir Grégóriús brutu upp garbzhlibit, ok feil þar Einarr, sonr Laxapáls, i hlibinu af libi Sigurbar konungs ok Hallvarbr Gunnarsson; hann var skotinn i loptit inn, ok harmabi hann engi mabr. Peir hjoggu húsin, ok gekk lib Sigurbar af hendi



honum til griöa. Pá gekk Sigurör á loptit eitt ok vildi beiöa sér hljóös, en hann haföi gullroöinn skjçld, ok kendu menn hann ok vildu eigi hlýöa honum; menn skutu at honum, svá sem i drifu sæi, ok mátti hann eigi þar vera. En þá er liöit var gengit af hendi honum ok menn hjoggu húsit mjçk, þá gekk hann út, Pórör húsfreyja meö honum, hirömaör hans, vikverskr maör, ok vildu þannug, sem Ingi konungr var fyrir, ok kallaöi Sigurör á Inga, bróöur sinn, at hann skyldi selja honum griö; en þeir váru þegar hçggnir báöir, Pórör húsfreyja meö orölofi miklu. Par feil mart manna, þótt ek nefna fátt, af liöi Siguröar, ok svá af Inga liöi, en iv. menn af Grégóriús liöi ok sva þeir, er meÖ hvárigum váru, ok uröu þeir fyrir skotum á bryggjum niöri eÖa á skipum úti. Peir bçröusk xiiii. nóttum fyrir Jónsmessu baptista, en þat var fçstudagr. Sigurör konungr var jaröaör at Kristskirkju inni fornu i Hólmi út. Ingi konungr gaf Grégório skip þat, er Sigurör konungr haföi átt. En tveim nóttum eöa þrimr siöarr kom Eysteinn konungr austan meö xxx. skipa ok haföi þar Håkon bróöurson sinn i ferö meö sér ok fór eigi til Bjçrgynjar ok dvalöisk i Flóruvágum, en menn fóru i meÖal ok vildu sætta þá; en Grégóríús vildi, at þeir legöi út at þeim, ok kvaö eigi siöarr betra, kvazk hann mundu vera hçföingi at því — »en þú, konungr, far eigi; er nú eigi vant liös til«. En margir lçttu, ok tóksk af þvi eigi ferÖin. Eysteinn konungr fór austr i Vikina, en Ingi konungr norör i Prándheim, ok váru þeir þá sáttir at kalla ok hittusk eigi sjálfir.

K. 29. Frá Grégóríó Dagssyni.

Grégóriús Dagsson fór austr litlu siöarr en Eysteinn konungr ok var uppi á Hçfundi á Bratsbergi at búi sínu. Eysteinn konungr var inn i ósló ok lét draga skip sin meirr en ii. vikur sjávar at isi, þvíat islçg váru mikil inn i Vikinni. Hann fór upp á Hçfund ok vildi taka Grégóríúm, en hann varö varr viö ok fór undan upp á Pelamçrk meö xc. manna ok þar norör um fjall ok kom ofan i Haröangri ok fór siöan i Eöni til Stuölu; þar åtti Erlingr skakki bú, en hann var farinn norör til Bjçrgynjar, en Kristin, kona hans, dóttir Siguröar konungs, var heima ok bauö Grégórió slikt, er hann vildi hafa þaöan. Fekk Grégóríús þar góÖar viÖtçkur; hann haföi langskip þaðan, er Erlingr åtti, ok alt þat, er hann þurpti. Grégóríús þakkaði henni vel ok lét henni hafa oröit stórmannliga, sem ván var at



Peir fóru siöan til Bjçrgvnjar ok funnu Erling, ok þótti honum hon vel hafa gç>rt.

K. 30. Sætt Inga konungs ok Eysteins konungs.

Siöan fór Grégóriús Dagsson norör til kaupangs ok kom þar fyrir jól. Ingi konungr varö inn fegnasti honum ok baö hann hafa slikt alt af sinni eign, sem hann vildi. Eysteinn konungr brendi bæ Grégórii ok hjó búit; en naust þau, er Eysteinn konungr inn ellri haföi gera látit norðr i kaupangi, er mestar gørsimar váru, þá váru brend um vetrinn ok skip góð með, er Ingi konungr åtti, ok var þat verk it óvinsælsta, en ráðin váru kend Eysteini konungi ok Philippó Gyröarsyni, fóstbróöur Siguröar konungs. Um sumarit eptir fór Ingi noröan ok geröisk inn, fjçlmennasti, en Eysteinn konungr austan, ok samnaöi hann sér ok liöi. Peir hittusk i Seleyjum fyrir noröan Liöandisnes, ok A ar Ingi konungr miklu fjçlmennari; var viö sjálft, at þeir mundu ber jask. Peir sættusk, ok varö þat at sætt, at Eysteinn skyldi festa, at gjalda hálfan v. tøg marka gullz; skyldi Ingi konungr hafa xxx. marka fyrir þat, er Eysteinn haföi ráðit skipabrunanum ok svá naustanna, en þá skyldi Philippús vera útlagr ok svá þeir allir, er at brennunni hçföu verit, þar er skipin váru brend; þeir menn skyldu ok vera útlagir, er sannir váru at áverkum viö SigurÖ konung, þviat Eysteinn konungr kendi þat Inga konungi, at hann heldi þá menn; en Grégóríús skyldi hafa xv. merkr fyrir þat, er Eysteinn konungr brendi upp fyrir honum. Eysteini konungi likaÖi illa ok þótti nauöungar- sætt vera. Ingi konungr fór austr i Vik frá stefnunni, en Eysteinn norör i Prándheim. Siöan var Ingi konungr i Vikinni, en Eysteinn konungr norÖr, ok hittusk þeir ekki; en þau ein fóru orö i milli, er ekki váru til sætta, ok svá lét hvártveggi drepa vini annars, ok varö ekki af fégjaldinu af Eysteins hendi; kendi ok hvárr çörum, at ekki heldi þat ,er mælt var. Ingi konungr ok þeir Grégóríús spçnÖu mjçk liö undan Eysteini

konungi, Bárö standala Brynjólfsson ok Símun skalp, son Hallkels huks, ok mart annat lendra manna, Haldór Brynjólfsson ok Jón Hallkelsson.

K. 31. Frå Inga konungi ok Eysteini.

På er liönir váru ii. vetr frá falli Siguröar konungs, drógu konungar her saman, Ingi austan ór landi ok fekk hann lxxx.





skipa, en Eysteinn konungr norÖan ok fekk hálfan v. tøg skipa. Pá hafüi hann dreka inn mikla, er Eysteinn konungr Magnús-son hafði látit gera, ok hçföu þeir allfrítt liö ok mikit. Ingi konungr lå skipum sinum suör viö Mostr, en Eysteinn konungr litlu noröarr i Grceningasundi. Eysteinn sendi suör til Inga Áslák unga Jonsson ok Árna sturlu Sæbjarnarson; þeir hçföu eitt skip. En er Inga menn kendu þá, lçgöu þeir at þeim ok drápu mart manna af þeim, tóku skipit ok alt þat, er á var, ok hvert fat þeira. En Áslákr ok Arni ok nçkkurir menn meö þeim kómusk á land upp ok fóru til fundar viö Eystein konung ok segja honum, hvernug Ingi konungr heföi fagnat þeim. Eysteinn konungr hafüi þá húsþing ok segir mçnnum, hvern ófrið þeir Ingi vildu gera, ok baÖ liÖsmenn, at þeir skyldu honum fylgja

— »ok hçfum vér liÖ svá mikit ok gott, at ek vil hvergi undan flýja, ef þér viliö fylgja mér«. En engi varö rómr at máli hans.

Hallkell húkr var þar, en synir hans báðir meö Inga, Simun ok Jon. Hallkell svaraöi, svá at mjçk margir heyröu: »fylgi gullkistur þinar þér nú ok veri land þitt«.

K. 32. Dráp Eysteins konungs. Um nóttina eptir røru þeir i brot mçrgum skipum á laun, sumir til lags viö Inga konung, sumir til Bjçrgynjar, sumir i Fjçröu inn. En at morni, er lýst var, þá var konungr x skipum einum eptir; þá lét hann þar eptir dreka inn mikla, þviat hann var þungr undir árum, ok fleiri skipin, ok hjoggu drekann mjçk, ok svá hjoggu þeir niör mungát sitt ok alt þat, er þeir máttu eigi meö sér hafa, spiltu þeir. Eysteinn konungr gekk á skip Endriöa Jónssonar mçrnefs, ok fóru þeir norÖr ok inn i Sogn ok þaöan it øfra austr til Vikr. Ingi konungr tók skipin ok fór austr it ýtra i Vikina. En fyrir austan Fold þá var þar Eysteinn ok hafüi nær ddcc. manna. Pá sá þeir skipaliö Inga konungs ok þóttusk eigi liö viö hafa ok hljópu á skog undan; þá flýÖi á sinn veg hvat, svá at konungr var viö annan mann. Peir Ingi uröu varir viö farar Eysteins ok svá þat, at hann var fámeðr; þeir fóru at leita hans. Símun skálpr hitti hann, er hann gekk undan hrisrunni einum at þeim. Simun heilsaöi honum — »heill lávarör« segir hann. Konungr segir: »vetka ek nema þú þykkisk nú minn lávarör« segir hann. »Er nú sem gerisk« segir Simun. Konungr bað, at hann skyldi honum undan skjota, kvaö honum þat byr ja

— »þvíat lengi hefir með okr vel verit, þótt nú sé annan veg«.Símun kvað þá ekki mundu af þvi veröa. Konungr baö, at hann skyldi hlýöa messu áör, ok þat var. Siöan lagöisk hann niör á grúfu ok breiddi hendr frá sér út ok baö sik hçggva i kross á milli heröanna, kvaö þá skyldu revna, hvárt hann myndi þola járn eöa eigi, sem þeir hçföu sagt lagsmenn Inga. Simun mælti viö þann, er hçggva skyldi, baö hann til ráöa, kvaö konung hølzti lengi hafa kropit þar um lyng; hann var þá hçggvinn ok þótti veröa viö prúöliga. Lik hans var flutt til Fors, en fyrir sunnan kirkju undir brekkunni var lik hans nátsætt. Eysteinn konungr var jaröaör at Forskirkju, ok er leg hans á miöju kirkjugólfi ok breiddr yfir kçgurr, ok kalla menn hann helgan. Par sem hann var hçggvinn ok blóð hans kom á jçrö, spratt upp brunnr, en annarr þar undir brekkunni, sem lik hans var náttsætt; af hváru tveggja því vatni þykkjask margir menn bót hafa fengit. Pat er sçgn Vikverja, at margar jartegnir yröi at leiöi Eysteins konungs, áðr óvinir hans steypöi á leiöit hundzsoöi. Simun skálpr var it mesta óþokkaör af verki þessu, ok var þat alþýðu-mál, en sumir segja, þá er Eysteinn konungr var handtekinn, at Simun sendi mann til fundar viö Inga konung, en konungr baö Eystein eigi koma i augsýn sér; svá hefir Sverrir konungr rita látit, en þannug segir Einarr Skúlason:

228. Mun, sås moröi vanöisk siö af slikum rçöum margillr ok sveik stilli, Simun skalpr of hjalpask.

*

# Uphaf Hákonar herðibreiðs.

K. I.

Hákon konungr, sonr Sigurðar konungs, var tekinn til hçfðingja yfir flokk þann, er áör hafði fylgt Eysteini konungi, ok gáfu flokksmenn honum konungsnafn; þá var hann x. vetra. Par váru þá meö honum Sigurðr, sonr Hallvarðz hçldz af Reyri, ok þeir Andréás ok Qnundr, fóstbrœör Hákonar, Simunarsynir, ok mart annarra hçföingja ok vina Eysteins konungs ok Siguröar konungs. Peir fóru fyrst upp á Gautland. Ingi konungr kastaöi sinni eigu á þat alt, er þeir áttu i Nóregi, ok o geröi þá útlaga. Ingi konungr fór norör i Vikina ok var þar, en stundum norör i landi. Grégóriús var i Konungahellu viö háskann ok varöi þar landit.

K. 2. Frá Grégórió Dagssyni.

Eptir um sumarit kómu þeir Hâkon ofan af Gautlandi ok fóru til Konungahellu ok hçföu allmikit liö ok fritt. Grégóriús var þar i býnum ok stefndi þing fjçlment viö boendr ok býjar-menn ok kraföi sér liös; honum þóttu menn litt ræraa ok lézk hann illa trúa þeim. Hann fór i brot tveim skipum ok inn í Vikina ok var allóglaör; hann ætlaöi til fundar viö Inga kon-o ung; hann hafði spurt, at Ingi konungr fór viö her mikinn norÖan um Vikina. En er Grégóriús var skamt norör kominn, þá mætti hann þeim Simuni skálp ok Haldóri Brynjólfssyni ok Gyrði Ámundasyni, fóstbróöur Inga konungs. Grégóriús varö þeim feginn mjçk; hann hvarf þá aptr, ok þeir allir samt, ok hçföu xi. skip. En er þeir røru upp til Konungahellu, þá hçföu þeir Hâkon þing fyrir útan býinn ok sá fçr þeira. Pá mælti Sigurör af Reyri: »nú er Grégóriús feigr, er hann ferr i hendr css meö fâ liöi«. Grégóriús lagÖi at landi gagnvart bvnum, ok vildi biöa Inga konungs, þvíat hans var ván, en hann kom



eigi. Hâkon konungr bjósk við i býnum ok lét Porljót skaufuskalla vera hçföingja i liði þvi, er var á kaupskipum þeim, er flutu fyrir bænum, hann var vikingr ok ránsmaðr; en Hâkon ok Sigurör ok allr herrinn var i býnum ok fylkÖu á bryggjunum. Allir menn hçföu þar gengit undir Hâkon. -

K. 3. Flótti Hákonar.

Peir Grégóriús røru upp eptir ánni ok létu hefja skipin ofan fyrir straumi at þeim Porljóti. Peir skutusk á um hriö, þar til er Porljótr hljóp fyrir borö ok hans félagar, váru sumir drepnir, en sumir kómusk á land. Pá røru þeir Grégóriús at bryggjum,i o ok þegar lét Grégóriús skjóta upp bryggjum af sinu skipi undir fœtr þeim Hákonar mçnnum. Pá feil sá maör, er merki hans bar, er hann ætlaöi til upgçngu; þá kvaddi Grégóriús til at taka upp merkit Hall, son Auöunar Hallzsonar; hann geröi svá ok bar siöan merkit upp á bryggjur, en Grégóriús gekk þegar eptir honum ok skaut skildi fram yfir hçfuö honum. En þegar er Grégóriús kom á bryggjurnar ok Hákonar menn kendu hann, þá hopuöu þeir, ok gafsk rúmit þegar ii. vega. En er fieira kom iiöit upp af skipum, þá sótti Grégóriús ok hans menn fram, en Hákonar menn hopuöu fyrst ok runnu þvi næst upp i býinn, en þeir Grégóriús fylgöu þeim ok ráku þá tysvar upp ór bœnum ok drápu mart. Engi var fçr skçruligri en sú at máli manna, er Grégóríús fór, fyrir þvi at Hâkon hafði meirr en xl. hundraöa manna, en Grégóríús eigi çll cccc. Pá mælti Grégóriús viö Hall Auöunarson eptir orrostu: »margir menn þykki mér mjúkari i sóknum en þér Islendingar, þviat þér eruö óvanari en vér Nóregs-menn, en engir þykkja mér vápndjarfari en þér«. Pá kom Ingi litlu siöarr ok lét drepa marga menn, þá er viö Hákoni hçföu tekit, en suma lét hann fé gjalda, en hann brendi býi fyrir sumum, en suma rak hann ór landi ok gerÖi þeim mart ilt. Hâkon fór um vetrinn it øfra norör i Prándheim ok kom fyrir páskir, ok tóku Prændir hann þar til konungs at hafa fçöurleifö sina, þriöjung Nóregs viö Inga konung. Ingi var i Vikinni ok Grégóríús, ok vildi Grégóríús fara norör at þeim, en margir lçttu, ok varö ekki ór á þeim vetri.

K. 4. Dráp Gvröar ok HávarÖz.

Hâkon fór norðan um várit ok hafði nær xxx. skipa. Vikverjar fóru af liöi Hákonar meö viii. skipum ok herjuðu á

Moer i hvára tveggju. Engi maðr munöi fyrr herj at hafa verit milli kaupanganna. Jón, sonr Hallkels húks, samnaöi bóndaliði ok fór at þeim ok tók Kolbein óða ok drap hvert barn af skipi hans; siöan leitaði hann hinna ok hitti þá við vii. skipum, ok bçröusk þeir, en Hallkell, faöir hans, gerÖi eigi fara til móts viö hann, sem þeir hçföu mælt; þar feil mart bónda góÖra, ok varö sárr sjálfr. Hákon fór suör til Bjçrgynjar meö liöi sínu, ok er þeir kómu til Stjórnveltu, spurðu þeir, at Ingi konungr var áðr austan kominn fyrir fám nóttum ok Grégóríús ti! Bjçrgynjar, ok þorðu þeir þá eigi þannug at halda. Peir siglðu suör um Bjçrgyn it ýtra ok hittu þá iii. skipum lagsmenn Inga konungs, er seinni hçfbu oröit austan. Par var Gyrðr Ámundason, fóstbróðir Inga konungs, — hann åtti Gyriöi, systur Grégóríús, — en annarr Gyrör lçgmaör Gunnhildarson, iii. Hávarör kliningr. En Håkon lét drepa Gyrö Ámundason ok annan Hávarö klining, en hann hafði Gyrð lçgmann meö sér ok fór austr i Vikina.

K. 5. Frá råöa-gøröum.

En er Ingi konungr spuröi þat, þá fór hann austr eptir þeim; þeir hittusk austr i Elfi. Ingi konungr lagöi upp i ána eptir inni nøröri kvisl ok geröi njósn fyrir sér um þá Håkon; en Ingi konungr lagöi at landi út viö Hísing ok beiö þar njósnar-innar; ok er njósnarmenn kómu aptr, þá gengu þeir til konungs ok segja, at þeir heföi sét liö Hákonar konungs ok alla skipan þeira, segja, at þeir lágu uppi viö stikin ok hçföu tengt skutstafna sina upp i stikin; — »þeir hafa ii. austrfararknçrru ok hafa þá lagt ýzt skipanna«; á knçrrunum váru húnkastalar, ok svá frammi i stafni á báöum. En er þetta spuröi konungr, hvern viðbúnaö þeir hçföu, þá lét hann blåsa til húsþings çllu liöinu; en er þings var kvatt ok sett, þá leitar konungr ráös viö liö sitt ok kveör Grégóriús Dagsson ok Erling skakka, måg sinn, ok aöra lenda menn ok skipstjórnarmenn ok segir allan umbúnað þeira Hákonar manna . Grégóríús svaraöi fyrst ok birti sinn vil ja, segir svá: »fundir várir Hákonar hafa at borizk nçkkurum sinnum, ok hafa þeir haft optast meira liö ok fengit þó minna hlut i várum skiptum. En nú hçfum vér miklu meira liö, ok mun þat nú þykkja líkligt þeim mçnnum, er fyrir skçmmu hafa mist fyrir þeim góöa frændr sina, at hér myni vel bera til um hefnð, þviat þeir hafa lengi nú áör rekizk undan oss i sumar;

hçfum vér þat opt mælt, ef þeir biöi vár, svá sem nú er sagt at vera myni, at vér myndim hætta til fundar viö þá. Nú er þat at segja frá mínu skaplyndi, at ek vil leggja til orrostu við þá, ef þat er eigi i mot konungs vilja, þvíat ek ætla enn, sem fyrr hefir verit, at þeir myni fyrir veröa låta, ef vér leggjum skeleggliga at; mun ek þar til leggja, er çörum þykkir torvellig-ast.« At rœöu Grégórii varö mikill rómr ok létusk allir búnir at leggja til orrostu viö þá Håkon. Var þá róit çllum skipunum upp eptir ánni, til þess er hvárir sá aðra; þá viku þeir Ingi konungr af árstrauminum út undir eyna; åtti konungr þá tal viö stýrimenn alla ok baö þá skipa til atlçgu ok kvaddi þá at Erling skakka, segir, sem satt var, at engi var i því liöi vitrari maör ok kænni i orrostu, þó at sumir væri enn meiri ákafamenn; veik konungr þá enn ræöunni til fleiri lendra manna, nefndi suma á nafn, en lauk svá rœöu sinni, at hann baö þat hvern til leggja, er hann sa at ráði gegndi, en síðan alla saman veröa á eitt sátta.

K. 6. Tala Erlings.

Erlingr skakki svaraÖi rœðu konungs: »skyldr em ek, konungr, at þegja eigi viö rœöu yöarri; en ef þér viliö forvitnask, hvat min råöagørö mun vera, þá skal ek yör låta þat heyra. Pessi ætlan, er nú er sett, er þvert frá minu skapi, þvíat ek kalla þetta vera ófœru, at berjask viö þá at sva búnu, þótt vér hafim liÖ mikit ok fritt; ef vér skulum veita þeim atlçgu ok róa á straum þenna i móti, þar er iii. menn eru i hálfrými, þá verör einn at róa, en annarr at hlifa þeim, hvat er þá nema einn þriöjungr liÖs vårs myni til vera at berjask? Lizk mér svá, sem óvigliga myni þeir komask viö orrostu, er viö árarnar eru ok bçkum horfa viö óvinum sinum. Gefiö mér tómstund til låöagøröar, en ek heit því þar i mot, at ek skal þat ráö þar til finna, fyrr en iii. dagar sé liönir, at hógligarr skulu vér viö komask at leggja á fund þeira«, — ok fanzk þat mjçk i roeöu Erlings, at hann latti atlçgunnar, ok eigi at siör eggjuðu margir aörir, ok kváöu þá Håkon mundu hlaupa á land upp enn sem fyrr — »ok hçfum vér þá þeira ekki, segja þeir, en þeir hafa nú litit liö, ok hçfum vér ráÖ þeira alt i hendi«. Grégóríús rœddi um fám oröum ok sneiddi svá til, sem Erlingi gengi mjçk þat til, er hann latti atlçgunnar, at hann vildi þau ráö ónýta, er

Grégóriús lagöi til, heldr en hitt, at hann kynni þetta gçrr at sjå en allir aörir. 40310



K. 7. Frá liöi Hákonar konungs.

Ingi konungr mælti þá til Erlings: »mágr, segir hann, nú viljum vér þínum ráÖum fram fara, hvernug håtta skal atlçg-unni; en fyrir því, at þess eru ráöamenninir fúsari, þá skulum vér nú at þeim leggja i dag«. På mælti Erlingr: »skútur allar ok léttiskip skulu róa út um eyna ok upp ina eystri kvisl ok svá ofan at þeim ok freista, at þeir megi leysa þá frå stikunum, en þá skulu vér róa stórskipunum neðan at þeim, ok veit eigi, áÖr en reynt er, hvárt þeir leggja þvi betr at en ek, sem þeir eru óöari«. Petta ráð líkaöi çllum vel. Nes nçkkut gekk fram milli þeira Hákonar, ok sá hvárgi skipin frá çörum. En er skútna-herrinn røri ofan eptir ánni, þá sá þeir Hákon þat, en áðr hçföu þeir verit á talí ok ráðit ráðum sinum; gátu sumir, at þeir Ingi konungr mundu at leggja, en margir ætluðu, at þeir mundu eigi treystask, er mjçk þótti seinkask atlagan, en þeir treystusk vel viÖbúnaði sinum ok liöi. 1 þeira flokki var mart stórmenni; þar var Sigurör af Revri ok þeir Simunar-synir ii.; þar var ok Níkolás Skjaldvararson ok Eindriöi, sonr Jons mçrnefs, er þá var ágætastr maör ok vinsælstr i Proendalçgum ; margir aörir váru þar lendir menn ok sveitarhçföingjar. En er þeir sá, at Inga menn røru mçrgum skipum ut eptir ánni, þá hugöu þeir Håkon, at þeir Ingi mundu f ly j a vil ja, ok hjoggu tengslin frá skipunum, gripu þá til ára ok røru eptir þeim ok vildu reka þá. Skipin rendu skjótt fyrir straumi, ok er þau bar ofan eptir ánni fyrir nesit, er áÖr var milli, þá sá þeir, at meginliöit Inga lå ut viö eyna Hising. Lagsmenn Inga sá þá, hvar skip Hákonar fóru, ok hugöu, at þeir myndi at leggja; var þar þá þyss mikill ok vápnabrak ok eggjan, ok lustu þeir upp herópi, en þeir Håkon snøru skipum sinum at norörlandinu, ok er þar vikhvarf nçkkut, ok kómusk af strauminum. Peir bjoggusk þar um, báru upp á land skutfestar ok snøru ut framstçfnum, ok tengÖu saman çll skipin, létu austrfararknçrruna liggja út frá çÖrum skipum, annan fyrir ofan en annan fyrir neöan, ok tengöu þá viö lang-skipin; en i miöjum flotanum lå konungsskipit ok þar næst Siguröar skip, en á annat borö konungs skipinu lå Nikolas, en þar næst Endriöi Jonsson ; çll in smæri skip lágu útarr meirr; þeir hçföu náliga çll hlaöit skip sin af grjóti ok vápnum.



K. 8. Tala Siguröar.

Sigurör af Reyri talaÖi ok mælti svá: »þat er nú vænt at fram myni koma, er oss hefir lengi heitit verit, at fundr várr Inga myndi verÖa; hçfum vér nú ok mjçk lengi viö búizk, ok hafa margir várir félagar stórt berkt um, at eigi myndi flýja eða fálma fyrir Inga konungi eöa Grégóríó, ok er nu gott at minnask þeira orÖa; en vér megum meö minna trausti um þat ræöa, er fyrr hçfum oröit nçkkut tannsárir i várum viörskiptum, ok er þat, sem hverr hefir heyrt, at vér hçfum mjçk opt svaöilfçrum farit fyrir þeim; en eigi at siör er oss nauösvn at verÖa viö sem mannligast ok standa sem fastast, þviat þann eigum vér útveginn til þess, at vér mynim sigrinn hafa. En þótt vér hafim liö nçkkuru færa, þá má þó auÖna ráða, hvárir gagn skulu hafa; er sú ván bezt i váru máli, at guö veit, at vér mælum réttara. Ingi hefir áðr hçggvit niör bræör sina ii.; en þat er engum manni blint, hver jar fçöurboetr hugöar eru Hákoni konungi, þær at hçggva hann niðr sem aÖra frændr sina, ok mun þat sýnask þenna dag. Håkon beiddisk eigi meira frá uphafi af Nóregi en þess þriÖjungs, er faöir hans haföi ått, ok var honum þess varnat; en at minni viröing er Håkon betr til kominn at taka arf eptir Eystein, fçöurbroöur sinn, heldr en Ingi eöa Simun skálpr eöa aörir þeir menn, er Eystein konung tóku af lifdçgum. Mçrgum myndi sva litask, þeim er sálu sinni vildi þyrma ok heföi þvílikir stórgloepir á hendr borizk sem Inga, at eigi myndi þora fyrir guöi at kailask meö konungsnafni, ok þat undrumk ek, er guö þolir honum þá ofdirfö, ok þat mun guö vilja, at vér steypim honum. Berjumk vér djarfliga, þvíat guö mun oss sigr gefa; en ef vér fçllum, þá mun guö þat çmbuna oss viö margfçldum fagnaöi, ef hann lér vándum mçnnum valdz at ganga yfir oss. Fari menn stilliliga ok felmti eigi, ef orrosta teksk; gæti hverr sin ok sinna sveitbúa, en guö allra vár«. Góðr rómr var gçrr at máli Siguröar, ok hétu allir góðu um at veröa vel viö. Håkon konungr gekk upp á austrfararknçrrinn, ok var þar sett skjaldborg um hann, en merki hans var á langskipinu, því er hann haföi áðr á verit.

K. 9. Frá liÖsmçnnum Inga konungs.

Nú er at segja frå Inga mçnnum, þá er þeir sá, at Hákonar menn bjoggusk til orrostu, var þá ain ein milli þeira, þá geröu



þeir hleypiskip út eptir liði sínu, því er brot hafði róit, at þeir skyldi aptr snúa, en konungr ok annat liðit beið þeira ok skipuðu liöi sinu til atlçgu. Pá tçluöu hçföingjar ok segja liöinu fyrir-ætlan sina, þat fyrst, hver skipin skyldu næst liggja. Grégóríús mælti: »vér hçfum mikit lið ok fritt; nú er þat mitt ráð, at þér, konungr, verið eigi i atlçgunni, þvíat þá er allz gætt, er yðar er, ok eigi veit, hvar óskytja çr geigar. Peir hafa þann viðbúnað, at ór hunkçstulum á kaupskipunum er borit grjót ok skot; þá er þeim lítlu óhættara, er fjarran eru. Peir hafa lið eigi meira, en þat er við várt hœfi lendra manna at halda orrustu við þá. Ek mun leggja mitt skip at því skipi þeira, er mest er; vænti ek enn, at skçmm raun sé at ber jask við þá; svá hefir enn optast verit á várum fundum, þótt annan veg hafi liðsmunr verit en nú er«. Petta líkaði çllum vel, er Grégóríús mælti, at konungr sjálfr væri eigi i orrostu. På mælti Erlingr skakki: »þvi ráði vil ek fylgja, at þér, konungr, fariö eigi til orrostu; lizk mér svá á viðbúnað þeira, sem vér mynim þurfa viðsjá at gjalda, ef vér skulum eigi få mikit manntjón af þeim; þykki mér bezt um heilt at binda. Sú råöagørö, er vér hçföum fyrr i dag, þá mæltu þar margir i mot því, er ek réð, ok sçgöu, at ek vilda eigi ber jask; en mér þykkir oss nú hafa snúizk til mikilla hægenda, er þeir eru i brotu frá stikunum; en nú er svá komit, at ek mun eigi letja at leggja til orrostu, þvíat ek sé þat, er allir rnegu vita, hversu mikil nauðsvn á er, at støkkva óaldarflokki þessum er farit hefir um land alt meö rån ok rifs, ok mætti menn eptir þat byggva land i friði ok þjóna einum konungi, þeim er svá er góðr ok réttlátr, sem Ingi konungr er, ok hefir þó lengi haft válk ok vendræði af ofsa ok ójafnaði frænda sinna, ok borit brjóst fyrir allri alþýðu ok lagt sik i margfaldan háska til at friba landit.« Mart talaöi Erlingr ok snjalt, ok enn fleiri hçfbingjar, ok kom i sama stað niðr, at allir eggjuðu atlçgunnar. Peir bibu þess, er alt kom saman lið þeira. Ingi konungr hafði þá Bœkisúðina ok lét hann at been vina sinna, at hann lagði eigi til orrostu, ok lå hann eptir viö eyna.

K. 10. Uphaf orrostu.

Nú er liöit var búit, þá greiÖa þeir atróðrinn, ok ljósta upp hvárirtveggju herópi, tengðu þeir Inga menn ekki sin skip ok fóru ekki samfast, þvíat þeir røru þveran hvern strauminn, ok sveif mjçk stórskipum. Erlingr skakki lagði at skipi Hákonar kon-



ungs ok stakk stafni at milli ok Siguröar skips; tóksk þá orrosta; en skip Grégóríús sveif upp á grunninn ok hallaöi mjçk, ok kómusk þeir i fyrstu ekki viö atlçguna. En er Hákonar menn sá þat, þá lçgöu þeir til ok sóttu at þeim, en skip Gregorius lå fyrir. Pá lagöi at Ivarr, sonr Hákonar maga, ok sveif saman lyptingunum. Ivarr krœkði( stafnljá um Grégóríum, þar sem hann var mjóstr, ok hnykÖi at sér, ok hçrfaöi Grégóríús at boröinu út, en léinn upp eptir siÖunni, ok var við sjálft, at hann myndi krækja hann fyrir borð. Grégóríús varö litt sárr, þvíat hann haföi spangabrynju. Ivarr kallaöi á hann ok kvaö hann þykbyrt hafa. Grégóríús segir, kvaö hann svá um búa, at þess þurpti viö, ok gekk þó ekki af. På var viö sjálft, at þeir Grégóriús mundu veröa fyrir borö at ganga, áðr en Áslákr ungi kom akkeri i skip þeira ok dró þá af grunninu. På lagöi Grégóríús at skipi Ivars, ok áttusk þeir þá viö langa hriö; var skip Grégóríús meira ok fjçlmennara; feil mjçk liö á Ivars skipi, en sumir hljópu fyrir borö. Ivarr varö sárr mjçk, svá at hann var óvigr; en er skip hans var hroöit, þá lét Grégóríús flytja hann til landz ok kom honum undan ok váru þeir vinir siöan.

K. 11. Flótti Hákonar konungs.

En er Ingi konungr ok hans félagar så, at Grégóriús var á grunninu, þá hét konungr á liðit, at þeir skyldu til róa; hann mælti: »þetta var it ósnjallasta ráö, er vér skyldum hér eptir liggja, en vinir várir fóru til bardaga; vér hçfum þat skip, er mest er ok bezt skipat i çllum herinum; nú sé ek, at Grégóríó er liös j^çrf, þeim manni, er ek á bezt at launa, ok leggjum til bardaga sem haröast; er þat ok réttast, at ek sjå i orrostu, þvíat ek vil sigrinn eignask, ef fæsk; en þótt ek vissa fyrir, at várir menn mundu ósigr hafa, þá væri oss þó så einn til, at vera þar sem aörir eru várir menn, þvíat ek má ekki at færask, ef missi þeira manna, er brjóst eru ok rçskvastir eru ok lengi hafa verit

forstjórar fyrir mér ok minu riki« — baö setja upp merkin, ok var svá gçrt ok røru þeir yfir ána. Pá var bardagi sem óöastr, ok fekk konungr eigi rum til atlçgunnar; svá lágu skipin þr0ngt fyrir; þá lçgöu þeir undir austrffrararknçrruna; þar var borit á þá ofan kesjur ok pálstafir ok grjót svá stórt, at ekki helt viö, ok máttu þeir ekki vera þar. En er liösmenn sá þat, at konungr \ar kominn, þá ruddu þeir fyrir honum, ok lagöi hann þá at skipi Eindriöa Jónssonar. Pá eyddu Hákonar menn smáskipin



ok gengu upp á knçrruna, en sumir á land. Erlingr skakki ok hans menn áttu harða sókn; hann var i fyrirrúmi; hann kallaöi á stafnbúa sina ok bað þá ganga upp á konungsskipit; þeir svçruöu, at þar var eigi dælt ok þar var járn á trjám fyrir.

Erlingr gekk fram i stafninn ok dvalðisk þar litla hriö, áðr en þeir greiddu upgçngu á konungsskipit ok hruöu þat skip; tók þá at flýja allr herrinn; eptir þat hljóp á kaf mart liöit ok mart flýöi, en allr fjçlöinn komsk á land, svá sem Einarr Skúlason segir:

229. Margr feil maör af dreyrgu230. Mçrg flutu auð, á úrga marblakks á kaf saxi (alm sveigöi lið) hjalma

(gnógt elði feksk gýgjar rauð flugu stçl, 1 striöri

glaum), råk ná fyr straumi; stafnblóöug skip móöu, elfr varö unda gjálfri áðr á grund af grœöis

eitrkçld roðin heitu, gœöinga liö flœði,

vitnis feil meö vatni sveit varö i rym ritar

varmt çlör i men Karmtar. rýr Hákonar, dýrum. Einarr orti um Grégóríúm Dagsson flokk þann, er kallaöar eru Elfarvisur. Ingi konungr gaf griö Nikolási Skjaldvararsyni, þá er skip hans var hroöit, ok gekk hann þá til Inga konungs ok var meö honum siöan, meöan hann lifói. Eindriöi Jonsson hijóp á skip Inga konungs, þá er hans skip var hroöit, ok baö sér griöa; konungr vildi gefa honum griö, en sonr Hávarðz klinings hljóp til ok hjó hann banahçgg, ok var þat verk mjçk lastat, en hann segir, at Eindriöi hafói ráðit drápi Hávaröz, fçöur sins; Eindriði var mjçk harmaÖr ok þó mest i Prændalçgum. Par feil mart af liöi Hákonar, en eigi fleiri hçföingjar; fått feil af Inga liöi, en mart var sårt. Håkon flýði á land upp, en Ingi fór norör i Vikina sinu liöi; hann var i Vikinni um vetrinn ok Grégóríús. En er þeir kómu til Bjçrgynjar frå orrostu menn Inga konungs, synir Ivars af Eldu, Bergljótr ok þeir brœör, þá drápu þeir Níkolás skegg, er gjaldkeri hafói verit, ok fóru siöan heim norör i Prándheim. Håkon konungr kom norör fyrir jól, en Sigurör var stundum heima á Reyri. Grégóríús hafði tekit honum griö af Inga, at skyldi hafa eignir sinar allar, þvíat þeir Grégóriús ok Sigurör váru náfrændr. Håkon konungr var i kaupangi um jólin, ok bçröusk menn hans einn aptan um iólin i hiröstofunni snimma jólanna ok hçföu vii. menn bana ok margir uröu sárir. En eptir inn viii. dag jóla þá fóru þeir lags-menn Hákonar inn á Eldu, Álfr hroÖi, sonr óttars birtings, ok



nær lxxx. manna, ok kómu þar çnduröa nótt, þá er hinir váru diuknir, ok lçgöu eld i stofuna, en þeir gengu út ok vçrÖusk; en þar feil Berg-ljótr, sonr Ivars, ok Qgmundr, bróöir hans, ok mjçk mart manna. Par hçföu verit nær xxx. manna inni. Um vetrinn i kaupangi norör andaðisk Andrés Simunarson, fóstbróðir Hákonar konungs, ok var it mesta harmaör. Erlingr skakki ok menn Inga konungs, þeir er i Bjçrgyn váru, létu sem þeir mundu fara norðr þá um vetrinn ok taka Håkon, ok varö ekki af. Grégóríús sendi þau orð austan ór Konungahellu, ef hann çæti jamnær sem þeir Erlingr, at hann myndi eigi sitja kyrr i Bjçrgyn, ef Håkon léti drepa vini Inga konungs i Prándheimi ok logunauta þeira.

K. 12. Bardagi á bryggjum.

Ingi konungr ok Grégóríús fóru austan um várit til Biçrgynjar; en þegar er Håkon spurði þat ok þeir Sigurör, at Ingi var farinn ór Vikinni, þá fóru þeir austr it øfra i Vikina. En er þeir Ingi konungr kómu til Bjçrgynjar, þá gerðisk ósætt milli Haldórs Brynjólfssonar ok Bjarnar Nikolássonar, ok spuröi húskarl Bjarnar, hvi hinn væri svá bleikr, þá er þeir mættusk á bryggjum niöri, en hann kvaö sér látit blóö. Eigi vi Ida ek svá veröa viö blóðlátit fisbleikr sem þú ert«. »En ek ætla, kvaö hinn, at þú myndir verr viö veröa ok ódrengiligarr« — ok varö eigi

uphaf meira at en svá; þá óx orö af oröi, þar til er þeir deildu ok bçröusk þvi næst. På var sagt Haldóri Brynjólfssyni, at húskarl hans var særör á bryggjum; en Haldórr drakk þar hjá i garöinum; gekk hann þá þangat til; en áör váru þeir komnir húskarlar Bjarnar, ok þótti Haldóri þeir ójafnt skilit hafa, ok stçkuöu þeir Bjarnar hüskçrlum ok knúskuÖu þá. Pat var sagt Birni bukk, at Vikverjar bçröu húskarla hans á bryggjum niöri. Pá tóku þeir Bjçrn vápn sin ok fóru til ok vildu hefna sinna manna; uröu þá áverkar miklir. Pá var sagt Grégórió, at Haldórr, mágr hans, þurpti liös, ok húskarlar hans váru hçggnir niör á stræti úti. Pá hljópu þeir Grégóriús i bryn jur sínar ok fóru til. Pá spuröi Erlingr skakki, at Bjçrn, svsturson hans, baröisk viö þá Haldór ok Grégóríúm á bryggjum inn ok honum var liös þprf; þá fór hann til þannug ok var allfjçlmennr ok baÖ menn veita sér liö, kvaö mçnnum klæki i vera — »ef einn vikverskr maör skal yfir oss ganga hér i frændhaga várum, ok mun oss þat æ ok æ uppi«. Par fellu xiiii.



menn, ok hçföu ix. þegar bana, en v. çndubusk síðarr ór sårum en mart varð sårt. Pá kómu Inga konungi orð, at þeir bçrbusk inn á bryggjum Grégóriús ok Erlingr, ok fór hann til ok vildi skilja þá ok mátti engu á orka, þviat þeir váru svá óbir hvárir-tveggju. Pá kallaði Grégóriús á Inga konung, bað hann frá fara, kvab hann engu mundu mega á orka at svá gçru, kvab hinn mestan geig, ef honum yrði nçkkut — »þviat eigi kann vita, hverr så er, er eigi sparir óhapp við sik, ef hann þykkisk i fœri komask«. På fór konungr i brot. En er þurru hlaup in mestu, þá gengu þeir Grégóriús upp til Nikoláskirkju, en þeir Erlingr eptir, ok kçllubusk þá á. Siöan kom Ingi konungr i annat sinn ok sætti þá, ok vildu þeir þá hvárirtveggju, at hann skipaði einn milli þeira. Pá spurbu þeir, at Håkon var i Víkinni, ok fór Ingi konungr ok Grégóriús austr, ok hçfbu mjçk mart skipa. En er þeir kómu austr, þá stukku þeir Håkon undan, ok varb engi orrosta. Fór þá Ingi konungr inn til óslóar, en Grégóriús var i Konungahellu.

K. 13. Dráp Munáns.

Grégóríús spurbi til þeira Hákonar lítlu sibarr, þar sem heita Saurbýir, þat er uppi vib markirnar. Hann fór þangat ok kom um nótt ok hugbi, at þeir Håkon ok Sigurbr mundti vera á inum meira býnum, ok lçgbu þar eld í hús. Peir Hákon váru á inum minna bœnum, lçgbu þeir til, þar er þeir sá eldinn, ok vildu duga hinum. Par feil Munán, sonr Ála óskeyndz, bróbir Sigurbar konungs, fçbur Hákonar; þeir Gregorius drápu hann, þegar hann vildi duga þeim, er inni váru brendir; þeir gengu ut, ok var þar mart manna drepit. Åsbjçrn jalda komsk af bænum, hann var vikingr inn mesti, ok var sárr orbinn; en bóndi einn hitti hann, ok bab Åsbjçrn, at bóndi skyldi hann låta undan ganga, ok lézk honum mundu gefa fé til. Bóndi lézk þat mundu gera, er hann var fúsari til, lézk opt hafa gengit hræddr fyrir honum ok hjó hann banahçgg. Peir Håkon ok Sigurbr kómusk undan, en mart var drepit lib þeira. Siban fór Grégóríús austr til Konungahellu. Litlu sibarr fóru þeir Håkon ok Sigurbr til bús Haldórs Brynjólfssonar á Vettaland ok logbu eld i husin ok brendu. Haldórr gekk út ok var hçggvinn þegar, ok húskarlar hans meb honum; váru þeir drepnir nær xx. menn allz. Sigribr kona hans, systir Grégórii, hana létu þeir ganga til skógar i brot i náttserk einum. Par tóku þeir Åmunda, son



Gyrðar Ámundasonar ok Gyriöar Dagsdóttur, systurson Grégórii, ok hçföu meö sér; hann var þá v. vetra.

K. 14. Fall Grégóriús Dagssonar.

Grégóríús spurði þessi tiöendi, ok þótti honum mikit at; hann frétti vandliga at, hvar þeir væri. Grégóríús fór ór Konungahellu ofarla jólanna meö miklu liÖi, ok kómu þeir til Fors inn xiiii. dag jóla ok váru þar um nóttina ok hafði þar óttu-sçng affaradag jólanna, ok var honum lesit guðspjall eptir; þat var laugardag. Ok er þeir Grégóriús sá liö Hákonar, þá sýndisk þeim lið þeira Hákonar miklu minna en sitt liö. Á ein var i milli þeira, er þeir hittusk; hon heitir Befja; iss var illr å ánni, þviat flóð gekk undir isinn útan; þeir Håkon hçföu hçggnar vakar á ánni ok mokat yfir siöan, svá at ekki mátti til sjå. På er Grégóriús kom at ánni, mælti hann, lézk illr sýnask issinn kvaö þeim þat ráö at fara til brúar, er litlu ofarr var á ánni. Bóndaliðit segir ok kváöusk eigi vita, hvi gegndi, er hann skyldi eigi þora at soekja at þeim um isinn, eigi meira liö en þeir hçföu fyrir, létu is fullgóöan ok kvazk hor f inaida þykkja. Gré-góriús svarar, kvaö sjaldan hafa þess þurpt at frýja sér ailmjçk áræöis ok kvaö eigi enn þat skyldu, baö þá fylgja vel ok standa eigi å landi, ef hann gengr á isinn, ok baö þeira ráð vera, at ganga á

is vándan, en hann lézk ófúss — »en þeygi vil ek sitja yör frýju« segir hann, ok baö bera merki sitt fram; gekk hann þá út á isinn; en þegar er bóndaliðit fann, at issinn var vandr, þá hvarf liöit aptr. Grégóriús lá i isnum, ok eigi mjǫk; hann baö menn varask viö, en eigi gekk fleira eptir honum en nær XX. menn, en annat liö hvarf aptr alt. Maör skaut at honum ǫr ór flokki Hákonar ok laust undir kverk honum. Grégóríús feil þar ok xx. menn meö honum, ok er þar nú lokit ævi hans. En þat var almæli, at hann hafi verit mestr hǫföingi lendra manna i Nóregi i þeira manna minnum, er þá váru uppi, ok bezt verit viö oss Islendinga, siöan er Eysteinn konungr andaÖisk inn ellri. Lik Grégóríí var fœrt á Hǫfund upp ok grafit i Gimsey at nunnusetri, því er þar er. Par var þá Baugeiö abbadis, systir Grégóríí.

K. 15. Frå Inga konungi.

Ármenn ii. fóru meö tiöendin at segja Inga konungi inn i Ösló; en er þeir kómu þar, þá heimtu þeir konung á mál. Hann



spuröi, hvat þeir segja tíðenda. »Fall Grégórii Dagssonar« sçgÖu þeir. »Hvi bar svá illa at?« segir konungr. Peir sçgÖu honum. Konungr svarar: »þeir réðu þar þá, er verr kunnu«. Pat er svá sagt, at hann kunni því svá illa, at hann grét sem barn; en er þat gekk af honum, mælti hann þetta: »ek vilda fara til fundar viö Grégóríúm, þegar ek spuröa dráp Haldórs, þviat ek þóttumk vita, at Grégóríús myndi eigi sitja svá lengi, at hann myndi eigi til hefndar ráöa; en þetta fólk lét, sem ekki væri jamskylt sem jóladrykkja sjå ok eigi mætti henni bregða; þviat ek veit vist, ef ek væra þar, at annat tveggja myndi at meira ráöi fram farit, eöa vit Grégóriús myndim fara til einnar gistingar báðir ella. En þar er så maör farinn, er mér hefir beztr verit ok mest hefir landinu haldit i hendr mér; en þat hugða ek til þessa, at skamt myndi milli okkar verða. Nú skal ek einn viö leggja, at fara til viö Håkon, ok skal annat tveggja, at ek skal hafa bana, eöa stiga yfir þá Håkon ella; en eigi er sliks mannz at hefndra, sem Grégóríús var, þótt þeir komi allir fyrir«. Maör svarar, lét hann litt mundu þurfa at leita þeira, kvaö þá þannug ætla til fundar hans. Kristin var þar i Ösló, dóttir Siguröar konungs, bræörunga Inga konungs. Hann spuröi, at hon ætlaöi ór bænum brot ok sendi henni orö ok spuröi. hvi hon vildi ór bænum; en henni lézk agasamligt þykkja ok kvaö eigi kvinna vist þar vera. Konungr baö, at hon skyldi eigi i brot fara — »meö því at vér hafim gagn, sem ek ætla, þá muntu hér vel haldin, en meö því at ek falla, þá munu vinir minir eigi nå at búa um lik mitt, en þó skaltu biöja, at þér sé lofat at búa um likit; máttu mér svá helzt launa þat, er ek hefi verit vel viö þik«.

K. 16. Frå Inga konungi.

Blásíúsmessu at kveldi kom njósn Inga konungi, at Há-konar væri þá ván til býjarins. Pá lét Ingi konungr blása liöinu upp ór bænum, ok var þar þá skorat nær xl. hundraöa manna. Konungr lét vera fylkingina langa ok eigi meirr en v. menn á þykðina. Pá mæltu menn viö konung, at hann skyldu eigi vera i orrostu, lézk þykkja mikil ábyrgö á honum — »ok veri Ormr, bróðir þinn, hçiföingi fyrir liöinu«. Konungr segir: »þat ætla ek, ef Grégóríús liföi ok væri hann hér nú, en ek væra fallinn ok skyldi min hefna, at hann myndi eigi liggja i fylsknum ok



myndi vera i orrostu sjálfr; en þótt ek sjá verr atskjótaðr fyrir vanheilsu sçkum en hann var, þá skal ek eigi verr viljaÖr viö hann; ok er engi ván, at ek muna eigi i orrostu vera«. Svá segja menn, at Gunnhildr, er Simun hafði átt, fóstra Hákonar, léti sitja úti til sigrs Hákoni; en þat vitraöi, at þeir skyldi ber jask viö Inga um nótt, en aldrigi um dag, kvað þá hlýöa mundu; en Pórdís skeggja er sú kona nefnd, er sagt er at úti sat, en eigi veit ek sann á því. Simun skálpr hann haföi gengit i býinn ok lagzk niör at sofa ok vaknaði viö herópit. En er á leiö nóttina, kom njósn til Inga konungs; var honum sagt, at þeir Håkon fóru þá útan á isinn, en iss lá alt frá býnum út til Hgfuöeyjar.

K. 17. Tala Inga konungs.

Ingi konungr meö sinn her gekk þá út á isinn ok setti fylking sina fyrir býinn. Var Simun skálpr i þann arminn, er ut vissi til Prælaborgar, en i þann arminn, er inn var fyrir Nunnusetr, var Guörøör Suöreyja konungr, sonr

Óláfs klinings, ok Jon, sonr Sveins Bergþórssonar bukks. En er þeir Håkon kómu at fylking Inga konungs, þá œpöu hvárirtveggju heróp. Peir Guörøör ok Jón báknuöu til þeira Hákonar ok létu þá vita, hvar þeir váru fyrir. Siöan snøru Hákonar menn þar at, en þeir Guörøör flýöu þegar, ok myndi þat vera nær xv. hundruö manna. En Jón ok mikil sveit meö honum hljópu i liö Hákonar ok barÖ-isk meö þeim. Petta var sagt Inga konungi. Hann svarar svá: »mikit hefir skilt vini mina; aldri myndi Grégóriús ivá fara, meöan hann lifÖi«. Pá mæltu menn, báðu konunginn, at hesti skyldi skjóta undir hann, ok riÖi hann ór orrostu ok upp á Raumariki — »muntu þar fá gnógt liö þegar i dag«. »Engi hugr er mér á því, segir konungr; opt hefi ek heyrt yðr þat mæla, ok þykki mér satt, at litit lagöisk fyrir Eystein konung, bróöur minn, siðan er hann lagöisk á flótta, ok var hann vel at sér gç>rr um alla hluti, þá er konung friöa. Nú kann ek þat sjá við vanheilendi mitt, hversu litit fyrir mik mun leggjask, ef ek tek þat til, er honum skyldi svá mjgk vefjask, jammikit sem atferö okra skilöi ok heilsu ok alt eljan. Ek var þá á annan vetr, er ek var til konungs tekinn i Noregi, en nu em ek vel XXV. Ek þykkjumk vandræöi ok ábyrgÖir hafa meirr haft i konungdóminum, heldr en skemtan ok indæli; ek hefi rnargar orrostur áttar, stundum meÖ meira liöi, stundum minna; hefir





sú min gæfa mest verit, at ek hefi aldri å flotta komit; ráÖi guð lifi minu, hversu langt vera skal, en aldri mun ek å flótta leggjask«.

K. 18. Fall Inga konungs.

En er þeir Jón ok hans félagar hçföu rofit fylking Inga konungs, þá flýöu þeir ok margir, er þar hçföu næst staðit; ok skilðisk þá ok riðlaöisk fylkingin, en er þeir Hákon sóttu þá fast — þá var ok komit at dagan —, þá var sótt at merki Inga konungs; i þeiri hriö feil Ingi konungr, en Ormr, bróðir hans, helt þá upp orrostu. Flýöi þá mart fólkit upp i býinn. Ormr fór tysvar i býinn, siöan er konungr var fallinn, ok eggjaÖi liöit, ok hvártveggja sinn gekk hann út á ísinn ok helt upp orrostu. På sóttu þeir Håkon þann fylkingararminn, er Simun skálpr var fyrir, ok i þeiri atgçngu feil af Inga liöi Guöbrandr Skafhçggs-son, mágr konungs, en Simun skálpr ok Hallvarör hikri gengusk å ok bçröusk með sveitir sinar ok ókusk út fyrir Prælaborg; i þeiri hriö fellu þeir báðir Simun ok Hallvarör. Ormr konungs-bróðir fekk allgott orÖ ok flýöi þó at lykÖum. Áör um vetrinn haföi Ormr fastnat sér Rçgnu, dóttur Nikolás mása, er átt haföi Eysteinn konungr Haraldzson, ok skyldi þá ganga at brullaupinu sunnudaginn eptir. Blásíúsmessa var á frjádegi. Ormr flýöi á Sviþjóö til Magnús, bróöur sins, er þá var þar konungr, en Rçgnvaldr var þar jarl, bróöir þeira; þeir váru synir Ingiriöar ok Heinreks halta; hann var sonr Sveins Sveinssonar Dana-konungs. Kristin konungsdóttir bjó um lik Inga konungs, ok var hann lagör i steinvegginn i Hallvarðzkirkju útar frá kór inum syöra megin; þá hafði hann verit konungr xxv. vetra. I þeiri orrostu feil mart manna af hvárumtveggjum, en þó miklu fieira af Inga liöi. Árni Fríreksson feil af Inga liöi; en þeir Hákonar menn tóku upp brullaupsveizluna ok stórmikit hlutskipti annat.

K. 19. Frá Kristinu konungsdóttur.

Håkon konungr lagöi þá land alt undir sik ok skipaöi allar sýslur sinum mçnnum ok svá kaupstaöi. Peir Håkon konungr ok hans menn hçföu stefnur sinar i Hallvarözkirkju, er þeir réöu landráÖum. Kristin konungsdóttir gaf fé til presti þeim, er kirkjulukla varöveitti, at hann leyndi manni hennar i kirkjunni, svá at så mætti heyra hjal þeira Hákonar; en er hon varö vçr



viö, hvat þeir réöu, sendi hon orÖ ti] Bjçrgynjar Erlingi skakka, bónda sinum, þau at hann skyldi aldri trúa þeim.

K. 20. Jartegn Óláfs konungs.

Sá atburör varÖ á Stiklarstçöum i orrostu, sem fyrr var litat, at Óláfr konungr kastaði frå sér sveröinu Hneiti, þá er hann fekk sår. En einn hverr maör, sænskr at ætt, haföi brotit sverÖ sitt, ok tók sá upp sveröit Hneiti ok vá meö þvi. En så maör komsk brot ór bardaga ok fór meö çörum flottamçnnum; kom hann fram i Sviþjóö ok fór

heim til bús sins. Haföi hann sverö þat um alla sina ævi, en siöan hans sonr, ok tók hverr eptir annan þeira frænda, ok fylgöi þat jafnan eign sverðzins, at hverr sagöi çÖrum nafn sverözins ok svá þat, hvaöan þat var komit. En þat var miklu siöarr á dçgum Kirjalax MiklagarÖz keisara, at þar váru i garöi stórar sveitir Væringja; þá bar svá at á einu sumri, þá er keisarinn var i herferÖ nçkkurri, ok lágu þeir i herbúðum, Væringjar heldu vçrÖ ok vçköu yfir konungi, lágu þeir á vçllunum fyrir útan herbúöir; þeir skiptu nóttinni meö sér til vçku, en þeir, er áðr hçföu vakat, lçgÖusk þá niör ok sváfu; þeir váru allir meö alvæpni. Pat var siör þeira, þá er þeir lçgöusk til svefns, at hverr haföi hjálm á hçfÖi ok skjçld yfir sér ok sverö undir hçföi, ok skyldi leggja hcegri hçnd á meöalkafla. Einn hverr þeira félaga, så er hlotit haföi vçrö inn øfsta hluta nætr, þá vaknaöi hann i dagan; þá var sverö hans i brotu ; en er hann leitaöi, þá sá hann sveröit, hvar lá á vellinum langt frá honum. Hann stóö upp ok tók sveröit, ætlaöi hann, at félagar hans, þeir er vakat hçföu, mundu hafa gçrt til spots at véla frá honum sveröit; þess synjuöu þeir fyrir sik. Slikir atburÖir urðu þrjár nætr. På undraöisk hann mjçk sjálfr ok sva aörir, þeir er þetta sá eöa heyröu, ok spuröu menn hann eptir, hverju þat myndi gegna. På segir hann, at sverö þat var kallat Hneitir ok Óláfr inn helgi haföi átt ok borit sjálfr i orrostu á Stiklarstçöum ; hann segir, hvernug siöan haföi farit sverö þat. Siöan var þetta sagt Kirjalax konungi; þá lét hann kalla til sin mann þann, er meö sverö þat fór, fekk honum gull, þrenn jafnviröi sverözins; en konungr lét sveröit bera 1 Óláfs- kirkju, þá er Væringjar halda; var þat þar siöan yfir altera. Eindriöi ungi var þá i Miklagaröi, er þessir atburÖir geröusk; sagöi hann þessa sçgu i Nóreg, sva sem Einarr Skúlason váttar



i drápu þeiri, er hann orti um Öláf konung inn helga, ok er þar kveðit um þenna atburö.

K. 21. Jartegnir Öláfs konungs.

Sá atburðr varö á Griklandi, þá er þar var Kirjalax konungr, at konungr fór herferð á Blçkumannaland; en er hann kom á Pézinavçllu, þá kom þar á móti honum heiðinn konungr með óvigjan her. Peir hçföu þangat haft hestaliö ok vagna stóra mjçk ok ofan á vigskçrÖ. En er þeir bjoggu náttból sitt, þá skipuöu þeir vçgnum, hverjum við annan, fyrir útan herbúöir sínar, en þar fyrir útan grófu þeir mikit diki; var þat þá alt saman vígi svá mikit, sem borg væri. Konungr inn heiðni var blindr. En er Grikja-konungr kom, þá settu heiöingjar fylking sina á vçllum fyrir vagnaborg. På settu Grikir sina fylking þar i móti, ok riöu hvárirtveggju ok bçröusk; fór þá illa ok óheppiliga; flýðu þá Grikir ok hçföu fengit mikit manntjón, en heiöingjar fengu sigr. På skipaöi konungr fylking af Frçkkum ok Flæm-ingjum, en siöan riöu þeir fram móti heiöingjum ok bçröusk viÖ þá, ok fór sem inum fyrrum, at margir våru drepnir, en allir flýöu, þeir er undan kómusk. Varö þá Grikja-konungr reiÖr mjçk hermçnnum sinum, en þeir svçruöu honum, báöu hann þá taka til Væringja, vinbelgja sinna. Konungr segir svá, at hann vill eigi spilla gørsimum sinum sva, at leiða fá menn, þótt þeir væri hraustir, móti svá miklum her. Pá svaraöi oröum konungs Pórir helsingr, er þá réö fyrir Væringjum: »þótt þar væri fyrir eldr brennandi, þá mynda ek ok minir liöar þegar i hlaupa, er ek vissa, at þat keyptisk i at þér, konungr, heföiö þá friö eptir«. En konungr svarar: »heitiö þér á inn helga Óláf konung yðarn til fulltings ok sigrs yör«. Væringjar hçföu hálft v. hundraö manna; þá tóku þeir heit sitt meö handfesti ok hétu því, at reisa kirkju i Miklagaröi meö sinum kostnaði ok góðra manna stoöum ok låta þá kirkju vigja til vegs ok dýrðar inum helga Óláfi konungi. Siöan runnu Væringjar fram á vçllinn, en er þat sá heiöingjar, þá segja þeir konungi sinum, at þá fór enn liö af Grikja-konungs her — »ok er þetta, segja þeir, hçnd full manna«. På svarar konungr: »hverr er så inn tiguligi maör, er þar riör á þeim hvita hesti fyrir liöi þeira?«. »Eigi sjám vér þann« segja þeir. Par var eigi minni liösmunr en svá, at lx. heiöingja væri i móti einum kristnum manni, en eigi siör heldu Væringjar til bardaga alldjarfliga. En þegar er þeir kómusaman, þá sló ótta í lið heiðingja ok hræzlu, svá at þeir tóku þegar at flýja, en Væringjar ráku þá ok drápu brátt mikinn fjǫlða; en er þat sá Grikir ok Frakkar, þeir er áðr hçfðu flýit fyrir heiðingjum, sóttu þá til ok ráku flóttann með þeim; váru þá Væringjar komnir upp i vagnaborgina; varð þar it mesta mannfall. En er heiðingjar flýðu, þá varð handtekinn inn heiðni konungr, ok hǫfðu Væringjar hann með sér. Tóku þá kristnir menn herbúðir heiðingja ok vagnaborgina.

*

# Uphaf Magnús konungs Erlingssonar.

K. I.

Siðan er Erlingr varö þess viss, hver råöagørö þeira Hákonar var, þá sendi hann boö çllum hçföingjum, þeim er hann vissi, at trúnaöarvinir hçföu verit Inga konungs, ok sva hirösveitinni ok handgengnum mçnnum konungs, þeim er undan hçföu komizk, ok hüskçrlum Grégórii, ok gerÖi þeim stefnulag. En er þeir funnusk ok áttu tal sitt, þá rézk þat þegar, at þeir skyldu halda saman flokkinum, ok bundu þeir þat fastmælum milli sin. Siöan tçluöu þeir, hvern þeir skyldu til konungs taka. Þá talaöi Erlingr skakki, leitaÖi, ef þat væri ráö hçföingja eöa annarra lendra manna, at tekinn væri til konungs sonr Simunar skálps, dóttur-son Haraldz gilla, en Jón Hallkelsson byndisk fyrir flokkinn. Jon mæltisk undan. Var þá leitat viö Níkolás Skjaldvararson, systurson Magnús konungs berfæts, ef hann vildi gerask hçföingi fyrir flokkinum. Hann svaraÖi á þá lund, at þat væri hans ráÖ, at taka þann til konungs, er af konungaætt væri kominn, en þann til ráða fyrir flokkinn, er vænn væri til vits; lét mundu betra veröa til liös; var leitat viö Árna konungsmág, ef hann vildi låta taka til konungs nçkkurn sona sinna, bræÖra Inga konungs. Hann svaraði því, at sonr Kristínar, dótturson Sigurðar konungs, væri bezt ættborinn til konungdóms i Noregi — »er þar, segir hann, sá maör til forráða meÖ honum, er skyida berr til at vera forsjámaör fyrir honum ok rikinu, er Erlingr er, faöir hans, maör vitr, harðráör ok reyndr mjçk i orrostum ok landráðamaðr góðr; mun hann eigi skorta til þessa ráÖs fram-kvæmö, ef hçföingjar fylgja«. Tóku margir vel undir þetta ráð. Erlingr svarar: »svá heyrisk mér til, sem þeir sé flestir, er þessa måls er leitat viÖ, er heldr færisk undan at taka upp vandann. Nú sýnisk mér jafnvist, þótt vér hefim þetta mál, hvárt heldr er,

at tígnin fæsk þeim, er fyrir beitisk flokkinum, eöa verör hinn veg, sem áðr hefir nú mjçk mçrgum farit, þeim er slik stórræði hafa upp tekit, at fyrir þat hafa týnt allri eigunni ok þar meö lifinu; en ef framgangrinn verör at þessu máli, þá má vera, at þeir sé nçkkurir, er vildi þenna kost hafa tekit; mun sá þess þurfa, er gengr i þenna vanda, at setja ramligar skoröur viö, at eigi sæti hann þá mótgangi eöa fjandskap af þeim, er nú eru i þessu ráði«. Allir játtu þvi, at gera þetta samband meö fullum trúnaöi. Erlingr mælti: »þat er frá mér at segja, at næst þykki mér þat bana minum at þjóna Hákoni, ok þótt mér þykki þetta it háskasamligsta, þá vil ek heldr til þess hætta, at låta yör fyrir sjá, ok mun ek taka við forráöum floksins, ef þat er allra yöarra ráö ok fýsi ok vilið ér allir binda þetta meö svardçgum«. Allir játtu því, ok var á þeiri stefnu þat ráöit, at þeir skvldu Magnus Erlingsson til konungs taka. Siöan áttu þeir þing i býnum ok á því þingi var Magnús til konungs tekinn yfir land alt; þá var hann v. vetra gamall. SiÖan gengu til handa honum allir menn, er þar váru, er hçföingjar hçföu verit Inga konungs, ok haföi hverr þeira slikar nafnbætr, sem áÖr hafði haft meö Inga konungi.

K. 2. Ferö Magnús konungs til Danmerkr.

Erlingr skakki byrjaÖi ferÖ sina ok réö sér til skipa ok haföi meö sér Magnús konung ok alla handgengna menn, þá er þar váru; þar var i fçr Arni konungsmágr ok Ingiriör, móöir Inga konungs, ok synir hennar ii. ok Jón kutiza, sonr Siguröar storks, ok húskarlar Erlings ok svá þeir, er verit hçföu húskarlar Grégóríí, ok hçföu allz x. skip. Peir fóru suör til Danmerkr á fund Valdamars konungs ok þeira Búriz Heinrekssonar, bróöur Inga konungs. Valdamarr konungr var frændi skyldr Magnús konungs; þær váru systr, dætr Haraldz konungs ór GçrÖum austan, — hann var sonr Valdamars Jarizleifssonar —, Ingil-borg, móðir Valdamars konungs, ok Málmfríðr, móöir Kristinar, móður Magnús konungs. Valdamarr konungr tók vel viö þeim, ok váru þeir Erlingr lçngum á stefnum ok råöagøröum, ok kom þat upp af tali þeira, at Valdamarr konungr skyldi veita styrk Magnúsi konungi allan af sinu riki, þann er hann þyrpti til þess at eignask Nóreg ok halda siöan, en Valdamarr skyldi hafa þat riki i Nóregi, sem haft hçföu inir fyrri frændr hans, Haraldr Gormsson ok Sveinn tjúguskegg. Vikina alla

Var þessi råöagørö bundin eiöum ok einkamálum. Siöan búa þeir Erlingr ferö sina af Danmçrk ok siglðu út af Vendilskaga.

K. 3. Orrosta i Túnsbergi.

Håkon konungr fór þegar um várit eptir páskir norðr til Prándheims; hann hafði þá skip çll, þau er átt hafði Ingi konungr. Håkon átti þing i býnum i kaupangi ok var hann þar til konungs tekinn um alt land; þá gaf hann Siguröi af Reyri jarldóm ok var hann þar til jarls tekinn. Síðan fóru þeir Håkon aptr suðr ok alt i Vik austr; fór konungr til Túnsbergs, en sendi Sigurð jarl austr i Konungahellu at verja land meÖ sumu liöinu, ef Erlingr kcemi sunnan. Peir Erlingr kómu at Qgöum ok heldu þegar norör til Bjçrgynjar. Peir drápu þar Árna brigöarskalla, sýslumann Hákonar konungs, ok fóru aptr austr þaöan til móts við Håkon konung; en Sigurör jarl hafði ekki oröit varr viö sunnanferöina Erlings ok var hann þá enn austr viö Elfi, en Håkon konungr var i Túnsbergi. Erlingr lagöi viö Hrossanes ok lá þar nçkkurar nætr. Håkon konungr bjósk viö i býnum. Erlingr lagöi at býnum; þeir tóku byrÖing einn ok hlóðu meö viöi ok hálmi ok lçgöu i eld, en veörit stóð upp i bvinn, ok rak byröinginn at býnum. Hann lét bera kaöla ii. á byröinginn ok tengja viö skútur ii., lét róa svá eptir, sem byröinginn rak fyrir; en er eldrinn var mjçk kominn inn at býnum, þá heldu þeir kçölum, er á skútunum váru, svá at eigi mátti býrinn brenna; reyk lagöi svá þykt i býinn, at ekki sá af bryggjunum, þar sem fylking konungs stöö. Siöan lagöi Erlingr çllu liöinu útan eptir á veörit eldinum, ok skutu upp á þá. En er býjarmenn sá, at eldrinn nálgaðisk hús þeira, ok margir uröu sárir af skotum, þá geröu þeir ráö sitt ok sendu Hróald prest langtçlu út á fund Erlings, at taka sér griö ok býnum af Erlingi, ok rufu fylking konungs, þá er Hróaldr sagöi þeim, at griÖin váru tekin. En er býjarmannaliö var brott farit, þá þvntisk liö á bryggjunum, eggjuöu þá sumir Hákonar menn, at viö skyldi taka, en Qnundr Simunarson segir sva, er þá hafði mest ráÖ fyrir liöinu: »eigi mun ek berjask til rikis Siguröi jarli, en hann sé hvergi nær«. Siöan flýði Qnundr ok þá alt liö meö konungi ok fóru upp á land, ok feil þar mjçk mart manna af Hákonar liöi; sva var þá kveÖit:MAGN. ERL.

617

231. Qnundr kvazk eigi mundu viö orrostu kosta,

fyrr en sunnan siglÖi Sigurör jarl meö húskarla; Porbjçrn skakkaskáld segir svá:

232. Greitt frák, gumna dróttinn gríðar faks, i víöu,

trauðr esa tenn at rjóöa, Túnsbergi þér snúna;

mjçk fara Magnús rekkar mætir upp of stræti, en Hákonar haukar hart skunduöu undan.

hræddusk bjartra brodda býjar menn viö rennu; ugðu eld ok sveigöan alm dynviöir malma.

Håkon konungr fór it øfra norör i Prándheim; en er Sigurör jarl spurði þetta, þá fór hann meö skipum çllum, þeim er hann fekk, it ýtra norör til móts viö Håkon konung.

K. 4. Frá Erlingi ok Hákoni.

Erlingr skakki tók skip þau çll i Túnsbergi, er Håkon konungr átti; þar fekk hann Bœkisúðina, er Ingi konungr hafði átt. Erlingr fór siöan ok lagöi undir Magnús alla Vikina ok svá norör, alt sem hann fór, ok sat um vetrinn i Bjçrgyn. Pá lét Erlingr drepa Ingibjçrn sipil, lendan mann Hákonar konungs, norör i Fjçröum. Håkon konungr sat i Prándheiini um vetrinn, en eptir um várit bauö hann út leiöangri ok bjósk at fara suör til móts viö Erling. Par váru þá meö honum Sigurör jarl, Jón Sveinsson, Eindriöi ungi ok Qnundr Simunarson, Philippús Pétrsson, Philippús Gyröarson, Rçgnvaldr kunta, Sigurör kåpa, Sigurör hjúpa, Frírekr kœna, Áskell á Forlandi, Porbjçrn, sonr Gunnars gjaldkera, Strað-Bjarni.

K. 5. Frá liöi Erlings.

Erlingr var i Bjçrgyn ok haföi liö mikit ok tók þat til ráös, at hann lagöi farbann fyrir kaupskip çll, er fara vildu norör til kaupangs, fyrir því at hann hugöi, at ofskjótt myndi koma Hákoni njósn, er skipin færi i milli, ok fann þó þat til, at Bjçrgynjar-menn væri makligri at hafa gcezku þá, er á skipunum var, þótt ódýrra væri keypt at byröingsmçnnum, en þeim þœtti fallit, heldr en flutt væri — »i hendr fjandmçnnum várum ok óvinuin, þeim til styrks«. Nu sçmnuöusk skip til býjarins, þviat mçrg kómu hvern dag, en engi fóru i brot. På lét Erlingr setja upp skip sin, þau er léttust váru, ok lét þann kvitt fara, at hann myndi þar bíða ok veita viörtçku viö vina sinna fulting ok frænda.. En einn hvern dag lét Erlingr blåsa til stýrimanna



stefnu ok gaf þá lof çllum kaupskipa stýrimgnnum at fara, hvert er þeir vildu; en er menn hçföu fengit leyfi af Erlingi skakka, þeir er fyrir byrðingum réöu ok áör lágu albúnir at fara meö varnaði sínum, sumir meÖ kaupum, en sumir áttu çnnur ørendi, var þat þá ok veðr, er vel var segltoekt norðr með landi, ok fyrr en non kvæmi þess dags, hçföu allir siglt, þeir er búnir váru; sótti sá sina ferö ákafligast, er skip haföi skjótast; kepöisk hverr viö annan. En er þetta samflot kom norör á Mceri, þar var þá fyrir liö Hákonar konungs, ok sjálfr hann var þar i i o liösamnaöi ok búnaÖi ok stefndi til sin lendum mçnnum ok leiöangrsmçnnum ok haföi þá áÖr langa hriö ekki til tiöenda spurt af Bjçrgyn, en nú fengu þeir eina njósn af çllum skipum, er sunnan fóru, at Erlingr skakki haföi upp sett skip sin i Bjçrgyn, ok mundu þeir hans eiga þangat at vitja, ok segja, at hann heföi mikit liö. Paöan siglöi Håkon til Véeyjar, en geröi fra sér inn i Raumsdal Sigurö jarl ok Qnund Simunarson, at få sér liö ok skip, en hann sendi frå sér menn á Mœri hváratveggju. En er Håkon konungr haföi dvalzk får nætr i kaupbœnum, þá lagöi hann brot ok suör nçkkuru lengra, ok þótti sem þá myndi fljótara byrjuö þeira ferö ok liö myndi skjótara til hans koma. Erlingr skakki haföi leyft brotferö byröingum ór Bjçrgyn sunudag, en týsdag, er lokit var formessum, var blásit konungs lúðri ok stefnt til sin liösmçnnum ok b^-jarmçnnum, ok setja fram skip þau, er áðr váru upp sett. Erlingr átti húsþing viö liö sitt ok leiöangrsmenn, segir þá ætlan sina, nefndi menn til skipstjórnar, lét lesa upp, hverir skráðir váru á konungsskipinu. Lauk svá þessu þingi, at Erlingr bað hvern búask um i sinu rúmi, hvar sem skipat var, lét þann missa skyldu lífs eöa lima, er þá dvelÖisk eptir i bænum, er hann lagöi braut Bœkisúðinni. Ormr konungs-bróöir lagöi þegar brot sinu skipi um kveldit, ok flest skip hçföu áðr verit á floti.

K. 6. Frá Erlingi skakka.

Óöinsdag, áðr messur væri sungnar i býnum, lagöi Erlingr brot çllu liöinu ór bænum; þeir hçföu skip xxi.; þá var blásandi 33 byrr sunnan meö landi. Erlingr haföi meÖ sér Magnus konung, son sinn; margir váru þar lendir menn ok hçföu it friöasta liÖ. På er Erlingr siglöi norÖr fyrir Fjçröu, þá sendi hann skútu inn af leiÖ til bús Jons Hallkelssonar ok lét taka Níkolás, son Simunar skalps ok son Máriu, Haraldzdóttur gilla, ok hçföu þeir



hann meö sér út til liÖsins; fór hann á konungsskipit. Frjádag þegar í óttu siglÖu þeir á Steinavág; Håkon konungr lá þá i hçfn

þeiri, er heitir....., ok hafði xiiii. skip; var hann sjálfr ok

menn hans uppi á eyjunni á leiki, en lendir menn hans sátu á haugi nçkkurum. Peir så, at bátr nçkkurr røri sunnan at eynni; ii. menn váru þar á ok létu þeir fallask i kjçlinn ofan ok tóku þeir fram árum eigi óákafligarr; en er þeir kómu at landi, festu þeir eigi bátinn ok runnu báöir; en þetta sá rikismenn ok rceddu sin i milli, at þessir menn mundu segja kunna tiöendi nçkkur, stóðu upp ok gengu i móti þeim; ok þegar er þeir funnusk, spurði Qnundr Simunarson: »kunnuö þit nçkkut segja til Erlings skakka, er þit fariö svá ákafliga?«. Sá svarar, er fyrri mátti máli upp koma fyrir mœÖi sakir: »hér siglir Erlingr sunnan at yör meö xx. skip eöa því nær ok mçrg ýrit stór, ok munuö þér nú skjótt sjå segl þeira«. På segir Eindriöi ungi: »ofnær nefi, kvaö karl, var skotinn i auga.« Gengu þeir þá þegar skyndiliga þar til sem leikrinn var, ok þvi næst kvaö lúðr viö ok var blásinn herblástr ç>llu liöi til skipa sem ákafligast, ok var þat i þann tima dags, er mjçk var matbúit. Til skipanna stefndi alt fólk, hljóp hverr

þar út á skip, sem honum var næst, ok uröu skipin ójafnskipuð; taka þeir til ára, sumir reisa viðuna ok snúa norör skipunum ok stefna til Véeyjar, fyrir þvi at þeir væntu sér þar mikils liðs af byjarmçnnum.

K. 7. Fall Hákonar konungs.

Pessu næst sjá þeir segl þeira Erlings ok sjá hvárir aÖra. Eindriöi ungi haföi þat skip, er kallat var Draglaun, langskips-búza mikil, ok haföi þá orÖit liöfátt, þviat þeir hçföu hlaupit á çnnur skip, er þar hçföu áör á verit; þat var seinst skipa Hákonar; en þá er Eindriöi kom gegnt eyinni Sekk, þá kom Bœkisúöin eptir þeim, er Erlingr skakki stýrði, ok festi saman þau skip. En Håkon var þá náliga kominn inn til Véeyjar, er þeir heyröu lúðragang, þviat aptr snøru þau skipin, er næst váru, ok vildu veita liö Eindriöa, ok leggja þá hvárirtveggju til orrostu, svá sem viö kómusk ; fóru mçrg seglin ofan þverskipa, en engi váru tengö, ok Içgöu borö viö borö. Pessi orrosta var - ekki lçng, áðr en skipan ryfisk á skipi Hákonar konungs, fellu sumir, en sumir hljópu fyrir borö. Håkon steypÖi yfir sik grári kápu ok hljóp á annat skip; en er hann haföi dvalizk þar lítla hriö ok þóttisk hann vita, at hann var meö óvinum þar kominn,



ok er hann hugsaÖi fyrir sér, þá sá hann enga sina menn eöa sin skip allnær; þá gekk hann á Bœkisúöina ok fram i stafnsveit ok baö sér griöa, en stafnbúar tóku hann til sin ok gáfu honum griö. En i þessi hriö haföi orÖit mikit mannfall ok þó meira af Hákonar mçnnum. Fallinn var þá á Bœkisúöinni Nikolás, sonr Simunar skálps, ok var hans dráp kent þeim sjálfum Erlings mçnnum. Eptir þetta varö hvilö á orrostu ok greiddusk sér hvár skipin. Pá var sagt Erlingi, at Håkon konungr var þar á skipinu ok stafnbúar hans hçföu tekit Håkon til sin ok heituöusk at verja hann. Erlingr sendi mann fram á skipit ok baö þat segja stafnbúum, at þeir varöveitti Håkon svá, at hann færi eigi á brot, en lézk mundu eigi i móti mæla, at konungr hefÖi griö, ef þat væri ráö rikismanna ok væri þaðan leitat um sættir. Stafnbúar mæltu allir, at hann skyldi mæla allra hçföingja heil-astr. På lét Erlingr blåsa ákafliga ok baö menn þess, at menn skyldu leggja at skipum þeim, er óhroöin váru, segir, at þeir mundu eigi komask i bétra færi at hefna Inga konungs. Pá œpöu allir heróp ok eggjaÖi hverr annan ok greiddu til atlçgunnar; i þessum þys var Håkon konungr særör banasári, en eptir fall hans ok þá er hans menn uröu þess varir, þá røru þeir at fast ok kçstuöu hlifunum ok hjoggu tveim hçndum ok hirðu þá eigi um lif sitt. Pessi ofrausn geröisk þeim brått at skaöa miklum, þviat Erlings menn så bera hçggstaöi á þeim; feil lið Hákonar konungs mikill hlutr; bar þat mest til, at liösmunr var mikill ok menn Hákonar hlifðu sér litt, en engi þurpti griðin at nefna af Hákonar mçnnum, nema þeir einir, er rikismenn tóku á vald sitt ok festu fé fyrir. Pessir menn fellu af Hákonar liöi, Sigurör kåpa, Sigurör hjupa, Rçgnvaldr kunta; en nçkkur skip kómusk undan ok røru inn i fjçröu ok hjálpu svá lif i sinu. Lik Hákonar konungs var flutt inn i Raumsdal ok var þar jaröat. Sverrir konungr, bróöir hans, lét f lyt ja lik Hákonar konungs norör til kaupangs ok leggja i steinvegginn i Kristskirkju fyrir sunnan i kórinum.

K. 8. Flótti liöshçföingja Hákonar konungs. Sigurör ok Eindriöi ungi, Qnundr Simunarson, Frirekr kæna ok enn fleiri hçföingjar heldu saman flokkinuin, leifðu skipin i Raumsdal ok fóru siöan til LTplanda. Erlingr skakki ok Magnus konungr fóru liöi sinu norör til kaupangs ok lçgöu land alt undir sik, hvar sem þeir fóru. SiÖan lét Erlingr stefna Eyra-



þing; var þar Magnús tekinn um alt land til konungs. Dvalöisk Erlingr þar litla hriö, þviat honum þóttu Prændir ekki vera trúligir þeim feðgum ; var Magnus þá kallaðr konungr yfir çllu landi. Håkon konungr var maðr heldr friðr sýnum, vel vaxinn, hår ok mjór; hann var herðibreiðr mjç>k; þvi kçlluÖu liðsmenn hann Hákon heröibreiö; en fyrir því at hann var ungr at aldri, hçföu aðrir hçföingjar råöagörö með honum; hann var kátr ok lítillátr i máli, leikinn ok hafði ungmennis ceÖi; vinsæll var hann við alþýðu.

K. 9. Uphaf Sigurðar konungs.

Markús á Skógi hét maðr uplenzkr, frændi Sigurðar jarls; Markús fóstraöi son Siguröar konungs; sá hét Sigurðr. Siöan tóku Uplendingar Sigurð til konungs meö ráði Sigurðar jarls ok annarra hçföingja, þeira, er fylgt hçföu Hákoni konungi, ok hçföu þeir þá enn styrk mikinn liös; fór flokkrinn optliga i tvenn-ingu; var konungr ok

Markús minnr á viðborða, en Sigurör jarl ok aörir hçföingjar meö sinar sveitir meirr við háskann; fóru þeir með flokkinn mest um Uplçnd, en stundum ofan i Vikina. Erlingr skakki haföi meö sér jafnan Magnús, son sinn; haföi hann skipastól allan ok landvarnir; var hann i Bjçrgyn um 20 haustit hriö nçkkura ok fór þaöan austr i Vik ok settisk i Túns-bergi, efnaÖi þar til vetrsetu ok samnaöi at sér um Vikina skçttum ok skyldum, þeim er konungr åtti; hann haföi ok fritt liö ok mikit. En meö því at Sigurör jarl haföi li tit af landi, en mikit var fjçlmenni, varö brátt féfátt, ok þar er eigi váru 25 hçföingjar nær, þá varð eptir fénu leitat mjçk aflaga, sumt meö frekligum sakagiptum, en sumt berliga meö ránum.

K. 10. FyrdæmÖr Sigurör jarl. í þann tima stóð Nóregs-veldi meö blóma miklum; var bóndafólk auöigt ok rikt ok óvant ófrelsi eöa ófriði flokkanna; gerðisk brátt mikit orölag ok stórar frásagnir, þá er rænt var. Víkverjar váru fullkomnir vinir Magnús konungs ok Erlings; olli þvi mest vinsælö Inga konungs Haraldzsonar, þvíat Vik-verjar hçföu meö sinum styrk jafnan þjónat undir þann skjçld. Erlingr lét hafa varöhçld á boenum ok vçköu xii. menn hver ja nótt. Erlingr åtti jafnan þing viö bcendr, ok var þar talat opt um óspekðir Siguröar manna, ok meö fortçlum Erlings ok annarra liösmanna, þá feksk mikill rómr til þess af böndum, at



þat væri mikit happaverk, at menn léti þann flokk aldri þrifask. Arni konungsmágr talaöi langt um þetta mål ok hart at lykðum; beiddi hann þess alla menn, er á váru þinginu, bæöi liðsmenn ok bœndr ok býjarmenn, at menn skyldu gera vápnatak at því, at dœma með lçgum Sigurð jarl ok allan flokk þeira til f jandans bæöi lifs ok dauöa; en með ákafa lýösins ok óstilling, þá játtu allir þvi; var þetta ódœma-verk gçrt ok fest, sva sem lçg váru til at dœma á þingum. Hróaldr prestr langtala talaöi um þetta mál; hann var maðr málsnjallr, ok kom sú tala mjçk i einn staö, svá sem áör haföi talat verit. Erlingr veitti um jólin i Túnsbergi, en konungr gaf mála þar um kyndilmessu.

K. ii. Frá Erlingi.

Sigurör jarl fór meö it friöasta liÖ sitt um Vikina, ok gekk undir hann mart liÖ fyrir ofrikis sakir, en margir guldu fé; fór hann svá víða uppi á landi ok kom fram i ýmsum stçöum; váru þeir sumir i flokkinum, er sér leituöu griöa á laun til Erlings, en þar kómu þau svçr i mot, at allir menn, þeir er þess leituöu, skyldu hafa lifsgriö, en þeir eirrir landzvist, er engi væri • storsçkum viö hann. En er þat spuröu floksmenn, at menn skyldu eigi landzvistina hafa, þá helt þat mjçk saman flokkinum, þvíat þeir váru margir, at sik vissu at því sanna, er Erlingi mundu þykkja mjçk sakbitnir. Philippús Gyröarson gekk til sætta viö Erling ok fekk aptr eignir sinar ok fór aptr til búa sinna. Litlu siöarr kómu þar Siguröar menn ok drápu hann. Mçrg slçg veittu hvárir çörum i eltum eöa i mannaaftçkum, ok er þat ekki ritat, er eigi áttusk hçföingjar viö.

K. 12. Frá Erlingi.

Pat var á çndveröri fçstu, er njósn kom Erlingi, at Sigurör iarl myndi koma á fund hans, ok var til hans spurt hér ok hvar, stundum nær, en stundum firr meirr. Erlingr geröi þá njósn frå sér, at hann skyldi varr veröa, hvar sem þeir kvæmi fram ; hann lét ok hvert kveld blåsa çllu liöinu upp ór býnum, ok lágu þeir um nætr i samnaöi, ok var alt skipt liöinu i fylkingar. På kom Erlingi njósn, at þeir Sigurör jarl váru þaöan skamt i brot upp á Ré. Erlingr byrjar þá feröina ór bcenum ok haföi meö sér alt bœjarfólk, þat er vigt var ok vápnat, ok svá kaupmenn, nema xii. menn, er eptir váru at gæta býjar-ins . Hann fór ór býnum týsdag i annarri viku langafçstu eptir



non, ok haföi hverr maðr sér tveggja daga vist; fóru þá um nóttina, ok varö þeim seint at koma liðinu ór býnum; um einn hest ok einn skjçld váru ii. menn. Pá er skorat var liðit, þá var nær xiii. hundruö manna. En er njósn kom i mot þeim, var þeim sagt, at Sigurör jarl var á Ré á þeim bæ, er Hrafnsnes heitir, meö d. manna. Lét þá Erlingr kalla saman liöit ok segir þau tiöendi, er hann haföi spurt, en allir eggjuöu, at þeir skyldu skunda ok taka hús á þeim eöa ber jask þegar um nóttina. Erlingr talaöi ok mælti svá: »þat mun likligt þykkja, at fundr várr Siguröar jarls myni brått at berask; eru i þeira flokki ok margir aörir þeir menn, er oss mætti minnisamt vera þeira

handaverk, er þeir hjoggu niör Inga konung ok svá marga aðra våra vini, sem seint er tçlu á at koma; geröu þeir þau verk meö f jánda krapti ok fjçlkyngi ok niðingskap, þviat þat stendr hér i lçgum várum ok landzrétti, at engi maör hefir svá fyrir gçrt sér, at eigi heiti þat niÖingsverk eöa morövig, er menn drepask um nætr. Hefir þessi flokkr sér leitat þeira heilla at tilvisan fjçlkunnigra manna, at þeir skyldu um nætr berjask en eigi undir sólu; hafa þeir ok meö þvílíkri framkvæmö þann sigr unnit, at stiga yfir hçfuö þvilikum hçföingja, sem þeir hafa at jçröu lagt. Nu hçfum vér þat optliga sagt ok sýnt, hvernug afleitt oss sýnisk um þeira hått, er þeir hafa um nætr til bardaga ráöit; skulu vér fyrir því heldr hafa hinna hçföingja dæmi, er oss eru kunnari ok betra er eptir at likja, at berjask um ljósa daga ok meÖ fylking, en stelask um nætr á sofandi menn; hçfum vér liÖ gott i móti, eigi meira her en þeir hafa; skulum vér biöa dags ok lýsingar ok haldask saman i fylkingu, ef þeir vilja nçkkur áhlaup oss veita«. Eptir þat settisk niör alt liðit; tóku sumir i sundr heyhjálma nçkkura ok geröu sér af ból, sumir sátu á skjçldum sinum, ok biöu svá lýsingar. Svalt var veÖr ok vátadrífa.

K. 13. Frå fylking Siguröar jarls.

Sigurör jarl haföi sva fremmi fengit njósnina, er liÖit var komit nær at þeim; stóðu menn hans upp ok vápnuðusk ok vissu ogçrla, hversu mikit liö þeir Erlingr hçföu; vildu sumir flýja, en flestir vildu biöa. Sigurör jarl var vitr maör ok snjallr i máli, en kallaör ekki mikill áræöismaör; vai hann ok fúsari þá at flýja, ok fekk hann af því mikit ámæli af liösmçnnum. En er lýsa tók, tóku hvárirtveggju at fylkja liöinu; fylkði Sigurör



jarl á brekku nçkkurri fyrir ofan brúna milli ok býjarins; þar feil litil á; en þeir Erlingr fylkðu çörum megin árinnar; á bak fylking þeira váru menn á hestum vel vápnaöir; þeir hçföu konung meö sér. Jarls menn sá þá, at liösmunr myndi vera mikill, ok tçlöu þat ráð at leita á skóginn. Jarl svarar: »þat segið þér, at mér fylgi engi hugr, en nú skal þat reyna; ok gæti nú hverr sin, at eigi flýi eöa fálmi fyrr en ek. Vér hçfum vigi gott, látum þá ganga yfir brúna, en er merkit kømr yfir brúna, þá steypumk vér á þá fyrir brekkuna, ok flýi nú engi frå çörum«. Sigurör jarl haföi brúnaÖan kyrtil ok rauða skikkju ok drepit upp skautunum, fitskúa á fótum; hann haföi skjçld ok sverö, er Bastarör var kallat. Jarl mælti: »þat veit guö meö mér, at heldr en þiggja mikit gull, þá vilda ek ná meö Bastaröi at koma einu hçggvi viö Erling skakka«.

K. 14. Fall Siguröar jarls.

LiÖ Erlings skakka vildi ganga fram at brúnni; hann mælti, baö þá venda upp meö ánni — »er á þessi litil ok engi torfæra, þviat slétt er at«. Var svá gçrt. Jarls fylking fór upp eptir brekkunni gegnt til; en þá er þraut brekkuna ok slétt var yfir ána ok gott, þá mælti Erlingr, at hans menn skyldu syngva Pater noster ok biöja, at þeir hefÖi gagn, er betr gegndi. På sungu þeir kirjål allir hått ok bçröu vápnum allir á skjçldu sina; en viö þann gný skutusk á brot ok flýöu ccc. manna af Erlings liöi. Gekk Erlingr ok hans liö yfir ána, en jarls menn œpðu heróp; ck þeim brásk framhlaupit fyrir brekkuna at Erlings fylking; tóksk orrosta á framanveröri brekkunni; váru fyrst spjóta lçg ok þegar brått hçggorrosta; fór á hæl jarls merki, svá at Erlingr ok hans menn kómusk upp á brekkuna. Varö þá skçmm orrosta, áör jarls liö flýði á skóginn, er at baki þeim var áör. Pá var sagt Siguröi jarli ok báöu menn hann flýja. Hann segir: »fram vér nú, meöan vér megum«. Gengu þeir þá fram allhraustliga ok hjoggu til beggja handa. I þeiri hriö feil Sigurör jarl ok Jón Sveinsson ok nær lx. manna. Peir Erlingr létu fått manna ok ráku flóttann at skóginum. Pá kannaöi Erlingr liðit ok hvarf aptr; hann kom þar at er þrælar konungs vildu draga klæöi af Siguröi jarli, ok var hann eigi með çllu ørendr ok vissi þó ekki. Hann haföi fólgit sverö sitt i umgørö, ok lá þat hjå honum. Erlingr tók þat upp ok laust meö þrælana, baö þá braut skríöa. Eptir þat hvarf Erlingr aptr meö liöi sinu ok settisk i Tuns-



bergi. Vii. nóttum siöarr en jarl feil tóku þeir Erlings menn Eindriöa unga, ok var hann drepinn.

K. 15. Frá Markúsi.

Markús af Skógi ok þeir Sigurör fóstrar réöu ofan '1 Víkina, er váraÖi, ok fengu sér þar skip. En er Erlingr spuröi þat, þá fór hann austr eptir þeim, ok hittusk þeir i Konungahellu. Flýöu þeir Markús út i evna Hísing; dreif þar ofan landzfólk, Hisings-búar, ok gengu i fylking meö Markús mçnnum. Peir Erlingr røru at landi, en Markús

menn skutu á þá. Þá mælti Erlingr viö sina menn: »tçkum skip þeira, ok gçngum ekki upp at ber jask viö landzher; Hísingsbúar eru illir heimsóknar, haröir menn ok óvitrir; munu þeir litla hriö hafa flokk þenna meö sér, þvíat Hising er litit land«. S vå var gçrt, at þeir tóku skipin ok fluttu yfir til Konungahellu. Markús ok hans lið fóru upp á Markir ok ætluöu þaöan til áhlaupa; hçföu þá hvárir njósn af çÖrum. Erlingr hafói fjçlmenni mikit, nefndi þar til lið ór heruöum; veittu þá hvárigir çörum árásir.

K. 16. Uphaf Eysteins erkibyskups.

Eysteinn, sonr Erlendz himalda, var kosinn til erkibyskups eptir andlát Jóns erkibyskups. Eysteinn var vigör á sama ári ok Ingi konungr feil. En er Eysteinn erkibyskup kom til stóls, var hann vel þokkaör çllu landzfólki; hann var skçrungr mikill, maör ættstórr; tóku Þrændir vel viö honum, þviat flest stórmenni i Þrændalçgum var bundit i frændsemi eöa i nçkkurum tengöum viö erkibyskup, en allir fullkomnir i vináttu. Erkibyskup hóf þá málaleitan við bændr, talaöi fyrst um fjárþurpt staöarins ok þat meö, hversu mikla upreist staörinn þurpti at hafa, ef hann skyldi þá vera þeim mun sæmiligarr haldinn en áðr, sem hann var þá tignari en áÖr, er þar var erkibyskupstóll settr; hann beiddi þess bændr, at þeir skyldu veita honum silfrmetinn eyri i sinn sakeyri, en áðr hafói hann sakmetinn eyri, sem gekk i konungs sakeyri; en þess auralags er helmingsmunr, at meiri er så, er hann vildi hafa, silfrmetinn eyrir. En viö styrk frænda erkibyskups ok vina, en framkvæmö hans sjálfs, þá gekk þetta viö, ok var þat dæmt at lçgum um çll Þrændalçg, ok þetta gekk viö um fylki þau, er i hans erkibyskupsriki váru.



K. 17. Frá Markúsi ok Siguröi.

Sigurör ok Markús, þá er þeir hçföu látit skip sin i Elfinni, sá þat, at þeir fengu ekki fang á Erlingi, þá snørusk þeir til Uplanda ok svá it øfra norör til Þrándheims; var þeim þar vel S fagnat; var Sigurör þar til konungs tekinn á Eyraþingi. Réöusk þar til floksins margir góðra manna synir; réöu þeir þar til skipa ok bjoggusk skyndiliga, fóru, er sumraöi, suör á Mæri, ok tóku allar konungstekjur, hvar sem þeir fóru. Þeir váru i Bjçrgyn lendir menn til landvarnar Níkolás Siguröarson, Nçkkvi Pálsson ok enn fleiri sveitarhçföingjar, Þórólfr dryllr, Þorbjçrn gjald-keri ok margir aörir. Þeir Markús siglöu noröan ok spuröu, at Erlings menn hçföu fjçlment i Bjçrgyn, siglöu þar útleiö ok suör um. Þat hçföu menn á máli, at þat sumar hçföu Markús menn byr, hvar sem þeir vildu fara.

K. 18. Dráp Siguröar.

Erlingr skakki, þegar hann spuröi, at þeir Markus hçföu norör snúit, þá helt hann norör i Víkina, ok dró at sér liö ok varö brått fjçlmennr ok hafói skip stór ok mçrg; en er hann sótti ut i Vikina, fekk hann andviöri ok lå lengi hér ok hvar i hçfnum alt þat sumar. En er þeir Markús kómu austr á Lista, þá spurðu þeir, at Erlingr hafói her óvigjan i Vikinni, vendu þá aptr norör; en er þeir kómu á Hçröaland, þá ætluöu þeir til Bjçrgynjar, en er þeir koma fyrir býinn, þá róa þeir Nikolás innan i móti þeim ok hçföu liö miklu meira ok skip stœrri. Sá þeir Markus þá engi annan sinn kost, en róa suör undan, stefna sumir til hafs ut, sumir suör i sund, sumir i fjçröu inn, en Markús ok sumt liö meÖ honum hljóp upp i ey þeiri, er Skarpa heitir. Þeir Nikolás tóku skip þeira, gáfu griö Jóni Hallkelssyni ok nçkkurum mçnnum çörum, en drápu flest þat, er þeir náðu. Nçkkurum dçgum siöarr fann Eindriöi heiöafylja þá Sigurö ok Markús; váru þeir fluttir til Bjçrgynjar; var Sigurör hçggvinn út frá Grafdali, en Markus hengör viö annan mann á Hvarfs-nesi; en þat. var Mikjálsmessu. Flokr så, er þeim hafói fylgt, dreifóisk þá.

K. 19. Frá Erlingi ok Hísings-búum.

Frirekr kcena ok Bjarni inn illi, Qnundr Simunarson, Qrnólfr skorpa, þeir hçföu róit á haf út meö nçkkurum skipum



ok heldu it ýtra með hafi austr fyrir land; en hvar sem þeir kómu viö land, ræntu þeir ok drápu vini Erlings. En er Erlingr spuröi dráp þeira Markus, þá gaf hann heimleyfi lendum mçnnum ok leiÖangrsmçnnum, en hann sjálfr

helt þá sinu liöi austr yfir Foldina, þvíat hann spuröi þar til Markús manna. Erlingr helt til Konungahellu, ok dvalöisk þar um haustit. Á fyrstu viku vetrar fór Erlingr út i eyna Hising meö miklu liöi ok kraföi þar þings. Hisingsbúar kómu ofan ok heldu upp þingi. Erlingr bar sakir á hendr þeim um þat, er þeir hçföu hlaupit i flokk meö Markús mçnnum ok fylkt liöi i móti honum. Qzurr hét så maör, er rikastr var bónda, er talaöi af þeira hendi. Var þingit langt, en at lyköum festu boendr dóm Erlingi, en hann geröi þeim stefnulag á viku fresti i bænum, ok nefndi til xv. menn af bóndum at koma þar. En er þeir kómu, dcemöi Erlingr á hçnd þeim at gjalda ccc. nauta. Fóru bændr heim ok unöu illa sinum hluta. Litlu siöarr lagöi is á ána ok fraus inni skip Erlings; þá heldu bændr gjaldinu ok lágu i samnaöi um hriö. Erlingr bjó þar til jólaveizlu, en Hisingsbúar hçföu samburöarçl ok heldu sveit um jólin. Um nóttina eptir fimta dag jóla, fór Erlingr út i eyna ok tók hús á Qzuri ok brendi hann inni, ok allz drap hann lxxxxx. manna ok brendi iii. bæi; fór siöan aptr i Konungahellu. Siöan kómu bændr til hans ok guldu gjaldit.

K. 20. Dráp Frireks ok Bjarna.

Erlingr skakki bjósk þegar um várit, er hann mátti flota skipum sinum fyrir isum, ok fór ór Konungahellu. Hann spuröi, at þeir herjuöu norör i Vikinni, er verit hçföu fyrr Markus menn. Erlingr helt til njósnum um farar þeira, ok fór at leita þeira ok hitti þá, er þeir lágu i hçfn nçkkurri. Qnundr Simunar-son ok Qrnólfr skorpa kómusk undan, en Frirekr kæna ok Bjarni inn i 11 i uröu handteknir, ok drepit mart af sveitum þeira. Erlingr lét binda Frirek viö akkeri ok kasta fyrir borð; var Erlingr af þvi verki it mesta óþokkaör i Prændalçgum, þviat Frirekr átti þar ina beztu ætt. Bjarna lét Erlingr hengja ok mælti hann þá, sem hann var vanr, in mestu oröskræpi, áðr hann var hengör; svá segir Porbjçrn skakkaskáld:

233. Urö dró austan fjarðar færÖr vas fleinn meÖal heröa Erlingr at vikingum, Frireks; ofar nekkvi

(mein fekk margr af Kænu skoldi óþarfr çldum maör) es hann fór þaðra; illgjarn viö tré Bjarni.



Qnundr ok Qrnólfr ok þær sveitir, er undan hçföu komizk, flýöu til Danmerkr, en váru stundum á Gautlandi eöa i Vikinni.

K. 2i. Vigör Magnús konungr.

Erlingr skakki helt siöan til Túnsbergs ok dvalöisk þar iengi um várit; en er sumraði, helt hann norör til Bjçrgynjar; var þar þá allmikit fjçlmenni. Par var þá Stephánús légátús af Rúmaborg ok Eysteinn erkibyskup ok aörir byskupar innlenzkir. Par var ok Brandr byskup, er þá var vigör til Islandz; þar var ok Jón Loptsson, dótturson Magnus konungs berfœts; þá haföi Magnús konungr ok aörir frændr Jons tekit viö frændsemi hans. Eysteinn erkibyskup ok Erlingr skakki váru opt á tali ok á einmælum; ok eitt sinn var þat i rœöum þeira, at Erlingr spuröi: »er þat meö sannendum, herra, er menn segja, at þér hafiö aukit auralag um sakeyri yöarn viö bændr norör i landit?«. Erki-byskup svarar: »þat er vist satt, at bændr hafa mér þat veitt, at auka auralag um sakeyri minn; hafa þeir þat gçrt at sjálfræöi sinu, en meö engum pyndingum, aukit i þvi guös dýrð ok auöæfi staöar vårs«. Erlingr segir: »hvárt eru þat lç>g, herra, ins helga Oláfs konungs, eöa hafiö ér tekit nçkkuru frekara þetta mål, en svá sem ritit er i lçgbokinni ?«. Erkibyskup segir: »svá mun inn heilagi Öláfr konungr lçgin hafa sett, sem hann fekk þá jáorö ok samþykki alþýöu til; en ekki finzk þat i hans lçgum, at bannat sé at auka guös rétt«. Erlingr segir: »viliö þér auka yöarn rétt, þá munuö þér styrkja vilja oss til þess, at vér aukim jammiklu konungs réttinn«. Erkibyskup segir: »aukit hefir þú nú áör meö gnógu nafn ok riki sonar þíns; en ef ek hefi aflaga tekit auralçgin af þeim Prœndum, þá ætla ek stærra bera hin lagabrotin, er så er konungr yfir landi, er eigi er konungs sonr; eru þar hvárki til þess lçg né dcemi hér i landi«. Erlingr segir: »þá er Magnús var til konungs tekinn yfir Nóregs riki, var þat gçrt meö yöarri vitand ok ráöi ok svá annarra byskupa hér i landi«. Erkibyskup segir: »því héztu þá Erlingr, ef vér sam-þykÖim meö þér, at Magnus væri til konungs tekinn, at þú skyldir styrkja guös rétt i çllum stçöum meö çllum krapti þínum«. »Játi ek því, segir Erlingr, at ek hefi heitit at halda guös

lçg ok landzrétt meö çllum minum styrk ok konungs. Nú sé ek hér betra ráð til, en hvárr okkarr kenni çörum brigömæli; hçldum heldr çll einkamál vár; styrkiö þér Magnus konung til rikis, svá sem þér hafiö heitit, en ek skal styrkja yöart riki til



allra farsælligra hluta«. Fór þá çll rœÖan mjúkliga meö þeim. Þá mælti Erlingr: »ef Magnus er eigi sva til konungs tekinn, sem forn siör er til hér i landi, þá meguð þér af yöru valdi gefa honum kórónu, sem guös lçg eru til at smyrja konung til veldis. En þótt ek sjå eigi konungr eöa af konunga ætt kominn, þá hafa þeir konungar nú verit flestir i váru minni, er eigi vissu jafnvel sem ek til laga eöa landzréttar; en móðir Magnús konungs er konungs dóttir ok drótningar skilfengin ; Magnús er ok drótn-ingar sonr ok eiginkonu sonr. En ef þér viliö gefa honum kon-ungsvigslu, þá má engi hann taka siöan af konungdóminum at réttu. Eigi var Viljálmr bastarör konungs sonr, ok var hann vigör ok kórónaör til konungs yfir Englandi, ok hefir siöan haldizk konungdómr i hans ætt á Englandi, ok allir verit kórónaðir. Eigi var Sveinn ülfsson i Danmçrk konungs sonr, ok var hann þó þar kórónaÖr konungr, ok siöan synir hans, ok hverr eptir annan þeira frænda kórónaör konungr. Nu er hér i landi erkistóll; er þat mikill vegr ok tign landz vårs; aukum vér nú enn meö góðum hlutum; hçfum konung kórónaöan eigi siör en enskir menn eöa Danir«. Siöan tçluöu þeir erkibyskup ok Erlingr um þetta mål optliga, ok fór alt sáttgjarnliga. Siöan bar erkibyskup þetta mål fyrir légátann ok fekk auövelliga snúit légátanum til samþykkis viö sik. Åtti erkibyskup þá stefnu viö ljóðbyskupa ok aöra kennimenn ok bar þetta mål fyrir þá; en allir svçruÖu á eina lund, segja þat sitt ráö, sem erkibyskup vildi vera låta, ok fýstu allir, at vigsla færi fram, þegar þeir funnu, at erkibyskup vildi svá vera låta; var þat þá allra dómr.

K. 22. Vigsla Magnus konungs.

Erlingr skakki lét búa i konungsgaröi til veizlu mikillar, ok var hçll in mikla tjçlduö pellum ok bakklæöum ok búin meö inum mesta kostnaöi. Var þá veitt hiröinni ok çllum hand-gengnum mçnnum; þar var fjçlöi boösmanna ok margir hçföingjar. Magnús tók þá konungsvígslu af Eysteini erki-byskupi, ok þar váru at vigslunni aörir v. byskupar ok légátinn ok fjçlöi kennimanna. Erlingr skakki ok meö honum xii. lendir menn sóru lagaeiöa meÖ konungi. Ok þann dag, er vigslan var, hafði konungr ok Erlingr i boöi sinu erkibyskup ok légátann ok alla byskupa, ok var sú veizla in vegsamligsta; gáfu þeir feögar þar margar stórgjafar. Þá var Magnús konungr viii. vetra; iii. vetr haföi hann þá konungr verit.



K. 23. Frå sendimçnnum Valdamars konungs.

Valdamarr Dana-konungr hafði þá spurt þau tíðendi af Nóregi, at þar var þá Magnús einn konungr, þá var eytt flokkum çllum çörum þar i landi. På sendi konungr menn sina meö bréfum til Magnus konungs ok þeira Erlings, minti þá á einka-mál þau, er Erlingr haföi bundit viö Valdamar konung, sva sem hér var fyrr ritat, at Valdamarr konungr skyldi eignask Vikina austan til Rygjarbits, ef Magnús yröi einvaldzkonungr i Nóregi. En er sendimenn kómu fram ok sýndu Erlingi bréf Dana-konungs ok hann skilr tilkall þat, er Dana-konungr hefir i Nóreg, þá bar Erlingr þetta fyrir aöra menn, þá er hann skaut ráðum til; en þeir sçgöu allir eitt, at aldri skyldi Dçnum miðla af Nóregi, þviat menn sçgöu, at sú çld hefði verst verit þar i landi, er Danir hçföu vald yfir Nóregi. Sendimenn Dana-konungs tçluöu sitt mål fyrir Erlingi ok beiddu hann órskurðar. Erlingr baö þá fara meö sér i Vik austr um haustit, segir, at hann myndi þá veita órskurö, er hann heföi hitta þá menn i Vikinni, er vitrastir váru.

K. 24. Frå Erlingi.

Erlingr skakki fór um haustit austr i Vik ok dvalöisk i Túnsbergi; gerði menn yfir til Borgar ok lét stefna þar iiii. fylkna þing i Borginni; siöan fór Erlingr þannug meö liöi sinu. En er þing var sett, þá talaöi Erlingr ok segir frá því, hver ráða-gørö heföi verit staöfest meö þeim Danakonungi, þá er þeir Erlingr hçföu hafit flokk þenna fyrsta sinn — »vil ek, segir hann, ok halda çll einkamál þau, er vér geröum þá, ef þat er vil i ok samþykki yÖart bóndanna, at þjóna Dana-konungi heldr en þessum konungi, er hér er vigÖr ok kórónaör til landz«. Bændr svçruöu Erlingi ok segja svá: »fyrir engan mun viljum vér gerask menn Dana-konungs, meöan

einn vår er á lifi Vikverjanna«. Geystisk þá at múgr allr meö ópi ok kalli ok báðu Erling halda eiöa sina, er hann hafði þá svarit çllu landz-fólki, at verja — »land sonar þíns, en vér skulum allir fylgja þér«. Sleit sva því þingi. Siöan fóru sendimenn Dana-konungs heim suör til Danmerkr ok sçgöu sitt ørendi slikt sem var. Danir veittu Erlingi mikit ámæli ok çllum NorÖmçnnum, segja, at þeir væri aldri reyndir nema at illu ; fóru þau orö um, at Dana-konungr myndi eptir um várit hafa úti her sinn ok herja i Nóreg. Erlingr



fór um haustit norör til Bjçrgynjar ok sat þar um vetrinn ok gaf þar måla.

K. 25. Frá bréfum Proenda.

Vetr þann fóru menn nçkkurir danskir it øfra um land ok segja þat, sem margtitt er, at þeir skyldu til ins helga Öláfs konungs til vçku. En er þeir kómu til Prándheims, þá hittu þeir þar marga ríkismenn; segja þá ørendi sin, at Dana-konungr hafði sent þá at leita sér vináttu til þeira ok viötçku, ef hann kømr i land, en hann heitr at gefa þeim bæði riki ok fé. Pessarri orösending fylgöi bréf ok innsigli Dana-konungs ok þat meö, at þeir boendrnir skyldu senda i mot sin bréf ok innsigli. Peir gerðu svá ok urpusk flestir vel undir orösending Dana-konungs. Sendimenn fóru aptr austr, er á leiö langafçstu. Erlingr sat i Bjçrgyn. En er váraði, segja vinir Erlings honum pata þann, er þeir hçföu spurt af byröingsmçnnum, er komnir váru noröan ór Prándheimi, at Prcendir væri berir i fjándskap viö hann ok þeir lýsti þvi á þingum sinum, ef Erlingr kvæmi i Prándheim, at hann skyldi aldrigi koma ut um Agöanes meö fjçrvi. Erlingr segir, at slikt væri uplostning ok hégómi. Erlingr lýsti þvi, at hann myndi fara suör á Unarheim til gagndagaþings ok lét búa snekkju xx.-sessu ok skútu xv.-sessu ok enn vistabvröirtg. En er skipin váru búin, þá lçgöusk á sunnanveÖr hvçss. Tysdag i gagndçgum lét Erlingr blåsa liöi sinu til skipa, en menn váru trauðir ór býnum ok þótti ilt at róa andróðann. Erlingr lagði norðr i Byskupshçfn. Pá mælti Erlingr: »illa kurriö þér at róa andróöann; takiÖ nú ok reisiö viÖurnar, dragiö siöan seglin, ok látum ganga norör skipin«. Peir gerÖu svá, siglöu norör um daginn ok um nóttina. ÓÖinsdag at kveldi siglöu þeir inn um AgÖanes; varö þá fyrir þeim samflot mikit, byrÖingar ok róðrar-ferjur ok skútur; þat var vçkuliö; fóru inn til býjar, sumir fyrir þeim, en sumir eptir; gáfu býjarmenn engi gaum at fyrir þá sçk um langskipasigling.

K. 26. Frá Erlingi ok Proendum.

Erlingr skakki kom til býjarins þann tima, er sunginn var ottusçngr uppi at Kristskirkju. Peir Erlingr hljópu i býinn, ok var þeim sagt, at Álfr hroöi, sonr Öttars birtings, lendr maör, sat þá enn ok drakk meö sina sveit. Erlingr veitti þeim atgçngu; var Álfr drepinn ok flest çll sveit hans; fått feil annarra manna,



þvíat flestir hçföu gengit til kirkju. Petta var um nóttina fyrir upstigningardag. Pegar um morgininn lét Erlingr blåsa çllu liöinu út á Eyrar til þings; en á þinginu bar Erlingr sakir á Prœndi ok kendi þeim landráð viö konunginn ok sik ok nefndi til Bárö standala ok Pál Andréásson ok Razabárö — hann hafði þá býjarbyggö —, ok enn mjçk marga aöra. Peir svçruöu ok fceröu sik undan sçkum. Pá stóö upp kapalin Erlings ok helt upp bréfum mçrgum ok innsiglum ok spurÖi, ef þeir kendi innsigli sin þar, þau er þeir heföi sent um várit Dana-konungi; váru þá ok lesin upp bréfin. Par váru ok þeir inir dçnsku menn meö Erlingi, er meö bréfum hçföu farit um vetrinn; hafði Erlingr fengit þá til þess; segja þeir þá fyrir allri alþýöu hvers þeira orö, er mælt hafði — »svá mæltir þú, Razabárör, ok baröir á brjóstit: ór þessu brjósti kómu at uphafi çll þessi ráð«. Bárör svaraði: »œrr var ek þá, herra minn, er ek mælta slikt«. Uröu þá engi fçng çnnur en festa Erlingi sinn dóm á çllu því máli; tók hann þá þegar ógrynni fjár af mçrgum mçnnum, en lagöi alla ógilda, þá er drepnir váru; fór síðan aptr suör til Bjçrgynjar.

K. 27. Ferö Valdamars konungs i Nóreg. Valdamarr konungr hafði þat vár úti her mikinn i Dan-mçrk ok helt liðinu norðr i Víkina. Pegar hann kom i veldi Nóregs konungs, þá hçföu bændr fyrir samnaÖ ok múg mannz. Konungr fóra friösamliga ok spakliga; en hvar sem þeir fóru viö meginland, þá skutu menn á þá, ok þótt i. eöa ii. væri, ok þótti Dçnum þat fullr illvili landzmanna. En er þeir kómu til Túnsbergs, þá stefndi Valdamarr konungr þar þing á Haugum, en ekki sótti til ór heruðum. Pá talaði Valdamarr konungr ok mælti svá: »auösætt er

um landzfólk þetta, at allir standa oss i móti; eigum vér nú ii. kosti fyrir hçndum, þann annan, at fara herskildi yfir landit ok eira engu, hvárki fé né mçnnum; hinn er annarr kostr, at fara suör aptr viö svá búit, ok er þat nærr minu skapi, at fara heldr i austrveg til heiöinna landa, er gnóg eru fyrir, en drepa eigi hér kristit fólk, þótt þeir heföi ærna makligleika til þess«. En allir aörir váru fúsir til at herja, en þó réö konungr, at þeir fóru aptr suör, ok var þó allviöa rænt um úteyjar, ok hvarvetna þegar konungr var eigi nær. Fóru þeir suör til Danmerkr.



K. 28. Ferö Erlings til Jotlandz.

Erlingr skakki spuröi, at Dana-herr var kominn i Vikina; þá bauö hann út almenningi um alt land at liöi ok skipum, ok varö þat it mesta herhlaup, ok helt her þeim austr meö landi. En er hann kom til Liöandisness, spuröi hann, at Dana-herr var farinn suör aptr til Danmerkr ok þeir hçföu viöa rænt i Vikinni. På gaf Erlingr heimleyfi çllu leiöangrsliöi, en hann sjálfr ok nçkkurir lendir menn siglöu meö mjçk mçrg skip suör eptir Dçnum til Jótlandz. En er þeir kómu þar, sem heitir Dýrsá, þá lágu þar fyrir Danir, komnir ór leiðangri, ok hçföu skip mçrg. Erlingr lagöi at þeim ok baröisk viö þá. Danir flýðu brått ok létu mart manna, en þeir Erlingr ræntu skipin ok svá kaupstaöinn ok fengu þar allmikit fé ok fóru siöan aptr til Nóregs. Var þá um hriö ófriðr milli Nóregs ok Danmerkr.

K. 29. Ferö Erlings til Danmerkr.

Kristin konungsdóttir fór um haustit suör til Danmerkr; fór hon á fund Valdamars konungs, frænda sins; þau váru systra-bçrn; fagnaöi konungr henni forkunnar vel ok fekk henni veizlur þar meö sér, svá at hon fekk þar vel haldit sina menn. Var hon opt á tali viö konunginn, ok var hann allbliör til hennar. En eptir um várit sendi Kristin menn til Erlings ok baö hann fara á fund Dana-konungs ok sættask viö hann. Um sumarit eptir var Erlingr i Vikinni, hann bjó eitt langskip ok skipaöi inu friÖasta liöi sinu; siöan siglöi hann yfir til Jotlandz. Hann spuröi, at Valdamarr konungr var i Randarósi; siglöi Erlingr þannug ok kom til býjarins þann tima, er flest fólk sat um mat. En er þeir hçföu tjaldat ok fest skip sitt, gekk Erlingr upp ok þeir xii. saman, ok allir brynjaöir, hçföu hçttu yfir hjálmum, en sverö undir mçtlum, gengu til konungs herbergis. Pá fóru þar sendingar inn ok váru opin dyrrin; gengu þeir Erlingr þegar innar fyrir hásætit; mælti Erlingr: »griö viljum vér hafa, konungr, bæöi hér ok til heimfarar«. Konungr leit viö honum ok mælti: »ertu þar, Erlingr?«. Hann svaraöi: »Erlingr er hér, ok seg oss skjótt, hvárt vér skulum griö hafa«. Par váru inni lxxx. konungs manna, ok allir vápnlausir. Konungr mælti: »griö skuluö þér hafa, Erlingr, sem þú beiöisk; á engum manni niöumk ek, ef á minn fund kømr«. På kysti Erlingr á hçnd konungi ok gekk út siöan til skips sins. Dvalöisk hann þar um hriö meö



konungi; tçluöu þeir um sættargørö milli sin ok landanna, ok kom þat ásamt, at Erlingr settisk þar i gisling með Dana-konungi, en Åsbjçrn snara, bróðir Absalons erkibyskups, fór ti! Noregs i gisling i móti.

K. 30. Tal Valdamars konungs ok Erlings.

Pat var eitt sinn, er þeir tQluðu Valdamarr konungr ok Erlingr; mælti Erlingr: »herra, þat þykki mér likast til sætta, at þér hafið alt þat af Nóregi, sem yðr var heitit i einkamálum várum; en ef svá er, hvern hçföingja vilið þér yfir setja þar, hvárt nçkkurn danskan?«. »Nei, segir hann, engir Dana-hçföingjar munu fara vilja i Nóreg ok fásk þar við hart fólk ok óhlýðit, en hafa hér áðr ærit gott«. Erlingr mælti: »ek fór fyrir þá sçk hingat, at ek vil fyrir engan mun missa vðarrar vináttu; higat til Danmerkr hafa fyrr farit menn af Nóregi, Håkon Ivarsson ok Finnr Ärnason, ok gerði Sveinn konungr, frændi yðarr, hvárn tveggja þeira jarl sinn. Eigi em ek nú minni valdzmaðr i Nóregi, en þeir váru þá, ok gaf konungr þeim yfirsókn á Hallandi, þvi riki, er hann átti áðr. Nú þykki mér, herra, þér vel mega unna mér þess landz, ef ek gerumk yðarr maðr handgenginn. at ek halda af yðr þessu riki; svá ok Magnus konungr, sonr minn, må ok eigi mér þess synja, en ek vil við yðr vera skeyttr ok skyldr til allrar þjónostu, þeirar, er því nafni byrjar«. Slikt talaði Erlingr ok annat þessu likt ok kom svá at lykðum, at Erlingr gerðisk handgenginn Yaldamar konungi, en konungr leiddi Erling til sætis ok gaf honum jarldóm ok

